# Almanak

fyrir árið

# 1913

sem er fyrsta ár eftir hlaupár og annað ár eftir sumarauka.
Reiknað eftir afstöðu Winnipeg-bæjar í Manitoba.

---

**Safn til landnámssögu Íslendinga í Vesturheimi og fleira**

---

NÍTJÁNDA ÁR

WINNIPEG
ÚTGEFANDI OG PRENTARI ÓLAFUR S. THORGEIRSSON.
1912.

Á þessu ári teljast liðin vera:

| | |
|---|---|
| frá Krists fæðingu | 1913 ár |
| frá sköpun veraldar | 5880 ár |
| frá upphafi Íslandsbygðar | 1039 ár |
| frá siðabót Lúters | 396 ár |

Árið 1913 er sunnudagsbókstafur E.
Gyllinital: 14.

Milli jóla og langaföstu eru 5 vikur og 4 dagar.

## Myrkvar.

Árið 1913 verða þrír myrkvar á sólu og tveir á tungli:
Tunglmyrkvi 22. marz. Almyrkvi. Að litlu leyti hér sýnilegur.
Sólmyrkvi 6. apríl. Ekki sýnilegur hér, en aftur í British Columbia, Alaska og norðvestur hlutum Ameríku er hann sýnilegur.
Sólmyrkvi 31. ágúst. Sýnilegur í Nýfundnalandi á Grænlandi og í Nova Scotia.
Tunglmyrkvi 15. sept. Er hér sýnilegur.
Sólmyrkvi 30. sept. Er hér ekki sýnilegur.

## Árstíðirnar

Í Vestur-Canada er talið að

| | |
|---|---|
| Vorið byrji | 21. marz |
| Sumarið | 21. Júní |
| Haustið | 23. september |
| Veturinn | 22. desember |

## Tunglið.

Fylgistjarna jarðarinnar er tunglið. Þvermál þess er 2,163 mílur og fjarlægð þess frá jörð vorri 288,000 enskar mílur. Braut sína umhverfis jörðina gengur það á því tímabili, sem alment er kallað tunglmánuður; er það tímabil alment talið 28 dagar, en er í raun réttri 27 dagar og 8 klukkustundir, eða rétt um það bil.

## Um tímatalið.

Forn-Egyptar skiftu degi og nóttu í 12 kl.-stundir hvorn, — og hafa Gyðingar og Grikkir ef til vill lært þá venju af Babýlóníu-mönnum. Það er sagt, að deginum hafi fyrst verið skift í klukkustuudir árið 293 f. Kr., þegar sólskífa fyrst var smíðuð og sett upp í Quirinus-musterinu í Róm. Þangað til vatnsklukkurnar voru uppfundnar (árið 158 f. Kr.), voru kallarar (eða vaktarar) viðhafðir í Róm til að segja borgarbúum hvað tímanum liði. Á Englandi voru vaxkertaljós höfð fyrst frameftir, til að segja mönnum, hvað tímanum liði. Var áætlað, að á hverri klukkustund eyddust 4 þumlungar af kertinu. hin fyrsta stundaklukka (tímamælir—sigurverk) í líkingu við þær sem nú tíðkast, var ekki fundin upp fyr en árið 1250. Fornmenn á Norðurlöndum töldu flestir að dagur byrjaði með upprás sólar. Aþenumenn og Gyðingar töldu hann byrja á sólsetri, og Rómverjar, eins og vér, á miðnætti.

## Páskatímabilið.

Kirkjuþingið í Nicæa, er haldið var árið 325 eftir Krists fæðing, ákvað og leiddi í lög kirkjunnar, að páskahátíðin skyldi ætíð haldin vera hinn **fyrsta** sunnudag eftir **fyrsta** tungl,er spryngi út næst eftir 20. marzmán. Samkvæmt ákvæði þess getur páskahátíðin átt sér stað á 35 daga tímabili, nefnilega á tímabilinu frá 22. marz til 25. apríl, að þeim dögum báðum meðtöldum. Þetta tímabil er nefnt páskatímabilið. Af þessu leiðir, að ef tungl væri fult 21 marz og 22. marz bæri upp á sunnudag, þá yrði sá dagur (22.) páskadagur. fyr á ári geta páskar aldrei orðið. Þetta átti sér stað árið 1818. En sé tungl fult 18. apríl og 18. apríl bæri upp á sunnudag, yrði næsti sunnudagur, páskadagur, nefnilega 25. apríl. Það kom fyrir árið 1886.

## Páskadagur.

| | | | |
|---|---|---|---|
| 1913 | 23. Marz | 1917 | 8. Apríl |
| 1914 | 12. Apríl | 1918 | 31. Marz |
| 1915 | 4. Apríl | 1919 | 20. Apríl |
| 1916 | 23. Apþil | 1920 | 4. Apríl |

## Sóltími.

Sólarhringur er sú tímalengd,er líður á milli þess, er sólin gengur yfir ákveðna hádegislínu,og er það hin eðlilegasta skifting tímans. En sökum hinnar mismunandi hreifingar jarðarinnar umhverfis sólina og sökum bugsins á sólargangslínunni (Ecliptic), er aldrei nákvæmlega jafn-langur tími milli þess, er sól gengur yfir ákveðna línu. Af því leiðir, að það er lítt mögulegt að setja stundaklukku eftir sól. Til að ráða bót á þessum mismun, setja menn svo að önnur sól sé til, og að hún gangi með jöfnum hraða þvert yfir miðjarðarlínuna. Er sú ímyndaða sól þá stundum á undan og stundum á eftir hinni einu virkilegu sól. Er sá mismunur mestur 16 mínútur. Réttur sóltími er miðaður við hina virkilegu sól, en hinn svo kallaði ,,meðal sóltími'' aftur á móti, er miðaður við hina ímynduðn sól. Til skýringar má geta þess að það er að eins á tveim dögum á árinu—á jafndægrum haust og vor—að ,,meðal sóltíma'' og réttum sólfíma ber saman, því á þeim tveim dögum að eins er buglínan eða sólargangslínan yfir miðjarðarlínunni.

## Fyrstu peningar.

Eins snemma og sögur fara af, var gull og silfur notað sem gangeyrir, en lengi vel þektist málmurinn að eins,sem smábútar eða duft og fram á þenna dag eru margir Kínar andstæðir því, að nota mynt. A hinum miklu eyðimörkum Afríku er kaupeyrir gullduft í ánsu tali.

Gríski sagnfræðingurinn Heródót kveður Sydíumenn þá fyrstu er slegið hafi gullpeninga og talið er að silfur hafi fyrst verið slegið á eyjunni Egina 860 árum fyrir Krist. Á fornmenjasöfnum finnast peningar slegnir á Persalandi árið 350 f. K. Elsta mynt sem þektist í Gyðingalandi var kölluð darisk eða kóugseyrir, eftir Darius keisara, var hún slegin um 450 árum fyrir Krist.

## VEÐURFRÆÐI HERSCHEL'S

**er segir fyrir um veðrabreytingar, or verða á öllum tunglkomum, og meðan hvert tungl er uppi árið um kring.**

Tafla þessi er bygð á athugunum, er starfað hefir verið grandgæfilega að um langt tímabil, og er hún samin samkvæmt nákvæmum athugunum á aðdráttarafli sólarinnar og tunglsins, með tilliti til hinnar breytilegu afstöðu þeirra við jörðina.

Það er auðvelt að sjá af töflu þessari, hvers konar veðurátta eða veðurbreyting muni verða með hverjum tunglfjórðungi, og hún fer svo nálægt því, sem fram kemur, að sjaldan eða aldrei skeikar.

| Ef nýtt tungl, fyrsta kvartil, fult tungl eða síðasta kvartil kemur | Á sumri: | Á vetri: |
|---|---|---|
| milli miðmættis og kl. 2, verður | Fagurt veður | Frost, nema sunnanvindur sé, |
| " kl. 2 og 4 um morguninn | Kalt með skúrum | Snjór og stormasamt. |
| " " 4 " 6 " " | Regn | Regn. |
| " " 6 " 8 " " | Vindur og regn. | Stormasamt. |
| " " 8 " 10 " " | Breytílegt veður. | Kalt og regn, sé vindur af vestri; snjór sé vindur af austri. |
| " " 10 " 12 " " | Tíðar skúrir. | Kalt og kvast veður. |
| " " 12 " 2 e. m. | Mjög rigningasamt | Snjór og regn. |
| " " 2 " 4 " | Breytilegt veður. | Fagurt veður og hlýtt. |
| " " 4 " 6 " | Fagurt veður. | Fagurt veður. |
| " " 6 " 8 " | Fagurt, sé vindur af norðvestri | Fagurt með frosti sé vind. af n. eða n. a. |
| " " 8 " 10 " | Rigning, sé vindur af s. eða s. v. | Regn eða snjór, sé vindur af s. eða s. v. |
| " " 10 " miðnættis | Fagurt. | Fagurt veður með frosti. |

## Fastastjörnur:

Föstum stjörnum er skift í flokka eftir birtu þeirra. Stjarna,sem gefur frá sér birtu á móts við meðal birtu tuttugu björtustu stjarnanna, sem sjást, er stjarna hinnar fyrstu stærðar (Magnitude). Smærri stjörnur en sjöttu stærðar sjást ekki með berum augum, fyrstu stærðar stjörnur eru hundrað sinnum bjartari en þær. Með berum augum má sjá um 5,000 stjörnur og er tala þeirra í flokkum þannig:

| | | | |
|---|---|---|---|
| Fyrstu stærðar um | 20 | Fjórðu stærðar um | 425 |
| Annarar " " | 65 | Fimtu " " | 1100 |
| Þriðju " " | 190 | Sjötta " " | 3200 |

Sjónauki, þrjá þumlunga í þvermál, sýnir um 324,188 stjörnur. Flestir sjónaukar notaðir við stjörnufræðislegar athuganir eru miklu stærri og sýna þá náttúrlega fleiri stjörnur.

Bjartasta fastastjarnan heitir Siríus. Hún skipar að réttu lagi sess út af fyrir sig. Hún er miljón sinnum lengra frá jörðinni en sólin. Hún hefir fylgihnött sem er sjö sinnum þyngri en sól vor. Síríus er fimm þúsund sinnum bjartari en fylgihnöttur hans,en er að eins tvöfalt þyngri. Þessi fylgihnöttur fer hringferð sína um Síríus á fjörutíu og níu árum eftir því sem næst verður komist.

Fjarlægð fastastjarnanna er jafnan miðuð við tímann sem ljósið þarf til að ferðast frá þeim til jarðarinnar. Ljóshraðinn er um 186,300 mílur á **sekundu**. Ljósár er sú vegalengd nefnd sem ljósið ferðast yfir á heilu ári. Fjarlægð stjarnanna er því mæld í ljósárum.

Fáar fastastjörnur eru svo nálægar að mögulegt sé að mæla hve langt þær eru í burt. Sú sem er næst er að eins þrjú ljósár í burt. Aftur á móti er vegalengdin til Arcturus um hundrað ljósár. Arcturus er þrettán hundruð sinnum bjartari en sól vor; og nálgast jörðina með fimm mílna hraða á sekundunni.

Vega er um þrjátíu ljósár í burt; og nálgast með tíu mílna hraða á sekúndunni. Eftir tólf þúsund ár verður hún orðin pólstjarna vor.

---

## Stærst í heimi.

Mesti banki heimsins er Englandsbankinn í Lundúnum; elzti háskóli er University College í Oxford, stofnaður 1050; stærsta bókasafn heimsins er landsbókasafnið í París, er hefir næstum því 3,000,000 binda.

Stærsta leikhús heimsins er sönghöllin í París og er landspildan er hún stendur á þrjár ekrur að stærð; stærsta bronze-líkneski er standmynd Péturs mikla í St. Pétursborg, er vigtar 1100 tonn. Stærsta steinlíkneski er í Japan og er 44 feta hátt; stærsti háskóli er í Cairo, þar eru 10,000 nemendur og 310 kennarar.

Dýpsta kolanáma er skamt frá Lambert í Belgíu og er 3,500 feta djúp, stærsta skipakví er í Cardiff í Wales, rafurmagnslampi sá er mest ljósmagn hefir er í vitanum við Sidney í Ástralíu, en stærsti vitaturn heimsins stendur á Cape Henry í Virginíu og er hann 165 fet á hæð.

## Ártöl nokkurra merkisviðburða.

| | |
|---|---|
| Fall Trjóuborgar | 1182 |
| Stofnun Kartagóborgar | 878 |
| Stofnun Rómaborgar | 753 |
| Jerúsalem hertekin af Nabúkadnesar | 588 |
| Júlíus Cæsar fer til Bretlands | 55 |
| | Eftir Krist. |
| Jerúsalem eyðilögð af Týtusi | 70 |
| Constantinus keisari snýst til kristni | 313 |
| Rómverjar yfirgefa Bretland | 410 |
| Norðmenn vaða inn á Bretland. Bardaginn við Hastings. | 1066 |
| Krossferðir byrja | 1096 |
| Tyrkir taka Miklagarð | 1453 |
| Biblían fyrst prentuð í Mentz | 1462 |
| Columbus fann Ameríku | 1492 |
| England og Skotland sameinast | 1602 |
| Þrjátíu ára stríðið byrjar | 1618 |
| Bretar taka Gibraltar | 1704 |
| Friðarsamningarnir gerðir í Utrecht | 1713 |
| Frímerkjalögin gengu í gildi | 1765 |
| Bandaríkin segja sig undan Bretum | 1776 |
| Fyrsta nýlenda sett á stofn í Ástralíu | 1788 |
| Napoleon Bonaparte verður keisari | 1804 |
| Bardaginn við Trafaglar. Fall Nelson's | 1805 |
| Franski leiðangurinn við Moskva | 1812 |
| Bardaginn við Waterloo | 1815 |
| Fyrsta gufuskip fer yfir Atlandshaf | 1815 |
| Gullið fundið í Californiu | 1848 |
| Fyrsta alheimssýning haldin í London | 1851 |
| Dominion of Canada stofnuð | 1867 |

---

## Til minnis um Ísland.

Fyrst fundið Ísland af Írum á 8 öld. Af Norðmönnum 860.
Fyrst varanleg bygð hefst 874.
Fyrsta Kötlugos, er sögur fara af 894.
Fyrstu lög og alþingi sett 930.
Fyrstur trúboði Friðrik biskup, saxneskur, 981.
Fyrsti lögsögumaður, Hrafn Hængsson, kosinn af lögréttu 930.
Fyrsta kirkja er í ritum talin bygð um 984, að Ási í Hjaltadal, en það mun sanni nær, að Örlygur gamli hafi reist kirkju að Esjubergi nálægt 100 árum áður.

Fyrstur íslenzkur biskup, Ísleifur Gissursson, 1054.
Fyrstur fastur skóli á Hólum 1552.
Fyrstur íslenzkur rithöfundur kunnur, og faðir íslenzkrar sagnritunar, Ari Þorgilsson prestur, 1067, d. 1148.
Fyrsta Heklugos er sögur fara af 1104.
Fyrsta klaustur reist á Þingeyrum, 1133.
Fyrsta nunnuklaustur í Kirkjubæ í Vestur-Skaftafellssýslu 1186
Fyrstur konungur yfir Íslandi Hákon Hákonarson (konungur Norðmanna), 1262—63.
Svarti dauði geisaði, 1402.
Seinni plágan 1495.
Fyrsta prentsmiðja á Breiðabólsstað í Vesturhópi um 1530.
Fyrstur prentari, Jón Matthíasson, sænskur prestur:
Fyrstur lúterskur biskup, Gissur Einarsson, 1539.
Fyrst prentað nýja testamentið, þýtt af Oddi lögmanni Gottskálkssyni, 1540.
Fyrstur fastur latínunkóli í skálholti 1552.
Fyrsta ísl. sálmabók, sem til er, prentuð 1555.
Fyrst prentuð biblían, þýdd af Guðbrandi bisk. 1584.
Spítali stofnaður fyrir holdsveikt fólk 1652.
Fyrsta galdrabrenna 1625 (hin síðasta 1690).
Prentsmiðjan flutt frá Hólum að Skálholti 1695, og að Hólum aftur 1703.
Stórabóla geysaði 1707.
Fyrsta Jónsbók (Vídalíns) kemur út 1718.
Fyrst drukkið brennivín á Íslandi á 17. öld.
Fyrst fluttur fjárkláði til Íslands 1760.
Fyrst drukkið kaffi 1772.
Fytsta lyfjabúð á Nesi við Seltjörn 1772.
Fyrstu póstgöngur hefjast 1776.
Hið íslenzka lærdómsiistafélag stofnað í Kaumannahöfu 1779.
Ákveðið að flytja biskupsstólinn og skólann frá Skálholti til Reykjavíkur 1785.
Verzlunareinokunin konunglega afnumin 1787.
Seinasta löggjafarþing haldið að Þingvöllum við Öxará 1768.
Prentsmiðjan á Hólum flutt að Leirárgörðum 1799.
Landsyfirréttur settur á laggirnar í Rvík 1800.
Fyrsta organ sett í Leirárkirkju 1800.
Hólaskóli fluttur til Reykjavíkur 1801.
Landið gjört að biskupsdæmi 18o1.
Haldinn fyrsti yfirréttur í Reykjavík 1801.
Latínuskólinn fluttur frá Reykjavík til Bessastaða 18o5.
Hið íslenzka biblíufélag stofnað 1816.
Fyrsti vísir til fréttablaða. Klausturpósturinn kemur út 1818. (Minnisverð tíðindi ekki talin; þau komu út 1796—1808).
Prentsmiðjan flutt frá Leirárgörðum til Viðeyjar 1819.
Búnaðarfélag Suðuramtsins stofnað 1835.
Fyrsti árgangur Fjölnis birtist 1835.
Fyrst gefin út Ný félagsrit 1841, rit Jóns Sigurðssonar.

Prentsmiðjan flutt frá Viðey til Reykjavíkur 1844.
Fyrsta alþingi í Reykjavík 1845.
Latínuskólinn fluttur til Reykjavíkur frá Bessastöðum 1846.
Prestaskótinn settur í Reykjavík 1847.
Fyrsti stjórnmálafundur haldinn á Þingvöllum við Öxará 1848.
Fyrsta blað Þjóðólfs prentað 1848.
Hrossasala til útlanda byrjar um 1850.
Prentsmiðja sett á stofn á Akureyri 1852.
Fyrsta póstgufuskip kom til Reykjavíkur 1858
Spítali settur á stofn í Reykjavík 1863.
Forngripasafnið sett á stofn í Reykjavík 1863.
Barnaskóli í Reykjavík stofnaður 1863.
Þjóðvinafélagið stofnað 1870.
Fyrst fluttir inn skozkir ljáir 1871.

---

## Stærð úthafanna.

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Norður-íshafið | er | um | 4,781,000 | ferh. | míl. | flatarmá |
| Suður-Íshafið | " | " | 30,592,000 | " | " | " |
| Indlandshafið | " | " | 17,084,000 | " | " | " |
| Atlandshafið | " | " | 24,536,000 | " | " | " |
| Kyrrahafið | " | " | 50,309,000 | " | " | " |

---

### Lengstur dagur.

| | kl.t. | m. |
|---|---|---|
| Reykjavík | 20 | 56 |
| Pétursborg | 18 | 38 |
| Stokkhólmi | 18 | 35 |
| Edinborg | 17 | 32 |
| Kaupmannahöfn | 17 | 20 |
| Berlín | 16 | 40 |
| London | 16 | 34 |
| París | 16 | 05 |
| Victoría, B. C. | 16 | 00 |
| Vínarborg | 15 | 56 |
| Boston | 15 | 14 |
| Chicago | 15 | 08 |
| Miklagarði | 15 | 04 |
| Cape Town | 14 | 20 |
| Calcutta | 13 | 24 |

### Þegar klukkan er 12

á hádegi í Washington, höfuðstað Bandaríkjanna, þá er hún í

| | | |
|---|---|---|
| New York | 12.12 | e.h. |
| St. John. Nýfundnal. | 1.37 | " |
| Reykjavík | 4.07 | " |
| Edinborg | 4.55 | " |
| London | 5.07 | " |
| París | 5.17 | " |
| Róm | 5.53 | " |
| Berlín | 6.02 | " |
| Vínarborg | 6.14 | " |
| Calcutta, Indl. | 11.01 | " |
| Pekin, Kína | 12.54 | f.h. |
| Melbourne, Ástralía | 2.48 | " |
| San. Francisco | 8.54 | " |
| Lima, Perú | 12.00 | áhád |

---

TÍMINN er í þessu almanaki miðaður við 90. hádegisbaug. Til þess að finna meðaltíma annara staða, skal draga 4 mínútur frá fyrir hvert mælistig fyrir vestan þenna baug, en bæta 4 mínútum við fyrir hvert mælistig austan hans.

# JANÚAR hefir 31 dag 1913

Mörsugur

| | | |
|---|---|---|
| M | 1 | Nýársdagur—su. 7.58, sl. 4.09 |
| F | 2 | Þrælahald aftekið í Bandaríkjunum 1865 |
| F | 3 | |
| L | 4 | Konráð Gíslason dáinn 1891 11. v. vetrar |

**Barnamorðið í Betlehem, Matt. 2.**

| | | |
|---|---|---|
| S | 5 | S. e. nýár |
| M | 7 | Þrettándi (jóladagurinn gamli) |
| Þ | 6 | ● Nýtt 3.59 f m.—Knútsd.—Eldbjargarmessa |
| M | 8 | su. 7.56, sl. 4.18 — Ól. Hjaltason, bisk. d. 1569 |
| F | 9 | Napóleon 3. dáinn 1873. |
| F | 10 | |
| L | 11 | Brettívumessa 12. v. vetrar |

**Þegar Jesús var 12 ára, Lúk. 2.**

| | | |
|---|---|---|
| S | 12 | 1. s. e. þrettánda |
| M | 13 | Geisladagur |
| Þ | 14 | |
| M | 15 | ☾F. kv. 9.33 f.m. — su. 7.52, sl. 4.27 |
| F | 16 | British Museum opnað 1759 |
| F | 17 | Benjamín Franklín fæddur 1706 |
| L | 18 | Bulwer Lytton d. 1873 13. v. vetrar |

**Verkamenn í víngarði, Matt. 20.**

| | | |
|---|---|---|
| S | 19 | Níu vikna fasta — Gullið fundið í Californíu 1848 |
| M | 20 | Bræðramessa |
| Þ | 21 | Agnesarmessa |
| M | 22 | ☺F. 9.11 f. m. — su. 7.46, sl. 4.37 |
| F | 23 | Gustav Doré dáinn 1882 ÞORRI |
| F | 24 | Friðrik mikli f. 1712 Miður vetur |
| L | 25 | Pálsm.—Kirkjufél. Ísl. í V. h. st. 1885—14. v. v. |

**Fernskonar sáðjörð, Lúk. 8.**

| | | |
|---|---|---|
| S | 26 | 2. s. e. níu vikna föstu |
| M | 28 | Mozart f. 1756 |
| Þ | 28 | Holberg, danska skáldið d. 1754 |
| M | 29 | ☽Síð. kv. 1.05 f. m. — su. 7.39, sl. 4.49 |
| F | 30 | |
| F | 31 | Dr. Guðbrandur Vigfússon dáinn 1889 |

# FEBRÚAR hefir 28 daga 1913

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | ÞORRI |
| L | 1 | Brigildarmessa | 15 v. vetrar |
| | | Skírn Krists, Matt. 3. | |
| S | 2 | Langafasta | |
| M | 3 | Blasíusmessa — Mendelshon f. 1809 | |
| Þ | 4 | Sprengikvöld | |
| M | 5 | Nýtt 10.53 e.m. — su. 7.27, sl. 5.01 —Öskud. | |
| F | 6 | | |
| F | 7 | Charles Dickens fæddur 1812 | |
| L | 8 | | 16. v. vetrar |
| | | Djöfullinn freistar Jesú, Matt. 4. | |
| S | 9 | 1. s. í föstu — Baldvin Einarsson d. 1833 | |
| M | 10 | Canada afhend Englendingum 1763 | |
| Þ | 11 | | |
| M | 12 | su. 7.15, sl. 5.13. — Imbrudagar — Sæluvika | |
| F | 13 | | |
| F | 14 | F. kv. 2.05 f. m. — Lúters síðasta préd. 1546 | |
| L | 15 | | 17. v. vetrar |
| | | Kanverska konan, Matt. 15. | |
| S | 16 | 2. s. í föstu — Mhlankton fæddur 1497 | |
| M | 17 | Mich. Angeló dáinn 1563 | |
| Þ | 18 | Lúter dáinn 1546 | |
| M | 19 | su. 7.02, sl. 5.25 | |
| F | 20 | F. 7.34 e. m. | |
| F | 21 | | |
| L | 22 | Washington fæddur 1732—Þorraþræll—18. v. v. | |
| | | Jesús rak út djöful, Lúk. 11. | |
| | | | GÓA |
| S | 23 | 3. s. í föstu | |
| M | 24 | Mattíasmessa | |
| Þ | 25 | | |
| M | 26 | su. 6.50, sl. 5.37 | |
| F | 27 | Síð. kv. 2.46 e.m. — Longfellow fæddur 1807 | |
| F | 28 | | |

## MARZ hefir 31 dag 1913

| | | |
|---|---|---|
| | | GÓA |
| L | 1 | John Wesley dáinn 1791 — 19. vika vetrar |
| | | **Jesús mettar 5000 manna, Jóh. 6.** |
| S | 2 | Miðfasta — Sett 1. þing Bandaríkjanna 1781 |
| M | 3 | Jónsmessa (h.f.) |
| Þ | 4 | |
| M | 5 | su. 6.35, sl. 5.50 |
| F | 6 | Sveinbjörn Egilsson dáinn 1791 |
| F | 7 | ●Nýtt 5.54 e. m. (páska tungl) |
| L | 8 | Jón Thoroddsen dáinn 1868 — 20. vika vetrar |
| | | **Gabríel engill sendur, Lúk. 1.** |
| S | 9 | 5. s. í föstu—Bardag. milli Merrimac og Monitor |
| M | 10 | 1862 |
| Þ | 11 | |
| M | 12 | su. 6.21, sl. 6.01 — Síra Páll Þorláksson d. 1882 |
| F | 13 | Dr. Guðbrandur Vigfússon fæddur 1827 |
| F | 14 | |
| L | 15 | ☾F. kv. 2·29 e. m. — 21. vika vetrar |
| | | **Krists innreið í Jerúsalem, Matt. 21,** |
| S | 16 | Pálmasunnudagur— Gvöndard. (Guðm. h. góða |
| M | 17 | Magnús Stephensen (gamli) d. 1833 H'b.) |
| Þ | 18 | Hinrik Ibsen f. 1828 |
| M | 19 | su. 6.06, sl. 6.11 — Davið Livingstone f. 1813 |
| F | 20 | Skírdagur |
| F | 21 | Föstudagurinn langi — Benediktsmessa—Jafnd. |
| L | 22 | ○Fult 5.27 f. m. — Göthe d. 1832. 22. v. vetrar |
| | | **Krists upprisa, Mark. 16.** |
| S | 23 | Páskadagur—Reils uppreistin í Canada hefst 1885 |
| M | 24 | Góuþræll — Longfellow d. 1882 |
| | | EINMÁNUDUR |
| Þ | 25 | Boðunardagur Maríu—Einmánaðarsamk—Heitd. |
| M | 26 | su. 5.50, sl. 6.23. — Bethoven tónfræð. d. 1827 |
| F | 27 | John Bright d. 1889 |
| F | 28 | |
| L | 29 | ☽Síð. kv. 6.29 f. m.—Jón Eiríks. d. 1787—23. v. v. |
| | | **Jesús kom að luktum dyrum, Jóh. 20.** |
| S | 30 | 1. s. e. páska |
| M | 31 | |

# APRÍL hefir 30 daga 1913

EINMÁNUDUR

| | | |
|---|---|---|
| Þ | 1 | Bismark fæddur 1813 |
| M | 2 | su. 5.34, sl. 6.35 — Gambetta f. 1838 |
| F | 3 | |
| F | 4 | Oliver Goldsmith d. 1744 |
| L | 5 | 24. vika vetrar |
| | | **Jesús er góði hirðirinn, Jóh. 10.** |
| S | 6 | 2. s. e. páska — Nýtt 11.19 f. m. |
| M | 7 | |
| Þ | 8 | Kristján IX. fæddur 1818 |
| M | 9 | su. 5.19, sl. 9.45 |
| F | 10 | |
| F | 11 | |
| L | 12 | 25. vika vetrar |
| | | **Krists burtför til föðursins, Jóh. 16.** |
| S | 13 | 3. s. e. páska — Fyrsta kv. 11.10 e. m. |
| M | 14 | |
| Þ | 15 | Abraham Lincoln skotinn 1865 |
| M | 16 | su. 5.15, sl. 6.56.—Magnúsmessa (Eyjajarls h.f.) |
| F | 17 | Franklin dáinn 1790 |
| F | 18 | |
| L | 19 | Melankton dáinn 1560 Sumarmál af 26. v. v. |
| | | **Sending heilags anda, Jóh. 16.** |
| S | 20 | 4.s.e. páska— Fult 3.04 e.m.—Darvin d. 1882 |
| M | 21 | |
| Þ | 22 | |
| M | 23 | su. 4.51, sl. 7.07. — Jónsmessa (Hólab. h. s.) |
| | | HARPA |
| F | 24 | Sumard. fyrsti—Daniel Defoe d. 1731—1. v. s. |
| F | 25 | Oliver Cromwell f. 1599 |
| L | 26 | Þrælastríðið hætti 1865 |
| | | **Biðjið í Jesú nafni, Jóh. 16.** |
| S | 27 | 5. s. e. páska — Síð. kv. 11.40e. m. |
| M | 28 | |
| Þ | 29 | Krímstríðið hætti 1856 |
| M | 30 | su. 4.38, sl. 5.18 |

# MAÍ hefir 31 dag 1913

| | | |
|---|---|---|
| | | HARPA |
| F | 1 | Uppstigningard.—Tveggja post. messa —2. v.s. |
| F | 2 | |
| L | 3 | Krossmessa á vori (fundinn krossinn) |

**Þegar huggarinn kemur, Jóh. 15.**

| | | |
|---|---|---|
| S | 4 | 6. s. e. páska |
| M | 5 | Napóleon Bonaparte dáinn 1821 |
| Þ | 6 | ●Nýtt 1.55 f. m. |
| M | 7 | su. 4.25, sl. 7,28 |
| F | 8 | John Stuart Mill dáinn 1873 — 3. v. sumars |
| F | 9 | |
| L | 10 | Eldaskildagi |

**Sá, sem elskar mig, Jóh. 14.**

| | | |
|---|---|---|
| S | 11 | Hvítasunnudagur — Helgavika |
| M | 12 | John Herschell d. 1871 |
| Þ | 13 | ☽Fyrsta kv. 5.16 f. m. |
| M | 14 | su.4.16,sl.7.38—Imbrud.—Sæluv.—Vinnuhj.s.d. |
| F | 15 | Hallvarðsmessa—P. bisk. Péturs.d.1891. 4. v.s. |
| F | 16 | |
| L | 17 | Tómas Sæmunndsson dáinn 1841 |

**Kristur og Nikódemus, Jóh. 3.**

| | | |
|---|---|---|
| S | 18 | Trínitatis — Þrenningarhátíð |
| M | 19 | Gladstone dáinn 1898 |
| Þ | 20 | ○Fult 0.49 f.m.—ChristopherColumbus d. 1506 |
| M | 31 | su. 4.05, sl. 7.49 |
| F | 22 | Dýrid. — Sæmundur fróði d. 1135. 5. v. sumars |
| F | 23 | SKERPLA |
| L | 24 | Victoria drottning fædd 1819 |

**Hinn auðugi maður, Lúk. 16.**

| | | |
|---|---|---|
| S | 25 | 1. s. e. trín. — Úrbanusmessa |
| M | 26 | Jónas Hallgrímsson d. 1845 |
| Þ | 27 | ☾Síð. kv. 5.35 e. m. — Calvin d. 1564 |
| M | 28 | su. 3.58, sl. 7.58 |
| F | 29 | Gísli Brynjólfsson d. 1888 — 6. v. sumars |
| F | 30 | Eggert Ólafsson d. 1768 |
| L | 31 | Jón Guðmundsson, ritstjóri d. 1876 |

| JÚNÍ | hefir 30 daga | 1913 |
|---|---|---|

SKERPLA

Hin mikla kvöldmáltíð, Lúk. 14.

| | | |
|---|---|---|
| S | 1 | 2. s. e. trín. |
| M | 2 | Garibaldi dáinn 1883 |
| Þ | 3 | |
| M | 4 | Nýtt 1.28 e.m. — su. 3.52, sl. 8.05 |
| F | 5 | 7. v. sumars |
| F | 6 | Alexandet mikli dáinn 356 f. K. |
| L | 7 | Tómas Sæmundsson fæddur 1807 |

Hinn týndi sauður, Lúk. 15.

| | | |
|---|---|---|
| S | 8 | 3. s. e. trín. — Jón Hjaltalín, landlæknir d. 1870 |
| M | 9 | Charles Dickens d. 1870 |
| Þ | 10 | |
| M | 11 | F. kv. 10.08 f. m. — su. 3.50, sl. 8.09 |
| F | 12 | W. C. Bryant d. 1878 — 8. v. sumars |
| F | 13 | Jón Sveinson, landlæknir d. 1803 |
| L | 14 | Sigurður Melsted, lektor d. 1897 |

Verið miskunnsamir, Lúk. 6.

| | | |
|---|---|---|
| S | 15 | 4. s. e. trín. |
| M | 16 | |
| Þ | 17 | Jón Sigurðsson f. 1811 |
| M | 18 | Fult 11.25 f. m. — su. 3.49, sl. 8.13 |
| F | 29 | 9. v. sumars |
| F | 20 | |
| L | 21 | Kristján Jónsson, káld f. 1843 |

Jesús kennir af skipi, Lúk. 5.

| | | |
|---|---|---|
| S | 22 | 5. s. e. trín. — Sólstöður; lengstur dagur |
| | | SÓLMÁNUDUR |
| M | 23 | |
| Þ | 24 | Jónsmessa — Kristni lögtekin á Íslandi 1000 |
| M | 25 | su. 3.51, sl. 8.14 —Ágsborgarjátningin 1530 |
| F | 26 | Síð. kv. 11.12 f. m. — 10. v. sumars |
| F | 27 | |
| L | 28 | Victoria drottning krýnd 1838 |

Réttlæti fariseanna. Matt. 5.

| | | |
|---|---|---|
| S | 29 | 6. s. e. trín. — Pétursmessa og Páls. |
| M | 30 | |

# JÚLÍ hefir 31 dag 1913

SÓLMÁNUDUR

| | | |
|---|---|---|
| Þ | 1 | Dominiondagur |
| M | 2 | Þingmariumessa Sviðhúnsmessa h. f. |
| F | 3 | Nýtt 10.37 e. m. 11. v. sumars |
| F | 4 | Frelsisdagur Bandaríkjanna (1776) |
| L | 5 | |

Jesús mettar 4000 manna, Mark. 8.

| | | |
|---|---|---|
| S | 6 | 7. s. e. trín. |
| M | 7 | |
| Þ | 8 | Seljumannamessa |
| M | 9 | su. 4.01, sl. 8.10 |
| F | 10 | Fyrsta kv. 3.08 e. m. 12. v. sumars |
| F | 11 | |
| L | 12 | |

Um falsspámenn, Matt. 7.

| | | |
|---|---|---|
| S | 13 | 8. s. e. trín. — Margrétarmessa |
| M | 14 | |
| Þ | 15 | Sviðhúnsm. h. s.—Krossfarendur tóku Jerúsalem |
| M | 16 | su. 4.06, sl. 8.04. (1099 |
| F | 17 | Fult 11.37 e. m. 13. v. sumars |
| F | 18 | |
| L | 19 | |

Hinn rangláti ráðsmaður, Lúk. 16.

| | | |
|---|---|---|
| S | 20 | 9. s. e. trín. —Þorláksmessa (á sumri) |
| M | 21 | Robert Burns dáinn 1796 |
| Þ | 22 | |
| M | 23 | su. 4.15, sl. 7.55 — Hundad. byrja— Aukanætur |
| F | 24 | 14. vika sumars |
| F | 25 | Jakobsmessa |
| L | 26 | Síð. kv. 3.30 f. m. |

Jesús grætur yfir Jerúsalem, Lúk. 19.

HEYANNIR

| | | |
|---|---|---|
| S | 27 | 10. s.e. trín—Atlantshafs-ritsíminn fullgerði 1866 |
| M | 28 | |
| Þ | 29 | Ólafsmessa h. f. |
| M | 30 | William Penn d. 1718—Bismark dáinn 1898 |
| F | 31 | su. 4.27, sl. 7.44 15. v. sumars |

ÁGÚST hefir 31 dag 1913

HEYANNIR

F 1 | Bandadagur — Jón Espólín d. 1836
L 2 | ●Nýtt 6.29 f.m.—Ben. Sveinsson, sýslum. d. 1899

Faríseinn og tollheimtumaðurinn, Lúk. 18.

S 3 | 11. s. e. trín. — Ólafsmessa (h. s.)
M 4 | H. C. Andersen d. 1875
Þ 5 | Brynjólfur bisk. Sveinsson d. 1675
M 6 | su. 4.35, sl. 7.35 — Krists dýrð
F 7 | 16. v. sumars
F 8 | ☾F. kv. 9.34 e. m. — Canning d. 1827
L 9 | Capt. Marryat d. 1818

Daufi og málhalti maðurinn, Mark. 7,

S 10 | 12. s. e. trín. — Larentíusarmessa
M 11 |
Þ 12 |
M 13 | su. 4.46, sl. 7.24 — Bóluhjálmar d. 1876
F 14 | Napóleon 1. d. 1769 17. v. sumars
F 15 | Maríumessa h. f.
L 16 | ☺Fult 1.58 e. m.

Samarítinn og Levítinn, Lúk. 10.

S 17 | 13. s. e. trín. — Sveinbjörn Eyjólfsson d. 1852
M 18 |
Þ 19 | Gestur Pálson d. 1891
M 20 | su. 4.56, sl. 7.0
F 21 | 18. v. sumars
F 22 |
L 23 | Hundadagar enda

Tíu líkþráir, Lúk. 17.

S 24 | 14. s. e. trín.—☽Síð. kv. 5.49 e.m.—B. Thorarensen dáinn 1841.) TVÍMÁNUÐUR
M 25 |
Þ 26 |
M 27 | su. 5.07, sl. 6.56 — Ágústin d. 430
F 28 | 19. v. sumars
F 29 | Höfuðdagur—Jóh. skír. hálsh.—Jón bisk. Vídalín
L 30 | John Bungan d. 1688. (dáinn 1720

Enginn kann tveimur herrum að þjóna, Matt. 6.

S 31 | 15. s. e. trín. — ●Nýtt 2.09 e. m.

## SEPTEMBER hefir 30 daga 1913

TvímánuÐur

| | | |
|---|---|---|
| M | 1 | |
| Þ | 2 | Grundtvík d. 1872 |
| M | 3 | su. 5. 19, sl. 6.41 — Cromwell d. 1658 |
| F | 4 | Franska líðveldið stofnað 1870. 20. v. sumars |
| F | 5 | |
| L | 6 | McKinley forseti skotinn 1901 |

**Sonur ekkjunnar af Nain, Lúk. 7.**

| | | |
|---|---|---|
| S | 7 | 16. s. e. trín. — Fyrsta kv. 6.37 f. m. |
| M | 8 | Maríumessa — Jerúsalem hertekin 70 |
| M | 10 | su. 5.28, sl. 6.26 |
| F | 11 | 21. v. sumars |
| F | 12 | Bardaginn við Quebec og fall Wolfe hersh. 1759 |
| L | 13 | Bretar taka Quebec 1759 |

**Vatnsjúki maðurinn, Lúk. 14.**

| | | |
|---|---|---|
| S | 14 | 17. s. e. trín. — Wellington d. 1852 |
| M | 15 | Fult 6.17 f. m. |
| Þ | 16 | Moscow-borg brend 1812 |
| M | 17 | su. 5.38, sl. 6.11 — Imbrudagar — Sæluvika |
| F | 18 | 22. v. sumars |
| F | 19 | |
| L | 20 | Walter Scott d. 1832 |

**Hvers son er Kristur? Matt. 22.**

| | | |
|---|---|---|
| S | 21 | 18. s. e. trín. |
| M | 22 | |
| Þ | 23 | Síð. kv. 6.01 f. m.— Jafnd. á hausti — Snorri Sturluson veginn 1241. HaustmánuÐur |
| M | 24 | su. 5.50, sl. 5.55 |
| F | 25 | Björn Gunnlaugsson f. 1788. 23. v. sumars |
| F | 26 | |
| L | 27 | |

**Limafallssjúki maðurinn, Matt. 9.**

| | | |
|---|---|---|
| S | 28 | 19. s. e. trín. — L. Pasteur d. 1895 |
| M | 29 | Mikaelsmessa — Nýtt 10.28 e. m. |
| Þ | 30 | |



# St. John's Condition Powders

Hið áhrifamikla, blóðhreinsandi, taugastyrkjandi og lífgandi meðal. Hleypir kraft og dugnað í allan kvikfénað.

---

St. John's Condition Powders er ráðlagt við eftirfylgjandi:

HROSS

Ormum
Lystarleysi
Húðsjúkdómum
Uppþembu
Þvagteppu
Hósta og kvefi
Harsperru
Hrossasótt
Húðfestu
Deyfð
Jórturtapi
Njálg og
öllum tegundum
algengra kvilla.

NAUT

Lystarleysi
Sýktu blóði
Skemdu blóði
Harðlífi
Húðfestu
Jórturtapi
Texas hitasótt
o. s. frv.

KINDUR

Lystarleysi
Ullar-töpun
og annan
lasleik.

SVÍN

Kýli
Deyfð
Mjólkur-sótt

FUGLAR

Við öllu sem
að þeim kann
að ganga.

ST. JOHN'S CONDITION POWDERS

Allstaðar selt 25c. pakkinn

THE MARTIN, BOLE & WYNNE COMPANY

Einu eigendur. Winnipeg, Canada.

---

# St. John's Horse Worm Powders

Er ágætt til að eyðilegga orma í Hrossum, Nantgripum, Kindum, Svínum, Fuglum.

Verð 25c. pakkinn---sent með pósti.

## The Martin, Bole & Wynne Company

Einu eigendur. Winnipeg, Canada.

# OKTÓBER hefir 31 dag 1913

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | HAUSTMÁNUÐUR |
| M | 1 | su. 6.00, sl. 5.39 | |
| F | 2 | | 24. v. sumars |
| F | 3 | Pétur Pétursson biskup f. 1787 | |
| L | 4 | | |
| | | **Brúðkaupsklæðin, Matt. 22.** | |
| S | 5 | 20. s. e. trín. | |
| M | 6 | ☾F. kv. 7.17 e.m. — Eldadagar | |
| Þ | 7 | Edgar Poe d. 1849 | |
| M | 8 | s. 6.11, sl. 5.25 | |
| F | 9 | Chicago brann 1871 | 25. v. sumars |
| F | 10 | | |
| L | 11 | | |
| | | **Konungsmaðurinn, Jóh. 4.** | |
| S | 12 | 21. s. e. trín. — Columbus fann Ameríku 1492 | |
| M | 13 | | |
| Þ | 14 | ○Fult 11.38 e. m. — Kalixtusmessa | |
| M | 15 | su.6.22, sl.5.10—Gregoriska tímatalið innl. 1582 | |
| F | 16 | | 26. v. sumars |
| F | 17 | | |
| L | 18 | Lúkasmessa | |
| | | **Tíu þúsundir punda. Matt. 18.** | |
| S | 19 | 22. s. e. trín. — Jónatan Swift d. 1749 | |
| M | 20 | Síra Jón Thorláksson d. 1819 | |
| Þ | 21 | | |
| M | 22 | su. 6.33, sl. 4.50 — ☽Síð. kv. 4.25 e. m. | |
| F | 23 | W. Penn steig á land í Am. 1681. V.næt. 27.v.s. | |
| F | 24 | | |
| | | | GORMÁNUÐUR |
| L | 25 | Fyrsti vetrar dagur. | 1. v. vetrar |
| | | **Skattpeningurinn, Matt. 22.** | |
| S | 26 | 23. s. e. trín. | |
| M | 27 | Síra Hallgrímur Pétursson dáinn 1674 | |
| Þ | 28 | | |
| M | 29 | ●Nýtt 8.00 f. m. — su. 6.44, sl. 4.42 | |
| F | 30 | | |
| F | 31 | Reformation Lúters 1517 | |

## NÓVEMBER hefir 30 daga 1913

GORMÁNUDUR

| | | | |
|---|---|---|---|
| L | 1 | Allra heilagramessa | 2. v. vetrar |
| | | Jesús predikar um sælu, Matt. 5. | |
| S | 2 | 24. s. e. trín. — Jenny Lind d. 1887 | |
| M | 3 | | |
| Þ | 4 | | |
| M | 5 | Fyrsta kv. 0.05 e. m. — su. 6.57, sl. 4.30 | |
| F | 6 | | |
| F | 7 | Jón Arason og synir hans hálshögnir 1550 | |
| L | 8 | Milton d. 1674 | 3. v. vetrar |
| | | Viðurstygð eyðileggingarinnar, Matt. 24. | |
| S | 9 | 25. s. e. trín. — Skúli Magnússon d. 1794 | |
| M | 10 | Lúter f. 1483 | |
| Þ | 11 | Marteinsmessa | |
| M | 12 | su. 7.08, sl. 4.20 | |
| F | 13 | Fult 4.42 e. m. | |
| F | 14 | Rasmus Kristján Rask d. 1832 | |
| L | 15 | | 4. v. vetrar |
| | | Ég þakka þér faðir, Matt. 11. | |
| S | 16 | 26. s. e. trín. — Jónas Hallgrímsson f. 1807 | |
| M | 17 | Suez skurðurinn oppnaður 1869 | |
| Þ | 18 | | |
| M | 29 | su. 7.19, sl. 4.13 | |
| F | 20 | | |
| F | 21 | Maríumessa — Síð. kv. 1.28 f. m. | |
| L | 22 | | 5. v. vetrar |
| | | Krists dýrð, Matt. 16. | |
| S | 23 | 27. s. e. trín. | |
| | | | YLIR |
| M | 24 | | |
| Þ | 25 | | |
| M | 26 | su. 7.30, sl. 4.05 | |
| F | 27 | Nýtt 7.12 e. m. — Grímur Thomsen d. 1896 | |
| F | 28 | Washington Irving d. 1850 | |
| L | 29 | | 6. v. vetrar |
| | | Krists innreið í Jerúsalem, Matt. 21, | |
| S | 30 | 1. s. í jólaföstu — Aðventa | |

## DESEMBER hefir 31 dag 1913

YLIR

M 1
Þ 2 Bardaginn við Austerlitz 1865
M 3 su. 7.40, sl. 4.00
F 4
F 5 ☾F. kv. 8.30 f. m. — Mozart dáinn 1791
L 6 7. v. vetrar

**Teikn á sól og tungli, Lúk. 21.**

S 7 2. s. í jólaföstu — Jón Sigurðsson dáinn 1879
M 8 Maríumessa
Þ 9
M 10 su. 7.48, sl. 3.58
F 11
F 12 Skúli Magnússon, landfógeti fæddur 1711
L 13 ☺Fult 8 31 f. m. — Lúcíumessa 8. v. vetrar

**Jóhannes í böndum, Matt. 11.**

S 14 3. s. í jólaföstu
M 15
Þ 16
M 17 su. 7.54, sl. 3.59 — Imbrudagar — Sæluvika
F 18
F 19
L 20 ☽Síð. kv. 9.47 f. m. 9. v. vetrar

**Vitnisburður Jóhannesar skírara, Jóh. 1.**

S 21 4. s. í jólaföstu — Tómasmessa
M 22 Sólhvörf, skemstur dagur
Þ 23 Þorláksdagur

MÖSUGUR

M 24 Aðfangadagur— Nóttin helga—su. 7.56, sl. 4.01
F 25 Jóladagur
F 26 Annar í jólum
L 27 ● Nýtt 8.36 f. m. (jólatungl) 10. v. vetrar

**Símon og Anna, Lúk. 2.**

S 28 s. milli jóla og nýárs
M 29 Gladstone f. 1809
Þ 30
M 31 Gamlársdagur — su. 7.59, sl. 4.09

# Almanak.

19 ár. Winnipeg 1913

## Vilhjálmur Stefánsson.



SJALDGÆFT er það, að Íslendingur verði frægur fyrir ferðir um ókunna hluta heimsins. Þeir hafa hingað til þózt hafa nóg með að kynna sér menningarlöndin og sjá það, sem allir aðrir hafa séð. Vilhjálmur Stefánsson er undantekning Hann sýndi það hugrekki fyrir nokkurum árum, að leggja af stað í rannsóknarferð til Grænlands. Þar hefir hann eytt einum þrem ár-

um, til þess að kynna sér lifnaðarhætti Eskimóanna og auka þekkingarforða heimsins um þann lítt-kunna mannflokk, sem elur aldur við ís og myrkur á þeim enda jarðar, er upp snýr.

Vilhjálmur er enn korn-ungur maður að heita má. Faðir hans var Jóhann bóndi á Kroppi í Eyjafirði, Stefánsson, frá í Tungu á Svalbarðsströnd; hann er dáinn fyrir nokkuru í bygðinni íslenzku í Norður-Dakota. Móðir Vilhjálms er enn á lífi, Ingibjörg Jóhannesdóttir frá Bægisá, stjúpdóttir Arngríms prests, og hálfsystir Jóhannesar Arngrímssonar, sem kunnur er úr fyrstu landnámssögu Íslendinga í Ameríku. Vilhjálmur var snemma bókhneigður, fór á háskólann í Grand Forks og var þar nokkur ár, án þess þó að útskrifast. Þaðan fór hann til Iowa City, á háskóla Iowa-ríkis. Þar hitti hann fyrir norskan kennara, prófessor Flom, sem tók hann að sér og lét hann njóta þess, að hann var Íslendingur, eins og Norðmönnum er gjarnt. Þar tók hann að stunda norræn fræði. Prófessor Flom mun hafa útvegað honum námsstyrk við Harvard-skólann. Og þar var hann um hríð og mun hafa lagt fyrir sig mannfræði (A n t h r o p o l o g y) að einhverju leyti. Upp frá því kemst hann í samband við bókaverzlan, eina hina elztu og auðugustu hér í landi. Fyrir áeggjan hennar og tilstyrk tekur Vilhjálmur það að sér að leggja af stað í Grænlandsför og vita hvers hann verður fróðari.

Úr þeirri ferð kom hann alfari síðla sumars. Höfðu blöðin þegar fregnir af ferðum hans og uppgötvunum og færðu í stílinn, eins og þeim er gjarnt, til þess sem mest góðgæti yrði fyrir lesendur. Staðhæfðu þau, að Vilhjálmur þættist hafa fundið ljóshærðan kynflokk Eskimóa á Grænlandi, sem hlyti að vera afkomendur íslenzku nýlendunnar, er forfeður vorir mynduðu þar á söguöldinni, og væri

þeir að minsta kosti 2000 að tölu. Út af þessrari frásögn blaðanna risu þegar mótmæli fróðra manna, sem vildu véfengja alt þetta. Einkum átti það sér stað í Noregi, með fram sjálfsagt vegna þess, að Norðmenn hafa orðið frægir af heimskautaferðum sínum og þykjast þess vegna vita meira en aðrir nú á dögum um Grænland og Eskimóa.

En nú hefir Vilhjálmur sjálfur gert nokkura grein



Svona líta Eskimóarnir út, sem Vilh. Stefánsson fann og haldið er að muni vera afkomendur Íslendinganna fornu.

ferða sinna og uppgötvana í blöðum og tímaritum Bandaríkja. Eskimóa-ættflokk þann, sem hér er um að ræða, hefir hann hitt við Krýningar-flóa (Coronation Gulf) svo nefndan. Bendir hann á, að sjófarendur muni fyrr hafa orðið þeirra varir, þótt hann hafi fyrstur manna gert sér ljóst, að hér var um verulega uppgötvan að ræða. Í blaðinu New York Sun, 15. sept., gerði Vilhjálmur fyrst grein þess, er honum þótti markverðast í sambandi við ferðalag sitt. Segir hann fólk það, er hann hafi fundið lægra vexti en Alaska Eskimóa, og að yfirlitum nokkuð ljós-

ara". Nokkurir voru rauðskeggjaðir með ljósar augnabrýr, svo þegar Vilhjálmur var með þeim, álitu þeir að hann væri sjálfur Eskimói. Hann varð var við eina tólf, sem voru bláeygir. En að tölu álítur hann ættflokk þenna nálægt 1000 manns. Mál af hauskúpu þeirra sýndi alt annað höfuðlag, en kunnugt er, að nokkurir Eskimóar aðrir hafi. Álítur hann því, að kynflokkur þessi sé blendingur Eskimóa og Norðurálfumanna. Líklegast þykir honum, að norræna nýlendan hafi aldrei verið upprætt með öllu, en að mestur þorri hennar hafi komist af, og að afkomendur þessarra norrænu landnema hafi blandast Eskimóum. Hafi kynflokkur þessi varðveitt nokkur ættarmerki, er beri vott um þessa blöndun Eskimóa-blóðsins við blóð Víkinganna. Í bók sem prentuð var í Rotterdam á Hollandi árið 1658 eftir De Poincy: Histoire Naturelle & Morale des Iles Antilles de l'Amérique, er sagt frá Eskimóa-flokki einkennilegum, sem vakti eftirtekt hollenzks skipstjóra. Virðist frásögnin benda til þess, að hann hafi séð sama fólkið, en blöndunin hafi þá ekki verið orðin nærri því eins fullger og nú.

Í tímaritinu Harpers Weekly (26. okt.) bendir Vilhjálmur á, að Franklin, heimskautafarinn frægi, muni hafa orðið var við sama ættflokkinn. 16. júlí 1824 hafi hann séð Eskimóaflokk í grend við Koparnámafljót. Hlupu þeir allir brott nema einn maður, sem svo var ellihrumur, að hann komst eigi. Síðan sáu einhverir af förunautum Franklins aðra Eskimóa á hinum bakkanum, og tveir þeirra komu á bátum sínum nógu nærri til þess túlkur Franklins-fararinnar gæti talað við þá. Um útlit þessarra tveggja segir Franklin samt ekkert, en um öldunginn, sem hann gat virt fyrir sér nákvæmlega, fer hann þessum orðum:

„Andlitið vor togið og nefið býsna hátt, og var ekki ólíkt andliti Norðurálfumanna, nema hvað augun voru

smærri og ennið lágt. Hann var hjálmfagur og rauðleitur. Hann hafði lengra skegg en eg hefi hingað til veitt eftirtekt meðal frumbyggja Ameríku. Það var milli tveggja og þriggja þumlunga á lengd og snjóhvítt".

Þetta segist Vilhjálmur hafa lesið fyrir mörgum árum, en hann hafi ekki rent neinn grun í, hvað í myndi felast. ,,Hundruðum saman hafa lesið og enginn fengið þá hugmynd í höfuð sér, að til væri ,,ljóshærðir Eskimóar, eins og blöðin nú komast að orði, og þó gæti lýsing þessi einmitt átt heima um einkennilegan mann í hópi þeirra, sem eg hefi fundið á sömu stöðvum nærri hundrað árum síðar. Sjálfsagt hefir Franklin ekki gert sér í hugarlund, að hann væri að lýsa Eskimóa, sem annað útlit hefði en Eskimóum er leyfilegt. Þekking um kynflokka og arfgengi var þá eigi jafn-langt á leið komin og nú. Engan grunaði þá, að Franklin hefði gert vísindalega uppgötvan. Nú sjáum vér glögt, að hér hefir gerð verið veruleg uppgötvan, sumpart vegna þess að nú urðum við handgengnir þessum mönnum hundruðum saman, þar sem Franklin sá að eins einn nærri sér, og sumpart líka vegna þess, að augu vor nú á tímum verða þess þegar vör, að einhver gáta eða dularfult fyrirbrigði er á ferðum, þegar fundnir eru margir menn með einkennum Norðurálfubúa á þeim stöðvum, er engra er von".

Þessi lýsing Franklins segir Vilhjálmur, að alveg geri út af við þann misskilning, að fólk þetta sé afkomendur einhverra af samferðamönnum Franklins, sem orðið hafi þarna eftir. Fáeinir af þessum mönnum‘ segir hann líka, myndi verða álitnir Norðurálfumenn, ef þeir væru klæddir eins, hvort heldur meðal Eskimóa í Alaska eða meðal Norðurálfumanna í New York. Í náttúrusögusafn New York borgar hefir Vilhjálmur sett all-mikið af vopnum og áhöldum þessa ljósleita Eskimóa-kynflokks. Eru

mörg þeirra gerð úr kopar, en það er málmur, sem menn vita ekki til að notaður sé af nokkurum Eskimóum. Dr. Frederick A. Lucas, sem er umsjónarmaður safnsins, hefir gefið út og birt álit sitt um, að skoðanir Vilhjálms muni vera á rökum bygðar.

F. J. BERGMANN.





# SAFN
## TIL
## LANDNÁMSSÖGU ÍSLENDINGA Í VESTURHEIMI.

## Landnám Mouse River-bygðar í N.-Dakota

Eftir Sigurd Jónsson.

Hér um bil 30 mílur í suður frá Turtle Mountain í Norður-Dakota, er landspilda ein einkar fögur, sem nefnd er Mouse River dalur, frá suðaustri til norðvesturs. Útjaðra hans mynda valllendisbakkar, sem eru miklu hærri en láglendið. Eptir dalnum rennur á ein, sem nefnd er Mouse River, sem héraðið dregur nafn af. Meðfram ánni beggja vegna liggur óslitið engi nál. 100 mílur á lengd og tvær til þrjár mílur á breidd. Engi þetta er mjög grasgefið og alt vel slétt. Það hefir verið álit sumra manna, að fegurra og betra engi muni ekki vera í N.-Dakota og jafnvel þótt víðar væri leitað. Í sumum árum flæðir áin yfir bakka sína er snjóa leysir á vorin; fer þá alt láglendi í kaf, og er þá sem yfir breiðan fjörð að líta; vatn þetta liggur yfir stundum einn til tvo mánuði og heftir samgöngur innan bygðarinnar, sem liggur beggja vegna með fram dalbrúnum. Fara menn þá á bátum fram og aftur erinda sinna. Nokkrir bændur höfðu reist sér bústaði á láglendi þessu; bjuggu þar um nokkur ár, þar til flóð kom, og færðu þeir þá bygð sína upp á hálendið.

Með fram ánni liggur alllangt skógarbelti í norður frá Towner, alla leið til íslenzku bygðarinnar. Að skógi þeim er gagn mikið og prýði fyrir héraðið; viðartegundir eru: askur, álmur og eik; allstórir víðir-toppar eru niður með ánni. Á því svæði tóku Íslendingar sér bólfestu og settust að fyrir 26 árum síðan beggja vegna með dalbrúnum. Allir hinir fyrstu frumbyggjar keptust við að ná í hið blómlega, grasgefna engi; álitu, sem var, að auðveldara væri að færa sér það í nyt heldur en slétturnar, þar sem kraftinn vantaði til að ná úr henni auðlegð þeirri, sem hún hafði í sér fólgna. Þeir, sem seinna komu, urðu að sætta sig við slétturnar og skánka út úr bygðinni inn á milli annara þjóðflokka. Nágrannar Íslendinga eru: Norðmenn, Svíar Ameríkumenn, Þjóðverjar og Rússar. Nýlendan liggur aðllega í McHenry County og lítill hluti í Bottineau County. Tala Íslendinga, sem land hafa numið á þessu svæði, er um sextíu.

Þegar hinir fyrstu landnámsmenn komu til nýlendunnar, höfðu hjarðmenn nokkrir sezt að undir skógi þeim, sem liggur með fram ánni, lagt þar undir sig allstórar landspildur. Sumt af því landi höfðu þeir að heimildum tekið, sumt með yfirgangi. Bústaðir þeirra voru hinir fegurstu í héraðinu og skjól fyrir flestum áttum. Hjarðmenn þessir ríktu sem konungar á höfuðbólum þessum.

Hin fyrsta og helzta tekjugrein íslenzkra landnema var atvinna sú, sem hjarðmenn þessir veittu sumar og vetur. Félitlum mönnum var það styrkur mikill. Enn þá reka hjarðmenn atvinnu þessa og enn þá eru þeir farsælir vinnuveitendur. Íslendingar hafa ávalt haft fyrsta tækifæri til vinnu hjá þeim og hafa getið sér þann orðstýr að vera betri vinnumenn en aðrir samverkamenn þeirra.

Heyskap hafa hjarðmenn þessir stundað í stórum stíl. Heyið setja þeir saman á enginu í stakka. Fyrst er heyinu rakað saman í garða, þarnæst dregið saman með búlrekum að stakkaranum, sem færir heyið upp í stakkinn með hestafli, þar sem einn eða fleiri menn eru fyrir að stakka því. Heyskaparaðferð þessa tóku Íslendingar brátt upp; fyrst framan af allmargir saman, seinna í fleiri hópum og sumir einir.

*HELGI* hét maður *GUÐMUNDSSON,* frá Ferjubakka í Mýrasýslu. Guðmundur faðir Helga var bróðir þeirra Guð-

brandar hins ríka í Hólmláti og Magnúsar í Haukatungu í Hnappad.s. Helgi Guðmundsson bjó að Ölvaldsholti í Mýrasýslu; kona hans var Helga Eyvindardóttir frá Gerðubergi í Hnappadalssýslu, Gíslasonar frá Langholti í Borgarhreppi. Kona Eyvindar en móðir Helgu var Guðbjörg Guðmundsdóttir frá Eyðhúsum, Þórðarsonar frá Hjarðarfelli í Hnappadalssýslu. Sú ætt er allfjölmenn þar um sveitir. Hjarðarfells-ættin er til þess tekin að vera auðugri af fríðleiksfólki en flestar ættir aðrar í þeim héröðum. Helgi átti þrjá syni við húsfreyju sinni: Guðmundur var hinn elzti,



Helga Eyvindardóttir, Guðmundsson.

þá Jónas og Árni yngstur. Dóttir hans var Guðbjörg; verður þeirra allra nánar getið síðar. Helgi var kvæntur fyrri; átti hann dóttur eina frá því hjónabandi er Ingibjörg heitir og gift er brezkum manni, og búa þau hjón innan íslenzku bygðarinnar. Helga húsfreyja hafði og áttan son fyrri, er Jón heitir; var faðir hans Jón Jónssonar frá Þorsteinsstöðum í Laxárdal í Dalasýslu. — Helgi Guðmundsson átti sem margir aðrir í þann tíma á Íslandi þröngva kosti; fýstist hann því að leita örlaga sinna vestur um haf, sem allmargir á þeim árum létu sér sóma. Bjó hann sig með alt skyldulið sitt og fór alfarinn af landi brott í Ágústmánuði 1881. Hann kom fram í borginni Elg Rapids í ríkinu Michigan í Bandaríkjun-

um í September-mánuði. Þar höfðu frændur þeirra hjóna tekið sér bólfestu. Í borg þessari dvaldi Helgi hálft þriðja ár; stundaði hann þar daglaunavinnu; staða sú sýndist honum ekki vera arðberandi fyrir sig og niðja sína, og tók hann sig því upp vorið 1884 og flutti til Akra í Norður-Dakota. Festi Helgi þar land með forkaupsrétti; bjó hann þar hin næstu þrjú ár; þá var orðið þröngbýlt þar í sveitum og ekki kostur á heimilisréttarlöndum. Helgi nam þar ekki yndi og sýndist því að leita annarsstaðar fyrir sér. Tók hann sig upp snemma í Nóvember 1886, ásamt sex mönnum öðrum. Í liði Helga voru þeir Jón stjúpsonur hans og Guðmundur Frímann, stjúpsonur Lárusar Frímanns, bónda við Akra.

Héldu þeir félagar beint í vestur og léttu ekki ferð sinni fyrr en þeir komu vestur fyrir Turtle Mountain, og þaðan sem leiðir liggja ofan á brúnir hins fagra Mouse River dals. Námu þeir félagar staðar á nesi einu, sem gekk út í ána. Helgi leit yfir héraðið og sýndist fagurt og búsældarlegt, fanst honum sjálfsagt að hér yrði framtíðar land niðja sinna. Mjög sennilegt, að honum hafi dottið í hug orð skáldsins um Gunnar á Hlíðarenda: "Hér mun eg una æfi minnar daga, alla, sem guð mér sendir." Félögum Helga leizt ekki eins vel á landið; munu þeir hafa sagt kost og löst á og dvöldu stutta stund í dalnum. Helgi varð eftir einn sinna manna og leitaði brátt eftir vinnu og fékk hana hjá hjarðmanni einum, við að draga heim hey um veturinn; kaupið var 10 dollarar um mánuðinn.

Félagar Helga héldu, eins og áður er á vikið, beinar leiðir austur um fjöll. Höfðu þeir harða útivist, sökum illviðra; hreptu kafaldshríð svo mikla að við sjálft lá að þeir næðu ekki mannabygðum; komust þeir í mann raun mikla að bjarga lífi sínu.

Þegar Helgi kom í dalinn, var þar íslenzkur bóndi einn fyrir; hét hann Jóhann Breiðfjörð. Hann bjó á landi einu með fram Mouse River, sem seinna varð höfuðból bygðarinnar. Eftir tveggja ára veru flutti Jóhann burt úr dalnum.

Að ráði Jóhanns Breiðfjörð tók Helgi land norður með anni á nesi því, sem áður er getið. Hið næsta vor í Apríl-mánuði komu að austan, úr Pembina-héraði, Jón stjúpsonur Helga og Guðmundur Frímann. Tóku þeir brátt til húsagjörðar og reistu hús úr bjálkum. Er þeir höfðu lokið því

starfi héldu þeir austur og höfðu þar stutta dvöl. Tóku sig upp með Helgu húsfreyju og börnum hennar og alla búslóð þeirra hjóna, sem var eitt uxapar og nokkrir nautgripir aðrir.

Auk Helgu voru synir hennar fjórir og ein dóttir og Guðmundur Frímann frændi þeirra. Þau léttu ekki ferð sinni fyrr en þau komu til Mouse River. Fagnaði Helgi komu þeirra að vonum, því naumast hefir það gleðivist verið fyrir aldraðan mann, sem ekki kunni brezka tungu, að vinna hina ströngustu vinnu meðal hérlendra manna allan veturinn fjarri öllum sínum.

Fluttu þau hjón í hið nýreista hús sitt og settust að búi sínu, þótt búsefni væru lítil. Var þá ekki um annað að tala en taka daglaunavinnu þá sem gafst, og tók Helgi að sér að geyma hjarðir hinna fyrnefndu hjarðmanna ár eftir ár; sonu sína hina yngri, Jónas og Árna, hafði hann með sér til skifta; í kaup fékk Helgi 27 dollara um mánuðinn. Fyrsta sumarið voru þeir feðgar fótgangandi kringum hjarðirnar, er dreifðu sér svo langt sem augað eygði yfir óbygðar flatneskjur suðvestur af nýlendunni. Hinir eldri bræður, Jón og Guðmundur, unnu hjá bændum; fór svo fram um hríð. Blómguðust efni þeirra hjóna svo, að lífeyrir varð nógur. Undu þau nú vel hag sínum, og liðu þannig nokkur ár að ekki bættust fleiri við.

Helgi Guðmundsson var meðalmaður á hæð, fríður sýnum, lundgóður og ljúfmenni hið mesta,; vildi til allra gott leggja. Hann var starfsmaður mikill og lagði alla krafta sína, meðan til entust, til menningar börnum sínum; enda auðnaðist honum að sjá þau öll í góðri stöðu og í fremstu röð bygðarmanna. Helga húsfreyja var fríð kona sýnum, sem hún átti kyn til, tíguleg og hin skörulegasta, drenglynd og hjálpfús. Hún var um all-langt skeið eina yfirsetukona bygðarinnar; við þann starfa fylgdi henni hamingja, sem hvarvetna annarstaðar. Helgi Guðmundsson er nú dáinn, þegar þetta er ritað, og Helga kona hans sezt í helgan stein, hafandi niðjana kringum sig í hvirfingu, sem nú eru orðnir 36 að tölu. Hennar mesta skemtun er nú, er sveitungar hennar heimsækja hana, að stunda gesti sína og ræða við þá um fortíðina. Hún hefir látið byggja sér hús á landi þeirra

hjóna og býr þar ein með fósturdóttur sinni, en landinu hefir hún skift upp meðal barna sinna.

Árið 1889 kom frá Pembina-héraði maður sá er JÓN hét og var MAGNÚSSON, bónda frá Hróá í Steingrímsfirði á Íslandi. Kona Magnúsar, en móðir Jóns, var Ingibjörg Jónsdóttir frá Snartártungu í Bitru. Jón Magnússon var lengi póstur milli Reykjavíkur og Ísafjarðar; tók hann þar af auknefni, og kallaði sig póst. Hann var á fyrri árum hreystimaður mikill og harðgjör og sást oft lítt fyrir. Hann var drengur góður, þar sem vel skyldi vera. Á Íslandi komst Jón oft í mannraunir miklar, en varð aldrei ráðafátt, og eru til margar sagnir um harðfengi hans og karlmennsku. Jón Magnússon flutti vestur um haf árið 1887 frá Heynesi á Akranesi. Honum fylgdi að lagi kona sú er Rósa hét Sigurðardóttir úr Svarfaðardal; námu þau 2 lönd 3 mílur norður af Helga Guðmundssyni. Þar reistu þau bú er blómgaðist brátt, því fyrirhyggja og atorka var ærin. Jón andaðist 1901. Synir Jóns búa tveir innan bygðarinnar, Stefán og Guðbjartur; móðir þeirra bræðra er Þórunn Þórðardóttir frá Heydalsseli í Hrútafirði. (Frá þeim sagt hér síðar.)

*JÓHANN SVEINSSON,* Sæbjarnarsonar frá Bæjarstæði í Seyðisfirði. Móðir hans var Helga Sigurðardóttir; sú ætt er síðar talin. Kona Jóhanns Sveinssonar var Bergljót Erlendsdóttir. Jóhann kom frá Gnýstað í Seyðisfirði árið 1903. Hann er nú dáinn, er þetta er ritað.

*GUÐMUNDUR GUÐMUNDSSON,* ættaður frá Ferjubakka í Mýrasýslu, bróðir Helga Guðmundssonar, sem fyrst er getið í ritsmíð þessari. Guðmundur kom frá Borgarnesi í Mýrasýslu árið 1904 og nam land hið sama ár.

*VÍGLUNDUR SVERISSON* nam land á þessum missirum. Foreldrar hans eru Valmundur Sverrisson og Ingibjörg Halldórsdóttir, og er þeirra síðar getið. Víglundur er dugnaðarmaður mikill, sem hann á kyn til.

*STEFÁN JÓNSSON* (Magnússonar) flutti af Íslandi árið 1886, en kom til Mouse River bygðarinnar 1891. Stundaði hann þessi fyrri árin daglaunavinnu á ýmsum stöðum um Canada, mest á járnbrautum. Hið fyrsta ár sitt við Mouse River nam hann land og settist á það við lítil efni. —Stefán er kvæntur Hólmfríði Hansdóttur Hjaltalín frá Jörfa í Flisjuhverfi, Jósefssonar frá Valshamri, Jónssonar prests Hjaltalíns á Breiðabólsstað á Skógarströnd. Móðir Hólmfríðar var Sigríður Sigurðardóttir Jónssonar frá Tjaldbrekku í Hítárdal.—Lengi áttu þau hjón við ramman reip að draga að berjast móti öllum þeim örðugleikum, sem af fátæktinni leiddi; en nú eru þeir tímar liðnir, en ekki gleymdir. Stefán á nú eitt af hinum fegurstu heimilum bygðarinnar og er vel í efnum. Þau hjón eiga 5 börn og öll hin mannvænlegustu. — Að ráði Stefáns Jónssonar tók land PÁLÍNA HJALTALÍN, systir Hólmfríðar konu hans; var hún fyrrum gift Þórði Þórðarsyni alþingismanni á Rauðkollsstöðum. — GUÐBJARTUR JÓNSSON kom frá Íslandi árið 1900 af Akranesií Borgarfjarðarsýslu; kona hans er Guðrún Ólafsdóttir frá Guðlaugsstöðum í Hrútafirði; móðir Guðrúnar var Valgerður Helgadóttir af Snæfellsnesi. Guðrún var ein af greindari konum bygðarinnar, áhugamikil og ötul í öllum félagsmálum nýlendubúa.



*GUÐMUNDUR FRÍMANN* var sonur Jóns bónda í Köldukinn, Jónssonar frá Þorsteinsstöðum, Jónssonar hins gamla á Höskuldsstöðum í Dalasýslu. Móðir Guðmundar Frímanns, kona Jóns í Köldukinn, var Sigríður Eyvindardóttir frá Gerðubergi í Hnappadalssýslu Gíslasonar frá Langholti í Borgarfirði. Móðir Sigríðar var Guðbjörg Guðmundsdóttir frá Eyðhúsum, Þórðarsonar frá Hjarðarfelli. Sigríður Eyvindardóttir giftist síðar Lárusi Björnssyni Frímann á Harastöðum í Dölum vestra. Guðmundur Frímann er fæddur árið 1865; fluttist hann vestur um haf með móður sinni og stjúpa árið 1874; dvaldi hann með þeim fyrst í borginni Elg Rapids í Michigan í Bandaríkjunum, síðan við Akra í Norður-Dakota. Haustið 1886 var Guðmundur einn í för Helga Guðmundssonar, þá rúmlega tvítugur að aldri, vestur til Mouse River. Austur fór hann aftur um haustið og dvaldi um veturinn við Akra; um vorið réðst hann til ferðar með þeim Helgasonum, frændum sínum; nam hann land það, sem Jóhann Breiðfjörð hafði fyrrum búið á, í austur af Helga Guðmundssyni, og nú má kallast höfuðból Mouse River-bygðarinnar, sökum auðæfa og framkvæmda. Á hinum fyrstu tímum bygðarinnar munu fáir hafa haldið, að í þessum unga manni byggi sá maður, sem síðar hefir raun á orðið. Guðmundur Freeman er fríður maður sýnum, góðmannlegur og prúður í framgöngu og yfirlætislaus með öllu. Hann er glöggsýnn maður og hygginn, tillögugóður til almennra mála,



ráðhollur, og verður flestum það að ráði sem hann ræður. Hann er fjáraflamaður mikill og auðsæll, sem hinir fyrri frændur hans, og varfærinn í fjármálum. Það er álit margra að hann sé einn í tölu hinna ríkustu íslenzkra bænda vestan hafs. Um allmörg ár hefir Guðmundur skipað sæti í ýmsum embættum héraðsins, og sýnt við þau störf skarpskygni og hyggindi. Árið 1908 sat hann á þingi Norður-Dakota ríkis. Hann fylgir samveldismönnum að málum.—Árið 1888 kvæntist Guðmundur ungfrú Guðbjörgu Helgadóttur, Guðmundssonar, landnámsföður bygðarinnar. Guðbjörg er greind kona, væn yfirlitum, sem hún á kyn til, og vel að sér gjör. Þau hjón eiga 9 börn á lífi og öll eru hin mannvænlegustu.

*JÓN FILIPPUSSON* frá Illugastöðum í Fljótum í Skagaf., Einarssonar. Móðir Jóns Filippussonar var Anna Jónsdóttir frá Brúnastöðum í sömu sveit. Kona Jóns Filippussonar var Ólöf Ásgrímsdóttir Ásmundssonar frá Sveinsdal. Jón bjó síðast á Enni á Höfðaströnd og fór þaðan til Ameríku árið 1883. Dvaldi hann um nokkur ár í Rauðárdal og flutti þaðan til Mouse River 1889, einn síns liðs.. Jón var hinn fyrsta vetur á vist með Helga Guðmundssyni; er voraði fór hann austur til Pembina að sækja konu sína og börn; er vestur kom bygði Jón á tanga einum er gekk út í ána andspænis Helga Guðmundssyni; nefndi hann bústað sinn á Nesi. Börn þeirra hjóna eru: Anna kona Guðmundar Helgas. Goodmann og Jón Filipp hinn yngri. Tveir minnistæðir atburðir báru að höndum Jóni á hinum fyrstu búskaparárum hans við Mouse River. Sá hinn fyrri, að hann gifti Önnu dóttur sína 16 vetra gamla, hina gjörfulegustu mey, Guðmundi Helgasyni; var það á hinum fyrsta vetri þeirra í nýlendunni. Hinn annar atburður á þriðja vetri þeirra var sá, að íbúðarhús Jóns brann með öllum húsmunum, svo engu varð bjargað. Jón undi þá ekki lengi á þessum stað og færði bústað sinn á vesturbrún dalsins. Hefir hann búið þar síðan. Þau hjón eru nú þrotin að heilsu, er þetta er ritað.

*GUÐRÚN SIGURÐARDÓTTIR* frá Brimnesi við Seyðisfjörð, Þorsteinssonar frá Urriðavatni í Fellum. Móðir Guðrúnar var Katrín Jónsdóttir frá Urriðavatni, Árnasonar, Torfasonar frá Sandfelli í Skriðdal í S.-Múlasýslu. Guðrún

kom frá Íslandi árið 1887; til Mouse River 1891. Hún hefir alla stund búið þar ógift. Ýmsar sagnir hafa gengið um andstreymi það, sem Guðrún hefir átt við að etja á hinum fyrstu búskaparárum sínum, ein síns liðs. Á vetrum varð hún að reka gripi sína til vatns mílu vegar, færa heim til sín eldivið á bakinu tvær mílur. Á þeim árum var lítið um hesta og ervitt um aðflutninga. Guðrún er ein af greindari konum bygðarinnar, dugleg og merk í háttum sínum. Hún er nú, er þetta er ritað, hnigin að aldri; á hún orðið snoturt og vel um búið heimili.

*GÍSLI JÓNSSON GÍSLASONAR* frá Kjörseyri í Hrútafirði. Móðir Gísla er Gróa Daðadóttir frá Karlsá í sömu sveit. Þau mæðgin komu frá Íslandi árið 1876. Settust að í Nýja Íslandi, fluttu þaðan til Mountain í N.-Dakota og til Mouse River 1891. Gísli Jónsson var kvæntur Önnu Einarsdóttur Magnússonar Westfjörð. Misti hann hana á hinum fyrstu búskaparárum sínum hér. Er ein dóttir þeirra á lífi, Anna að nafni. Síðari kona Gísla er Kristín Jóhannsdóttir frá Laxárdal á Skógarströnd. Bæði eru þau hjón hagsýn og vel í efnum; heimilis umgengni hin bezta.

*JÓN DAVÍÐSSON,* ættaður úr Skagafjarðarsýslu. Faðir hans var Davíð Jónsson frá Vestra Hóli í Flókadal í Fljótum. Móðir Jóns var Ingiríður Ólafsdóttir. Foreldrar Davíðs föður Jóns voru Jón á Vestra Hóli og Guðrún Konráðsdóttir, systir Gísla sagnfræðings. Jón Davíðsson var kvæntur Björgu Stefánsdóttur Ataníussonar úr Eyrarsveit af Snæfellsnesi. Þau hjón bjuggu fyrst í Pembina héraði, en fluttu til Mouse River árið 1892. Jón er nú dáinn, en Björg kona hans býr með syni sínum, Vilhelm að nafni, sem er einn í tölu hinna efnilegustu yngri manna nýlendunnar. Hann er enn ókvæntur.

*EINAR MAGNÚSSON VESTFJÖRÐ.* — Hann var fæddur 1829 í Skáleyjum á Breiðafirði. Var faðir hans Magnús í Skáleyjum, Einarsson, Sveinbjörnssonar frá Svefneyjum. Móðir Einars Vestfjörðs var Sigríður Einarsdóttir í Skáleyjum Ólafssonar, systir Guðmundar prófasts Einarssonar á Breiðabólsstað á Skógarströnd, og Þóru móður Matthíasar Jochumssonar skálds. Einar Vestfjörð var kvæntur fyrr-

um Ingibjörgu Jónsdóttur Bjarnasonar frá Reykhólum. Í annað sinn kvæntist hann Kristínu Jónsdóttur Magnússonar frá Tindum í Geiradal; móðir Kristínar var Karítas Níelsdóttir frá Kleifum í Gilsfirði, systir séra Sveins Níelssonar á Staðarstað og Daða hins fróða, sagnfræðings. Einar Vestfjörð bjó síðast á Arnórsstöðum á Barðaströnd og flutti þaðan til Ameríku 1884. Settist hann að í Garðar-bygð í N.-Dak og bjó þar þar til hann flutti til Mouse River árið 1892; nam hann land það, er Jón Filippusson hafði fyrrum búið á og nefnt var á Nes'. Vestfjörð var iðjumaður mikill og hagsýnn, og hinn mesti búsýslumaður, og varð hagur þeirra hjóna brátt góður. Heimili þeirra var við brugðið fyrir hjálpsemi og góðvild við snauða menn og vís griðastaður öllum umkomulausum innflytjendum. Einar Vestfjörð andaðist 1911. — Synir Einars eru Jakob og Sveinn, hinir gjörvulegustu menn og hinir gildustu til allrar karlmennsku, spakir í lund og vel virðir af alþýðu manna og hinir vinsælustu.



SVEINN VESTFJÖRÐ er kvæntur Helgu Þórðardóttur Benidiktssonar frá Dalhúsum. Sveinn nam land í norður frá bygðinni inn á millum annara þjóða manna, og er hann fékk færi seldi hann land þar og keypti aftur bújörð eina mikla og fagra af hjarðmanni einum, nær heila "section"; var hún bæði

skógland, engi og bithagi. Á þeim tíma þótti það stórt í ráðist að setja sig í skuld fyrir mörgum þúsundum dollara, þar sem bústofn var enginn og því framleiðsla lítil af búinu; en þarna var maður á bak við, sem treysta mátti á sjálfan sig. Enda kom það brátt í ljós, eftir að Sveinn var seztur að á hinu nýja heimili sínu, að hann var meiri dugnaðar- og framkvæmdarmaður en þá var títt um marga. Hann tók brátt til starfa að brjóta upp hið láglenda engi, og töldu margir það lítt vinnandi sökum hins þunga og leir-kenda jarðvegs. En reynzlan hefir sýnt, að verk það hefir borið ríkulegan ávöxt. Hann varð fyrstur manna til að vekja athygli margra á því, hvað þessi þunga og góða jörð gat framleitt. Auk jarðræktarinnar hefir Sveinn stundað griparækt, sem gefið hefir mjög góðan arð. Hann hefir nú að fullu borgað öll þessi lönd, og á nú einn hinn allra fegursta bústað bygðarinnar, og eitt hið blómlegasta bú sveitar sinnar.

*JAKOB VESTFJÖRÐ* varð snemma sjálfstæður maður í efnalegu tilliti og brátt meðal hinna ríkustu bænda nýlendunnar, því hjá honum eru sameinuð aðal-skilyrðin: dugnaður og ráðdeild. Jakob Vestfjörð er manna greiðviknastur og hjálpsamastur við sér minni menn. Hann hefir oft greitt götu hinna óríkari manna í fjársökum og fljótari en flestir aðrir að leysa vankvæði annara. Meðan langt var til bæja og brátt þurfti lækna að leita er veikindi báru að höndum, var ávalt til hans flúið; frá honum var skjótari úrlausnar að vænta en öllum öðrum. Jakob Vestfjörð var fyrr kvæntur Pálínu Árnadóttur Jónssonar frá Eyvindará í Eyðaþinghá. Hana misti hann eftir stutta samveru. Í annað sinn kvæntist Jakob 1911; gekk hann þá að eiga konu af skozkum ættum, mentaða og vel að sér gjörva. Hún er væn kona að yfirlitum og hin glæsilegasta, geðþekk þeim er kynnast; líkindi eru til að hún muni nema íslenzka tungu og samþýðast íslenzku þjóðerni.

*JÓN GOODMANN,* hálfbróðir þeirra Helgasona, sem fyrr er nefndur, kom fulltíða maður til nýlendunnar með móður sinni og stjúpa; faðir Jóns var Jón í Köldukinn í Dalasýslu, Jónssonar frá Þorsteinsstöðum, Jónssonar hins gamla á Höskuldsstöðum í Dölum. Jón nam land snemma og reisti

bú og stundaði algjörlega griparækt, sem margir aðrir á hinum fyrri árum. Kona Jóns Goodmanns er Ingibjörg Hjálmarsdóttir Friðrikssonar frá Auðnum á Barðaströnd og Mettu Pálsdóttur konu hans.. Jón Goodmann er búmaður mikill og fjáreigandi, þrátt fyrir stóra fjölskyldu. Þau hjón eiga 7 börn á lífi.

*GUDMUNDUR HELGASON GOODMAN*—svo nefna sig allir Helgasynir—er elztur þeirra bræðra; hann kom með föður sínum til Mouse River-bygðar 16 ára gamall. Vann hann fyrir foreldra sína hin fyrstu árin. Veturinn 1891 gekk hann að eiga Önnu Jónsdóttur Filipp, hina gjörvulegustu mey. Fóru þau til Towner til vígslu og keyrðu þá leið á uxum, því ekki var hesta kostur. Guðmundur Goodmann reisti bú um vorið á heimilisréttarlandi sínu og tók hin unga kona hans brátt við búsforráðum og gjörðist hin mesta búsýslukona þó ung væri, aðeins 16 ára gömul. Guðmundur Goodmann er atorkumaður mikill og hagsýnn og fésæll mjög. Hann er einn af gildustu bændum bygðarinnar; þau hjón eiga átta börn á lífi vel ment og hin mannvænlegustu.



*JÓNAS GOODMAN* er sá næsti í röðinni Helgasona.



Hann er kvæntur Sigríði Þórðardóttur Benidiktssonar frá Dalhúsum, sem fyrr var getið; eiga þau dóttur eina barna. Jónas Goodman er myndarmaóur, stiltur vel og manna vinsælastur. Hann hefir auk heimilisréttarlands síns keypt 520 ekrur af landi. Jónas hefir um allmörg ár verið virðingamaður í mörgum umdæmum héraðsins, og getið sér við þann starfa sem annarsstaðar almenna tiltrú.

*ÁSGRÍMUR ÁRNASON*, Ásgrímssonar, Ásmundssonar frá Sveinsdal í Skagafjarðarsýslu. Ásgrímur kom til bygðarinnar ungur að aldri, ásamt móður sinni er Guðný hét og numið hafði land það er sonur hennar nú býr á og hann tók að erfðum eftir móður sína látna. Kona Ásgríms Árnasonar er Sigurveig Jónsdóttir Sigurðssonar Víum.

*BENIDIKT KRISTJÁNSSON*, Björnssonar frá Presthvammi í Reykjahverfi í Þingeyjarsýslu. Móðir Benidikts er Valgerður Þorsteinsdóttir Sigurðssonar, Þorsteinssonar, Grímssonar frá Fjöllum. Kona Benidikts er Kristín Sigurðardóttir, Sveinssonar, Sæbjarnarsonar frá Bæjarstæði í Seyðisfirði. Móðir Kristínar er Margrét Ásmundsdóttir, Guðmundssonar frá Hánefsstöðum í Seyðisfirði.

*ÁRNI HELGASON GOODMAN* er yngstur þeirra bræðra. Kona hans er Teódóra Ásgrímsdóttir, Sigurðssonar bónda hér í bygð. Árni Goodman er ötull maður og fylginn sér, og ósérplæginn í öllum félagsmálum nýlendubúa. Þau hjón eiga 7 börn á lífi.



Á þessu tímabili komu allmargir til nýlendunnar austan úr Rauðárdal; meðal þeirra voru bræður tveir: Jóhann og Guðmundur Jóhannssynir, frá Laxárdal á Skógarströnd; Jónas Daníelsson frá Borgum á Skógarströnd og kona hans Jóhanna Jóhannsdóttir frá Laxárdal; Einar Johnson Breiðfjörð Jónssonar frá Laugum í Sælingsdal og kona hans, Guðný Jónasdóttir Daníelssonar frá Borgum; Gísli Árnason frá Bæ í Múlahreppi í Barðstrandarsýslu; Páll Jóhannsson, ættaður úr Skagafirði; Halldór Egilsson Halldórssonar frá Reykjum á Reykjabraut og kona hans, Margrét Jónsdóttir frá Kagaðarhóli í Langadal í Húnavatnssýslu; Ólafur Jakobsson úr Húnaþingi (allir þessir síðasttöldu eru búandi nú við Swan River í Manitoba); Ásgrímur Sigurðsson frá Miðgrund í

Akrahreppi í Skagafjarðarsýslu og kona hans, Sigríður Jónsdóttir pósts, bónda hér í bygðinni; Halldór Abrahamsson, ættaður úr Þingeyjarsýslu, flutti til Canada.

*SUMARLIÐI KRISTJÁNSSON* frá Börmum í Gufudalssveit í Barðastrandasýslu; móðir hans var Anna Jónsdóttir Eiríkssonar silfursmiðs; ætt sú er í Húnaþingi. Kona Sumarliða er Margrét Björnsdóttir frá Berufirði í Reykhólasveit. Sumarliði flutti til Canada og býr búi sínu við Swan River í Manitoba.

*ÞÓRÐUR BENIDIKTSSON* frá Dalhúsum í Eyðaþinghá. Móðir Þórðar var Sigríður Gísladóttir Nikulássonar frá Breiðavaði í sömu sveit. Kona Þórðar var María Sveinsdóttir Sæbjarnarsonar frá Bæjarstæði í Seyðisfirði. Móðir Maríu var Helga Sigurðardóttir frá sama bæ. Þórður Benidiktsson kom til Ameríku 1883 frá Dalhúsum. Hann settist fyrst að í Rauðárdal og bjó þar um nokkur ár. Árið 1894 flutti Þórður til Mouse River bygðarinnar með alt skyldulið sitt; land gat hann ekki tekið, því hann hafði áður eytt rétti sínum í Pembina-héraði. En óhjákvæmilegt var að minnast hans í landnámsþætti þessum. Í liði Þórðar var bróðir hans, sem Björn hét. Björn var ókvæntur en hniginn að aldri. Hann



tók land að ráði Þórðar bróður síns á vesturbrún dalsins, 1½mílu í austur, þar sem nú er bærinn Upham. Annað land áfast við nam Sveinbjörn, elzti sonur Þórðar. Á löndum þessum reisti Þórður bú þótt efni væru lítil; ómegð hans var mikil. Þannig bjuggu þau hjón um nokkur ár, þar til Þórður missti heilsuna; voru þá börn hans flest á legg komin, sum fullorðin. Hann er nú dáinn, er þetta er ritað. — Þórður var vel gefinn maður, óvanalega mikill mannvinur, svo hjá honum sat ávalt í fyrirrúmi örlæti og góðvild til allra, sem hann náði til. Þórður Benidiktsson er enn sem komið er kynsælli en allir aðrir nýlendubúar; af 11 börnum hans lifa tíu innan bygðarinnar og eitt í Canada. Ekki tóku börn þessi fjármuni að erfðum eftir föður sinn, en þar í stað undantekningarlaust mannkosti hans og vinsældir. Eftir að Þórður var dáinn tók kona hans, María Sveinsdóttir, land að ráði Sveins Vestfjörð dótturmanns síns, og er hann nú eigandi að landi hennar. María er ein með greindustu konum bygðarinnar og vel farið um flest og manni sínum samhent í allri mannúð. Hún er bókgefin og vel að sér og hefir tekið mikinn þátt í samkvæmislífi bygðarinnar og stutt að uppfræðslu unglinga í íslenzkum fræðum.

*JÓN BJÖRNSSON* frá Þrándarstöðum í Eiðaþinghá.— Hann kom til Ameríku 1883 og dvaldi um nokkur ár í Pembina-héraði og flutti til Mouse River vorið 1896. Kona hans var Margrét Benidiktsdóttir, systir Þórðar, sem hér að framan er getið. Synir Jóns Björnssonar eru: Sigurbjörn og Björn, báðir búsettir innan nýlendunnar. Kona Björns Jónssonar er Halldóra Jónsdóttir, ættuð úr Breiðdal í Suður-Múlasýslu.

*SIGBJÖRN JÓNSSON,* Björnssonar frá Þrándarstöðum, er einn í tölu þeirra manna, er aldrei hefir sýnst að staðfesta ráð sitt og kvænast. Hann hefir um 16 ára skeið búið innan bygðarinnar ókvæntur og farnast vel, að líkindum með þeirri hugsun að frjálsari stöðu geti ekki. Framan af stundaði Sigbjörn akuryrkju en í seinni tíð griparækt. Hann er félagslyndur, ör á fé og drengur góður og vinsælli en flestir aðrir einsetumenn.

*SIGURÐUR SVEINSSON,* Sæbjarnarsonar frá Bæjarstæði í Seyðisfirði. Sú ætt er áður talin. Hann kom til Ameríku 1889 frá Húsavík eystra; bjó hann nokkur ár vestur í Rauðárdal; árið 1894 flutti hann búferlum til Mouse River og nam þar land; bjó Sigurður á því þar til 1901; brá hann þá búi, seldi land sitt og flutti til Canada, bjó þar í nokkur ár, flutti þaðan aftur til Mouse River-bygðarinnar, reisti þar bú í annað sinn og býr þar enn. Sigurður Sveinsson er góður heim að sækja, gamansamur og fyndinn, ekki sízt við skál; liggur þá oft vel á gamla manninum. Kona Sigurðar er Margrét Ásmundsdóttir frá Parti í Húsavík í Norður-Múlasýslu, Guðmundssonar frá Hánefsstöðum í Seyðisfirði. Móðir Margrétar er Kristín Sæbjarnardóttir frá Mýnesi í Eiðaþinghá, Þorsteinssonar; Kristín er á lífi og er orðin háöldruð og dvelur hér hjá börnum sínum í Mouse River-bygð, merk og göfug kona. Margrét Ásmundsdóttir er myndarkona og vel að sér, hagari en flestar aðrar konur bygðarinnar.

*JÓN SIGURÐSSON,* Þorsteinssonar frá Urriðavatni í Fellum. Móðir Jóns var Katrín Jónsdóttir frá Urriðavatni, Árnasonar, Torfasonar á Löndum í Stöðvarfirði. Torfi faðir Árna bjó á Sandfelli í Skriðdal; var hann kallaður Torfi hinn ríki. Faðir hans var Páll prestur í Vallanesi. Jón Sigurðsson bjó fyrst á Bakka í Borgarfirði eystra, síðar á Jökulsá, og flutti þaðan til Ameríku 1889; nam hann þá land í Rauðárdal, flutti til Mouse River 1894, kvæntist þar Sigurlaugu Sveinsdóttur frá Bæjarstæði í Seyðisfirði. Hún hafði numið land; á því reisti Jón bú og farnast vel.

Árið 1896 kom álitlegur hópur manna úr Rauðárdal til Mouse River bygðarinnar; fékk nýlendan við það allmikla búningsbót; urðu þá töluverðar breytingar til hins betra á félagslífi á ýmsan hátt. Í hópi þeirra var:

*JOB SIGURÐSSON* frá Flatnefsstöðum á Vatnsnesi í Húnaþingi, Guðmundssonar frá Geitastekk. Móðir Jobs var Magðalena Sigurðard. Gíslasonar frá Katadal í s. sýslu. Job kom frá Íslandi ungur að aldri árið 1877; nam þá land í Nýja Íslandi, bjó þar um nokkra vetur, flutti þaðan til Pembina Co. og nam þar land; þar bjó hann allmörg ár. Í Mouse River bygðinni reisti Job bú á landi konu sinnar; hún heitir Valgerður Þorsteinsdóttir, Sigurðssonar, Þorsteinssonar, Grímssonar frá Fjöllum. Job Sigurðsson er maður vel að sér, hygginn og ráðsnjall og búvitur svo að í þeirri grein munu fáir hans jafningjar.



*MAGNÚS ÓLAFSSON,* Jónssonar frá Jóreyðarstöðum í Hjaltastaðaþinghá. Kona hans er Ragnheiður Eiríksdóttir. Magnús kom frá Vopnafirði á Íslandi 1904.

*SVEINN HALLGRÍMSSON,* Pétурssonar frá Ásgeirsstöðum í Eiðaþinghá, Þorlákssonar frá Ánastöðum í Hjaltastaðaþinghá. Móðir Sveins er Sigurlaug Sveinsdóttir, Sæbjarnarsonar frá Bæjarstæði í Seyðisfirði. Sveinn kom frá Íslandi árið 1902 og til bygðar þessarar hið sama ár. Sveinn er ókvæntur er þetta er ritað.

*VALMUNDUR SVERRISSON*, ættaður frá Ormskoti við Eyjafjöll í Rangárvallasýslu; voru foreldrar hans Benóní Hinriksson, franskur að ætt, og Sigríður Jónsdóttir, Sverrissonar frá Hólmi í Landbroti; móðir Sigríðar var Þorbjörg Gissurardóttir. Foreldrar Jóns á Hólmi voru Sverrir Eiríksson stórbóndi á Kirkjubæjarklaustri á Síðu og Sigríður Salómonsdóttir Þorsteinssonar frá Arnardrangi; ætt sú er öll í Skaftárþingi, komin fram í kyn af Sigvalda langalíf. — Valmundur Sverrisson er kvæntur Ingibjörgu Halldórsdóttur Guðmundssonar, ættuð úr Eyjafirði. Þau hjón fluttu úr Bárðardal á Íslandi árið 1891, ásamt tveimur ungum börnum. Ekki voru efni þeirra meiri en svo, að hrökk fyrir hálfu fargjaldi þeirra vestur. Valmundur settist að í Garðarbygð, N.-Dak., og var þar í fimm ár og stundaði daglaunavinnu alla, sem hann komst yfir, sem mest var við að hreinsa skógarlönd. Vinna sú var svo illa launuð að ekki var við unandi. Valmundur tók sig því upp með alt skyldulið sitt og flutti til Mouse River-bygðarinnar árið 1896. Valdi hann sér bólfestu þrjár mílur fyrir norðan pósthúsið Ely; efndi hann þar brátt til húsagjörðar og reisti íveruhús úr torfi með mænirás og refti á veggi með torfþaki. Kofi þessi var 12 feta breiður og 12 feta langur. Í þessum húsakynnum bjuggu þau hjón um allmörg ár með öllum sínum barna hópi, níu að tölu. — Valmundur Sverrisson er meðal-



maður á hæð og þreklega vaxinn; var á yngri árum karlmenni að burðum. Eins og áður er á vikið, er hann frakkneskur í föðurætt, og því mjög sennilegt eftir vexti og útliti að dæma, að hann sé af ætt Bónapartanna — auðvitað er sú tilgáta á litlum rökum bygð. Hann er gleðimaður mikill og híbýlaprúður, vel skapi farinn og höfðingi í lund; þykir honum vænt um að veita vinum sínum, og líf og fjör er í hverju samkvæmi þar sem Valmundur er. Hann er manna hóglátastur og lætur lítt á sér finna hvort með eður móti gengur. Sveitungar hans hafa eftir honum hin alkunnu hnytti-yrði: "takið þið það kalt". — Ef til vill hefir enginn landnemi í þessu byggðarlagi háð jafn harða hólmgöngu fyrir lífinu og gengið af hólmi með jafn glæsilegum sigri sem Valmundur Sverrisson, að hafa af engum efnum í byrjun komið á fót stærri barnahóp en nokkur annar í bygðinni; en hann barðist ekki einn; konan hans bar merkið með dæmafáum dugnaði, og merkið féll ekki þó hörð væri sóknin, og nú ganga undir þessu merki 10 börn, óvanalega hraust og efnileg. — Þessi hjón eru ljóst dæmi þess hvað þrek, vilji og atorka getur áunnið að ryðja braut til sjálfstæðis og frama, gegn torfærum fátæktarinnar; því ein hafa þau róið, en vel hafa þau róið og jafnt á bæði borð. Torfkofinn er nú hruninn fyrir löngu og í hans stað komið snoturt timburhús, blómlegt bú og þrjú lönd til ábúðar, og heimilið er hið fegursta.

*SIGURÐUR JÓNSSON,* Sigurðssonar frá Syðstu-mörk í Rangárvallasýslu, Sæmundssonar, Ögmundssonar í Eyvindarkoti, Högnasonar áKrossi, Sigurðssonar á Breiðabólstað í Fljótshlíð. Móðir Sigurðar Jónssonar var Ingibjörg Sigurðardóttir Ísleifssonar á Barkastöðum í Fljótshlíð, Gissurarsonar á Seljalandi, Ísleifssonar frá Höfðabrekku; kona Sigurðar Ísleifssonar á Barkarstöðum var Ingibjörg Sæmundsdóttir frá Eyvindarholti. Sigurður Jónsson er kvæntur Margrétu Gísladóttur, Sigurðssonar frá Saurum í Helgafellssveit, Gíslasonar á Saurum Tómassonar. Móðir Margrétar Gísladóttur er Helga Loftsdóttir; móðir Helgu var Margrét Jónsdóttir hins gamla á Höskuldsstöðum í Dalasýslu. Sigurður Jónsson flutti vestur um haf árið 1901 frá Stað á Ölduhrygg. Kom til Mouse River-bygðar það sama ár og nam þar land.

*STEFÁN EINARSSON,* ættaður úr Húnaþingi. Voru foreldrar hans Stefán Einarsson bóndi að Eyðstöðum og Margrét Jónsdóttir frá Smyrlabergi í Ásum. Faðir Stefáns á Eyðstöðum var Einar Skaftason á Helgavatni, bróðir Jósefs læknis Skaftasonar á Hnausum. Stefán Einarsson er fæddur 21. Júní 1870 á Eyðstöðum. Dveldi hann með foreldrum sínum þar til hann var sex vetra gamall. Fór hann þá að Hjallalandi í Vatnsdal og ólst þar upp með Jósef Einarssyni föðurbróður sínum, þar til hann var 18 vetra. Fýsti hann þá að fara að dæmi forfeðra sinna og kanna erlendra manna siðu. Og fór því alfarinn af landi burt árið 1888, og nam hann staðar við Garðar í N.-Dak., dvaldi þar hin næstu árin og stundaði daglaunavinnu. Á því tímabili kvæntist Stefán Elísabetu Geirhjartardóttur, Kristjánssonar af Flateyjardal á Íslandi. Móðir Elísabetar er Guðfinna Jónsdóttir; ætt sú er öll í Þingeyjarsýslu. Stefán kom til Mouse River-bygðarinnar vorið 1896 og nam land það sama ár. Stefán Einarsson er mikill maður vexti og stórskorinn, sem hinir aðrir frændur hans, skjótur til allrar karlmennsku, ör í skapi, hreinlyndur og óvæginn, hirðir lítt við hvern er að etja í þann svipinn. Kippir honum þar í kyn til forfeðra vorra, að láta ekki hlut sinn, þótt við ofurefli sé að eiga. Stefán er mildur á fé, veglyndur og ósérplæginn.



ekki enn búinn að læra þá meginreglu Ameríkumanna að láta peningana ráða göngu sinni og stefnu. Stefán er allra manna hjálpsamastur, ekki sízt við hina minni máttar, og ekki ósjaldan að hann veiti lið sitt þótt í bága komi við hans eigin sakir. En um liðsemd hans má hið sama segja, sem Guðmundur hinn ríki sagði um Skarphéðinn: "heldur vildi eg hafa hans fylgi en tíu annara." Stefán Einarsson er skýr maður og víðlesinn og fróður um margt. Hann ann íslenzkum bókmentum af alhug, einkum skáldskap og skilur hann vel. Hann er vel máli farinn og lætur alloft mjög til sín taka um velferðarmál bygðarinnar. Fylgir hann fast málum þeim sem hann beitir sér fyrir; mæti hann mótspyrnu á fundum, verður hann oft heitari en sumum þykir hæfilegt. Frömuður er Stefán bindindisfélagsins í bygðinni, þess félagsskapar, sem mesta og bezta ávexti hefir borið og er hið heillaríkasta félag bygðarinnar. Í safnaðarmálum hefir Stefán verið hinn mesti styrktarmaður alla tíð, lengst af átt sæti í safnaðarnefnd, beitt þar kröftum og þekking til að sameina.

*HALLGRÍMUR JÓNSSON*, Jónssonar frá Ólafsey á Breiðafirði og síðar á Narfeyri á Skógarströnd. Faðir Jóns á Narfeyri var Jón í Gvendareyjum, Jónssonar frá Bíldsey á Breiðafirði. Kona Jóns á Narfeyri, móðir Hallgríms, var Kristín Jónsdóttir frá Vörðufelli á Skógarströnd; móðir Jóns á Narfeyri, föður Hallgríms, var Salóme Oddsdóttir frá Arnarbæli í Dalasýslu. Kona Hallgríms er Þuríður Jónsdóttir Jónssonar frá Laugum í Sælingsdal. Hann kom frá Hellissandi í Snæfellsnessýslu árið 1905. Hallgrímur Jónsson er vænn að álitum, hógvær og greindur maður og vel að sér í íslenzkum fræðum, sem honum sem mörgum öðrum að litlu gagni kemur í þessu landi. Hann er söngmaður góður og hefir fyrstur manna innleitt sönglist hér í bygð. Brátt eftir komu hans til nýlendunnar keyptu konur safnaðarins orgel og hefir mátt á messudögum og öðrum samkomum sjá allstóran hóp hinna fríðustu yngismeyja bygðarinnar skipa sér í hvirfing umhverfis Hallgrím Jónsson.

*SVEINBJÖRN SVEINSSON*, Sæbjarnarsonar, bróðir Jóhanns. Hann misti konu sína á Íslandi og býr hér með dóttur sinni.

*JÓN KRISTJÁNSSON* er fæddur 22. Febrúar 1852 í Gufudal í Barðastrandasýslu; voru foreldrar hans Kristján Einarsson frá Börmum í Gufudalssveit og Anna Jónsdóttir silfursmiðs á Grund við Reykhóla, Eiríkssonar; ætt sú er úr Húnaþingi. Móðir Kristjáns föður Jóns var Margrét Aradóttir, systir Jóns Arasonar hins gamla í Djúpadal, föður Jóns, föður Björns, fyrrum ráðherra Íslands. Jón Kristjánsson flutti til Ameríku árið 1891 frá Gufudal. Hið fyrsta árið dvaldi hann í Winnipeg, flutti þaðan til Gardar í N.-Dak. árið 1892 og dvaldi þar hin næstu fjögur árin og stundaði ýmsa vinnu. Árið 1896 flutti hann til Mouse River-dals, nam þar land á hinum fögru og grösugu sléttum, reisti hús á hól einum fögrum er þar stóð einstakur, og í stórflóðum var að sjá sem eyja upp úr vatninu. Jón er dökkur á brún og brá, og ber með sér að hann er vestfirzkur að kyni; vel sennilegt, að hann sé út af hinum fornu landnámsmönnum við Breiðafjörð, sem komu vestan um haf og blandað höfðu kyn sitt Keltunum. Hann er meðalmaður á hæð, vel vaxinn, þrekinn og karlmannlegur, rammur að afli og harðsnúinn, hugprúður, skapmikill, óvæginn í lund, en óáleitinn, lætur sem Egill Skallagrímsson brýrnar síga ef á hluta hans er gjört, veður þá stundum berserksgang og gerir sér þá engan mannamun. Er einarður og hreinskilinn og allur þar sem hann er séður, ör á fé og drengur hinn bezti. Jón Kristjánsson er greindur vel



og mjög vel máli farinn. Hann tók brátt alvarlegan þátt í öllum félagsmálum nýlendubúa, lét oft mikið til sín taka á fundum. Hlífðist þá lítt við, þótt við liðsmun ærinn væri að etja. Hið fyrsta, sem Jón gjörði eftir að hann var seztur að í bygðinni, var að koma löndum sínum til að halda hátíðlegan 4. Júlí, frelsisdag Bandaríkjanna. Flutti hann við það tækifæri hina fyrstu tölu sína. Hann ritaði síðan skemtilega grein í íslenzku blöðin í Winnipeg um hátíðarhaldið, og var það hin fyrsta fréttagrein, sem út hafði komið úr Mouse River-bygðinni í fréttablöðunum íslenzku. Jón er nú fluttur fyrir nokkrum árum til Alberta, Canada. — Kona Jóns var Anna Benidiktsdóttir frá Arnardal í Ísafjarðarsýslu. Hún andaðist árið 1904, sama árið og Jón flutti til Alberta.

*SIGURJÓN ÁSMUNDSSON,* Guðmundssonar frá Hánefsstöðum í Seyðisfirði; móðir hans er Kristín Sæbjarnardóttir frá Mýnesi í Eiðaþinghá, Þorsteinssonar, Sigurðssonar frá Selstöðum. Sigurjón kom frá Húsavík í Norður-Múla-sýslu árið 1889 ásamt móður sinni og systkinum sínum. Þau dvöldu hin fyrstu árin í Pembina County. Til Mouse River fluttu þau árið 1897. Sigurjón er atorkumaður, búmaður mikill og drengur góður. Kona hans er Katrín Jónsdóttir Björnssonar frá Þrándarstöðum í Eiðaþinghá. Móðir Katrínar var Margrét Benidiktsdóttir, systir Þórðar frá Dalhúsum.

*BJÖRN ÁSMUNDSSON,* bróðir Sigurjóns, sem hér að framan er getið, kom frá Íslandi með bróður sínum, og til Mouse River bygðarinnar árið 1897; nam land í vesturhluta bygðarinnar og bjó þar um nokkur ár, seldi það síðan og keypti annað, sem betur lá inni í íslenzku bygðinni. Björn er dugnaðarmaður, fullur kappi í framfara áttina. Kona hans er Lukka, Þórðardóttir, Benidiktssonar frá Dalhúsum.

*SVEINBJÖRN ÞÓRÐARSON* er einn í hópi hinna yngri manna Mouse River-bygðar. Sveinbjörn er fæddur í Dalhúsum í Eiðaþinghá árið 1875; voru foreldrar hans Þórður Benidiktsson og María Sveinsdóttir, og er þeirra áður getið. Sveinbjörn kom með foreldrum sínum til bygðarinnar nær fulltíða að aldri og nam land það, er foreldrar hans

bjuggu á. Eftir fráfall föður síns reisti hann bú á landi sínu og öðru, sem hann hafði að heimildum tekið hjá Birni föðurbróður sínum. Hafði hann móður sína um all-langt skeið fyrir innan stokk. Sveinbjörn hafði brátt risnu mikla á búi og mátti svo að orði kveða, að þar lægi skáli um þjóðbraut þvera, og einn af þeim fáu, sem gjört hafa að dæmi Þorgilsar bónda Arasonar á Reykhólum, að láta öllum vist heimila, sem hafa þurftu. Hann hafði oft á vetrum margt manna um sig, þeirra, sem engar staðfestur áttu; var þá oft glatt á hjalla; minnti slíkt á hina fornu rausn forfeðra vorra. Sveinbjörn Þórðarson er skýr maður og vel að sér, prúðmannlegur og manna kurteisastur. Hann er mildur á fé, og stendur ætíð í fylking til stuðnings öllum góðum félagsskap bygðarinnar. Hann er vel fjáreigandi og er í tölu hinna gildari bænda sveitar sinnar. Vorið 1908 kvæntist Sveinbjörn og gekk þá að eiga ungfrú Guðbjörgu Jónsdóttur Davíðssonar, bónda hér í bygðinni. Móðir hennar er Björg Stefánsdóttir, ættuð af Snæfellsnesi. Guðbjörg þótti ein af álitlegustu ungra meyja bygðarinnar. Hún er greind og vel ment í hvívetna.

*JÓN JÓNSSON SVÍNDAL,* kom á þessum missirum til nýlendunnar og nam land. Faðir Jóns Svíndal var Jón Sigurðsson á Hrafnabjörgum í Svínadal í Húnavatnssýslu. Hann kom frá Íslandi 1887. Heimilisréttarland sitt seldi Jón og keypti annað, land það er Sumarliði Kristjánsson hafði fyrrum átt. Jón býr ókvæntur. En sá sem kemur á heimili hans sér ekki annað, en þar eigi húsum að ráða hin þrifnasta húsfreyja, á umgengni allri og hirðusemi, svo í þeim efnum á Jón fáa sína líka.

*JÓN HAFSTEINN,* ættaður úr Svínadal í Húnaþingi, systursonur Jóns Svíndal (sjá hér að framan). Hann býr búi sínu ókvæntur, sem frændi hans.

*GUÐSTEINN ÞORSTEINSSON,* ættaður úr Árnessýslu. Kona hans er Margrét Tómasdóttir úr Laxárdal í Dalasýslu.

*SVEINBJÖRN SIGURÐSSON* frá Ósi í Eyjafirði. Voru foreldrar hans Sigurður á Silfrarstöðum Sigurðssonar

prests frá Auðkúlu, og Valgerður Björnsdóttir frá Hofi í Svarfaðardal. Kona Sveinbjarnar var Sigríður Sveinsdóttir Björnssonar á Hofi. Sveinbjörn kom frá Íslandi 1883 frá Ósi í Eyjafirði, þar sem þau hjón höfðu búið með rausn og sóma um all-langt skeið. Þegar vestur kom, settust þau að í Garðar-bygð í N.-Dak, fluttu þaðan árið 1898 til Mouse River-bygðar ásamt Sveini syni sínum, sem nam land það er þau hjón reistu bú á. Árið 1910 héldu Mouse River-búar þeim hjónum heiðurssamsæti í minningu um 50 ára sambúð þeirra í hjónabandi. Sveinbjörn andaðist hið sama ár, skömmu eftir gullbrúðkaup sitt.

*RÖGNVALDUR HILLMANN* kom úr Pembina County vorið 1898; er faðir hans Pétur Jónsson Hillmann, bóndi við Akra í N.-Dak; faðir Péturs Hillmanns var Jón á Hóli á Skaga, Rögnvaldssonar á Kleifum á Skaga í Skagafjarðarsýslu. Móðir Rögnvaldar Hillmanns er Ólöf Kjartansdóttir úr sömu sýslu. Rögnvaldur er kvæntur Guðrúnu Jóhannesdóttur, Magnússonar frá Hóli í Tungusveit í Skagafirði. Móðir Guðrúnar er Steinunn Jónsdóttir frá Skardalskoti í Siglufirði. Hin gömlu hjón, tengdaforeldrar Rögnvaldar, eru enn á lífi, með dóttur sinni, Guðrúnu. Þau hafa nú verið 55 ár í hjónabandi og var þeim ásamt Sveinbirni Sigurðssyni haldið heiðurssamsæti af sveitungum þeirra. Rögnvaldur Hillmann tók land í hinum nyrðri hluta byggðarinnar; land það var svo lágt, að ekki varð heyjað ár eftir ár, og því óbyggilegt til ábúðar. Réðst hann því til að kaupa einn af hinum fögru bústöðum, er hjarðmennirnir áttu yfir að ráða og áður er um getið. Það er um þrjú lönd og verð á þeim var um 11,000 dollara. Má það kallast stórt í ráðist af manni, sem allslaus var fyrir tíu árum. Rögnvaldur er einn af allra duglegustu bændum bygðarinnar, bæði sem bóndi og félagsmaður.

*JÓN HILLMANN,* bróðir Rögnvaldar, kom frá Akra í N.-Dak. vorið 1899. Nam land hið sama ár í vesturhluta bygðarinnar. Kona hans er Steinunn Frímannsdóttir Hannesonar, bónda hér í bygðinni.

*FRÍMANN HANNESSON* frá Reykjahóli í Seiluhrepp Skagafirði, Hannessonar, Þorvaldssonar sama staðar. Móðir Frímanns var María Björnsdóttir, Lúðvíkssonar frá Héraðsdal, Magnússonar. Frímann átti fyrst Helgu Jóhannesdóttur frá Hóli í Skagafirði, seinna Ingibjörgu Jónsdóttur, Sigurðssonar frá Mörk undan Eyjafjöllum. Frímann kom til Ameríku 1890, dvaldi fyrst í Winnipeg, en síðar um allmörg ár við Mountain í N.-Dak. Til Mouse River-bygðar flutti hann árið 1900.

*JÓN SIGURÐSSON* frá Heiðarkoti í Svarfaðardal kom til Ameríku 1889 og settist þá að við Garðar, N.-Dak. Kona hans var Baldvina Baldvinsdóttir frá Böggversstöðum í Vallnahreppi í Eyjafjarðarsýslu. Hana misti Jón á árunum sem hann dvaldi í Garðar-bygð. Jón flutti til Mouse River-bygðar 1898, ásamt Sveinbirni Sigurðssyni, og nam þar land. Síðar kvæntist Jón Guðrúnu Frímannsdóttur Hannessonar. Jón er nú dáinn, er þetta er ritað.

*MAGNÚS MAGNÚSSON* Halldórssonar frá Hringsdal við Eyjafjörð. Hann kom úr Pembina-héraði árið 1899, þá algjörlega félaus. Hann á nú orðið fallegt heimili og blómlegt bú og munu fáir í bygðinni hafa hafið sig upp á skemmri tíma en Magnús, enda er hann vel greindur maður og fyrirhyggjusamur. Kona hans er Björg Árnadóttir Jónssonar frá Eyvindará í Eiðaþinghá.

*BERGUR MAGNÚSSON* kom úr Garðar-bygð í N.-Dak 1898 og nam land það, sem hann býr á; með honum kom faðir hans, Magnús Magnússon, aldraður mjög; nam hann og land, sem Bergur er nú eigandi að. Þeir feðgar eru ættaðir úr Ólafsfirði í Eyjafjarðarsýslu. Kona Bergs Magnússonar er Pálína Jónsdóttir Sigurðssonar Víum. Bergur er búsýslumaður mikill og einn með gildari bændum.

SIGURDUR ÁRNASON, Jónssonar frá Garði í Reykjadal í Þingeyjarsýslu, Jónssonar frá Geirastöðum við Mývatn. Móðir Sigurðar var Sigríður Sigurðardóttir Flóventssonar frá Skörðum í Reykjahverfi; kona Sigurðar Árnasonar er Sigríður Jónsdóttir Frímanns Jónssonar frá Köldukinn í

Dalasýslu. Móðir Sigurðar er Helga Ólafsdóttir frá Bjarnarstöðum á Hvítársíðu. Sigurður kom frá Akra í N.-Dak. og nam land í bygðinni árið 1899. Hann hefir fyrir tveim árum keypti annað land og býr þar nú. Sigurður er snyrtimaður í búnaði og hagsýnn.

*ÞÓRÐUR JÓNSSON* Breiðfjörð er ættaður úr Dalasýslu; faðir hans var Jón Jónsson á Laugum í Sælingsdal, Jónssonar frá Hvanndal , síðar að Saurbæ vestra. Móðir Þórðar var Þuríður Grímsdóttir frá Kjarlaksstöðum, Guðmundssonar frá Þúfu á Skarðströnd. Þórður Breiðfjörð kom vestur um haf árið 1899 frá Narfeyri á Skógarströnd. Nam land hið sama ár í Mouse River-bygð. Kom hann, sem margir fleiri af Íslandi, eignalaus, þótt um allmörg ár hefði í vistum unnið. Fáir, sem til þessarar bygðar hafa komið, hafa betur notað frelsið og fært sér það í nyt en Þórður Breiðfjörð. Þótt hefðu það öfgar miklar ef sagt hefði verið um aldamótin á Íslandi, er Þórður fór að heiman, að eftir 12 árin hér vestra yrði hann einn af gildustu bændum sinnar sveitar og að eigur hans mundu nema 12—14 þús. dollara. Sá einn hlutur þykir á ráði Þórðar, að hann er ókvæntur til þessa; hefir hann hugsað meira um fé en fljóð. En vel væri fyrir þeirri meyju séð, sem honum væri gefin.

*GÍSLI EYJÓLFSSON,* Benidiktssonar, ættaður úr Seyðisfirði á Íslandi. Móðir Gísla er Sólrún Ketilsdóttir. Foreldrar Gísla búa í Eyford-bygð í Pembina County. Kona Gísla Eyjólfssonar er Guðrún Jónsdóttir, Jónssonar frá Háafelli í Þverárhlíð í Mýrasýslu. Gísli kom til nýlendunnar árið 1900. Heimilisréttarlandi sínu náði Gísli með dómi af auðmanni einum, sem ólöglegar heimildir hafði á landinu. Þótti það vel fara, því vinsæll og drengur hinn bezti er Gísli.

*JÓN FILIPP,* hinn yngri; eru foreldrar hans Jón Filippusson, bóndi í bygðinni, og kona hans Ólöf Ásgrímsdóttir. Þau hjón bjuggu, eins og áður er á vikið, á Enni á Höfðaströnd. Jón yngri ólst upp með foreldrum sínum þar til hann varð lögaldra; kvæntist hann þá og nam land nokkru áður. Kona hans er Guðný Jónsdóttir, Sigurðssonar Víum, bónda við Garðar, N.-Dak. Jón Filipp er lítill maður vexti, en

fjörmaður mikill og fylginn sér. Hefir Jón Filipp meiri kjark, en flestir aðrir sveitungar hans, þótt meiri sýnist á velli. Hann hefir færst meira í fang en nokkur annar bóndi bygðarinnar. Stundar hann akuryrkju í stærri stíl en allir aðrir samlandar hans, en á völtum fæti mun fjárhagur hans vera. Margir munu óska að sjá Jón Filipp eiga betri tíma og honum auðnist að hefja sig til sjálfstæðis.

---

Auk þeirra landnema, sem taldir hafa verið hér að framan, hafa allmörg lönd verið numin af mönnum, sem lítið og ekkert hafa komið við sögu bygðarinnar; sum löndin tekin af stúlkum, sem síðar hafa giftst, og enn aðrir, sem lönd hafa tekið fyrir aðra, látið þau svo af höndum er eignarheimild hefir fengin verið, og skal þeirra nú getið: Jakob Halldórsson, úr Húnaþingi. Gróa Daðadóttir, frá Karlsá í Strandasýslu. Pálína Árnadóttir Jónssonar, síðar kona Jakobs Vestfjörð. Guðný Jónsdóttir, Filipp. Kristín Jónsdóttir, Vestfjörð. Kristín Jóhannsdóttir, Jónssonar. Sigríður Jónsdóttir, kona Ásgríms Sigurðssonar. Sigríður Valmundardóttir. Elízabet Frímann. Guðrún Laxdal. Daníel Helgason. Sigbjörn Byron.

---

*FRUMBÝLINGSÁRIN.*

Hin fyrstu árin voru býsna ervið í sögu nýbyggjanna. Allir komu nálega efnalausir, með tvær hendur tómar. Ekkert við að styðjast nema sjálfa sig, og óbiluga trú á landinu og því örugga von sigurs á erviðleikunum. Þar sem trú og von situr í öndvegi, þar er sigurinn vís. Enda eru nú almennt sigurlaunin fengin. Að ætla sér að fara að tilgreina alt það stríð og alla þá erviðleika, sem frumbyggjar nýlendunnar mættu um allmörg ár, yrði of langt mál. Enda yrði sú saga að mörgu leyti endurtekin. Í flestum hinum eldri nýlendum hafa erviðleikarnir verið líkir, og skilyrðin lík að ráða fram úr þeim.

Hið fyrsta, sem nýbyggjarnir gjörðu, var að byggja skýli yfir sig og sína. Hús þau voru flest af vanefnum gjör; allflest voru bygð úr torfi, með árefti og torfþökum, aðrir bygðu leir-hús, sem voru þannig gjörð, að stoðir voru settar niður og negldar á þær utan og innan renglur úr víði, á milli var fylt upp með heyi, sem blandað var með leir; þarnæst var

kalkað yfir utan og innan. Sumir höfðu árefti og torfþök, aðrir, sem betur máttu, timburþak og spón. Hús þessi litu vel út og voru hlý ef vel voru gjörð. En endingarlítil voru þau og þurftu stöðugt viðhald. Þeir sem meiri efni höfðu, bygðu úr bjálkum, og standa tvö þeirra húsa enn í dag, nú klædd með borðvið. Öll önnur hin gömlu hús eru horfin og allgóð timburhús komin í staðinn.

*Atvinna.*

Hin fyrsta aðal-tekjugrein nýlendubúa var dauglaunavinna á haustum við kornuppskeru hjá annara þjóða mönnum, sem akuryrkju stunduðu. En oft þurfti um þær mundir að sækja vinnuna langar leiðir. Á þeim árum var kaupgjald lágt, $1.50 á dag fyrir einhleypa menn; margir sóttu um vinnuna, en fáir vinnuveitendur; þurfti því lítið út af að bera til þess, að verkamaðurinn fengi fararleyfi. Sumir leituðu ár eftir ár austur í Rauðárdal og má nærri geta að molast hefir úr því kaupi. Konurnar sátu heima og önnuðust hin litlu bú. Alloft bar það við, að þær færðu sig saman. Ekki voru þær á þessu tímabili óþarfari heimilum sínum en menn þeirra. Nokkrir bændur höfðu komið með sauðfé austan úr Rauðárdal, og eignuðust því flestir nýlendubúar sauðkindur. Ullina unnu konurnar, prjónuðu úr henni sokkka og vetlinga og keptust við, má segja daga og nætur. Var þetta næstum sú eina verzlunarvara frumbyggjanna fyrstu árin og lengi fram eftir, og er enn þann dag í dag unnið mikið að tóvinnu; sú tekjugrein frumbyggjanna átti ekki hvað minnstan þátt í hvað fljótt greiddist fram úr erviðleikunum, og mun það ekki ofhermt þó sagt sé, að konurnar í nýlendunni hafi fyllilega lagt til sinn skerf til lífsbaráttunnar, þar sem þær héldu við heimilunum allan veturinn í gegn með tóskap sínum. Lengi framan af hin fyrstu árin var bústofn bænda lítill, að eins fáir nautgripir. Alment lögðu menn stund á að fjölga þeim og gekk furðu vel; lögðu menn algjörlega griparæktina fyrir sig hin fyrstu árin, því heyföng vou ærin og beit **ótakmörkuð**; sumir áttu fjölda gripa um eitt skeið. Um árið 1900 var það að bændur byrjuðu á að brjóta upp hálendið; við það sáu menn að fljótara gekk að ná peningunum og árferðið var gott um þær mundir; gripunum fækkaði að mun fyrir akuryrkjunni, sem nú stóð í blóma. Hin síðustu árin hefir akuryrkjan

brugðist í bygðinni, svo menn fóru að sjá að kýrnar voru farsælli og vissari atvinnuvegur en jaðræktin. Nú voru og líka risin upp tvö smjörgerðarhús á útjöðrum bygðarinnar; fóru menn þá brátt að fjölga kúnum, bæta kynferði og meðferð á þeim, og er sú skoðun almenn nú, að engin atvinnugrein sé vissari ef rétt sé að farið.

*Hinn fyrsti félagsskapur.*

Þegar fólki fjölgaði í bygðinni, vaknaði brátt löngun hjá því að koma saman og skemta sér. Á fyrstu árunum voru ekki gjörðar í þeim efnum miklar kröfur. Um hátíðir og aðra tyllidaga mælti fólkið sér mót í hinum stærri og rúmbetri húsum; voru þær samkomur oft vel sóttar og það miklu betur en nú. Þá var aðal-skemtuninn dansinn. Hljóðfæri voru ekki önnur en munnhörpur og þótti þá gott. Þeir sem bezt léku þá list voru þeir Sveinbjörn Þórðarson og Jónas Goodmann; var það því þeirra hlutverk, að spila fyrir dansana. Þó húsakynni væru ekki góð og margt ófullkomið, skemtu allir sér vel og voru ánægðir með hverja samkomu. En nú er öldin önnur; með vaxandi velmegun aukast áhyggjurnar; dansar og aðrar skemtanir lagðar til síðu: að eins unga kynslóðin, sem dansana rækir. Eftir því sem fólki fjölgaði, urðu íveruhúsin of lítil; kom mönnum þá saman um að brýna nauðsyn bæri til að koma upp samkomuhúsi fyrir bygðina, sem bætt gæti úr þörfinni. Haustið 1895 töluðu sig saman nokkrir menn um að gjöra tilraun til að koma upp slíku húsi; upptökin að því máli átti Sumarl. Kristjánsson; gjörðist hann hvatamaður þess. Árangurinn varð góður, byggingarmálið komst í framkvæmd. Húsið var reist úr bjálkum á landi Helga Guðmundssonar. Bjálkana lögðu til nokkrir menn; Einari Vestfjörð var falið að setja á þakið; að hálfnuðu verkinu kom veður svo mikið, að yfirgerðsluna tók af með öllu, og sat þar við um hríð. Þegar fram á veturinn kom hinn næsta, fengu suðurbúar bygðarinnar þá flugu í höfuðin, að ósanngjarnt væri að húsið stæði norðan árinnar á útjaðri bygðarinnar. Af því tilefni var kallaður saman fundur, og mættu allir, sem hlut áttu að máli, í húsi Jóns Filipps. Formaður sunnanmanna var Sumarliði Kristjánsson, jafnframt forseti fundarins. Eftir langar umræður varð sú niðurstaða, að gamla bjálkatóftin skyldi flutt á land Jóns Kristjánssonar,

er sem næst þótti miðri bygðinni; þeir bræður Jón og Sumarliði buðust til að flytja bjálkana. Er norðanmenn komu heim kviknaði brátt óánægja meðal þeirra með úrslit fundarins; réttindin til hússins mun þeim hafa þótt meiri sín megin, sem hinna fyrstu landnema. Hefir á síðan persónuleg hlutdrægni einstakra manna ráðið úrslitum er um samkomuhús nýlendunnar hefir verið að ræða, sameiginlegum félagsmálum til hnekkis. Óánægja þessi varð svo mikil, er þeir bræður Jón og Sumarliði höfðu dregið bjálkana suður á bústað Jóns, að tveir bændur tóku það er þeir höfðu til gefið, og færðu heim til sín. Gjörðist nú af þessu máli allmikill kur; stóð svo um hríð, þar til hluthöfum kom saman um að gefa lestrarfélagi bygðarinnar byggingarefnið, með því skilyrði að hús yrði reist á Nesi, bústað Einars Vestfjörð, sem lofað hafði að gefa eina ekru af landi undir húsið. Stefán Einarsson fór með gjafabréf þetta um bygðina; árangur varð góður, húsið var sett upp um vorið 1897 á landi Einars Vestfjörð á hinum syðri bakka árinnar. Hús þetta var 30 fet á lengd og 16 á breidd. Þar fóru svo fram hin næstu árin öll fundahöld, guðsþjónustur, giftingar og allskonar skemtanir. Eftir nokkur ár þótti hús þetta of lítið, er fólkið fjölgaði, enda þótti ekki fullnægja kröfum tímans. Fjárhagur manna nú orðinn betri. Kom því til umræðu á safnaðarfundi í Janúar 1904, að koma upp stærra og betra húsi. Urðu menn sem fyrri ekki á eitt sáttir. Sumir vildu að öll bygðin kostaði húsbygginguna, aðrir að söfnuðurinn gjörði það, og urðu um þetta allsnarpar umræður. Endirinn varð sá, að samþykt var að reisa húsið og kosin framkvæmdarnefnd. Í Febrúar sama ár var boðað til almenns fundar er ræða átti um hvar húsið skyldi standa. Guðmundur Frímann bauð fram byggingarstæði, sem var á sömu slóð og hið fyrra hús hafði staðið. Á fundi þessum mættu að eins 20 menn, enginn af hendi sunnanmannnna, því veður var ekki gott en langt að fara. Húsbyggingarmálið komst í gegn og það sett upp um vorið 1904 á landi Guðmundar Frímanns. Allmjög þótti þessu byggingarmáli hafa verið misráðið, og af því hefir leitt óánægju í suður og vestur hluta bygðarinnar.

*Lestrarfélag.*

Það var myndað af fáum mönnum haustið 1895 og þá

keyptar nokkrar bækur fyrir nálægt 12 dollara. Forgöngumaður var Sumarliði Kristjánsson. Hann var og formaður fyrsta árið. Fólkið sá, að naumast væri hægt að lifa án þess, því blindur væri bóklaus maður. Í Desember 1896 var haldinn hinn fyrsti ársfundur Lestrarfélagsins. Formaður fundarins var Sumarliði, skrifari Jón bróðir hans. Jón Kristjánsson bar fram þá uppástungu, að kalla lestrarfélagið Þorra, og var það samþykt. Nefnd var kosin til þess að semja lög fyrir félagið. Formaður þeirrar nefndar var Job Sigurðsson. Sömdu þeir all-merkilegar reglur í 17 greinum fyrir félagið. sem voru í gildi þar til safnið var gefið söfnuðinum. Í hina fyrstu nefnd voru valdir: Stefán Einarsson, formaður; Guðmundur Frímann, féhirðir; bókavörður, Einar Vestfjörð, og skrifari Jón Kristjánsson. Lestrarfélagið hefir starfað síðan með árvekni og dugnaði; á nú orðið álitlegt bókasafn. Hin fyrstu árin var safnið eign einstakra manna. Árið 1902 var það gefið söfnuðinum, með því skilyrði, að aðrir en safnaðarmenn ættu ekki aðgang að bókunum og hefir það reynst hið mesta happaráð; tillag þeirra, sem bækurnar nota, er 50 cent. um árið.

*Trúmálin.*

Þegar fram liðu stundir og eftir því sem hin ytri lífskjör bygðarmanna bötnuðu, fór fólkið að finna til þess, að eitthvað vantaði, þótt líkamlegu þörfunum væri að miklu leyti fullnægt. Það var andlega þörfin; úr þeirri þörf var áríðandi að bæta og það sem fyrst. Enda leið það ekki á löngu, eftir að tækifæri gafst í þeim efnum. Hinn fyrsti maður, sem framkvæmd sýndi í því máli, var Jón Filipp. Hann fór austur til Pembina County haustið 1896 og fann að máli Jónas A. Sigurðsson, er þá var orðinn prestur. Síðar um veturinn átti Jón bréfaviðskifti við séra Jónas; árangurinn var sá, að prestur kom vestur um vorið 1897. Flutti hann messu 25. Júlí í skólahúsi í norðurhluta bygðarinnar; að lokinni guðsþjónustu kallaði prestur saman fund og var séra Jónas kosinn fundarstjóri. Því næst las hann upp safnaðarlögin; létu þá skrifa sig í söfnuð flestalt fólk bygðarinnar, og söfnuðurinn nefndur Melanktons-söfnuður. Séra Jónas valdi nafnið; þá var kosin safnaðarnefnd og í hana valdir: G. Frímann forseti, Jón Goodman féhirðir, Jón Kristjánsson skrif-

ari, Jakob Vestfjörð og Halldór Egilsson meðráðamenn; — til djákna: Jón Filipp og Einar Vestfjörð.

Brátt eftir myndun safnaðarins komst á sunnudagsskóli. Hinir fyrstu kennarar voru: Stefán Einarsson, Jón Kristjánsson og Einar Breiðfjörð; ræktu þeir allir starfa sinn með hinni mestu alúð. Á stofnfundinum var samþykt að halda uppi sunnudagslestrum, og hefir þeirri ákvörðun jafnan verið fylgt síðan, að lesið hefir verið í samkomuhúsi bygðarinnar. Í fimm ár samfleytt kom séra Jónas A. Sigurðsson til Melanktons safnaðar og framkvæmdi öll brýnustu prestsverk safnaðarins. Söfnuðurinn hefir í einum anda loflega minningu hans sem prests. Síðan hafa prestar komið á ári hverju til safnaðarins, flutt messur og gjört önnur prestsverk, hin síðustu árin fjórar ferðir á ári. Þeir sem mest og bezt hafa stutt söfnuðinn og unnið að því að halda honum saman, eru: Stefán S. Einarsson og Job Sigurðsson; hafa þeir lengst af átt sæti í safnaðarnefnd; þeir hafa hvor í sínu lagi starfað með áhuga að safnaðarmálum; enn fremur Jón Kristjánsson, meðan hann var innan safnaðarins, atkvæðamaður og fylginn sér; Árni Goodman og Rögnvaldur P. Hillmann eru ótrauðir starfsmenn í þarfir safnaðarmála; þessi árin er Rögnvaldur forseti safnaðarins, og ekki hefir annar meiri framkvæmdarmaður skipað það sæti. Í sambandi við safnaðarmálin má geta þess, að Melanktons-söfnuður á alíslenzkan grafreit; var það um 1896 að Gísli Jónsson frá Kjörseyri, sem fyr er nefndur, gaf söfnuðinum eina ekru af heimilisréttarlandi sínu í því skyni; reitur sá er vel um girtur, og hafa bygðarmenn jarðsett alla, sem dáið hafa, í grafreit þessum. Má þar orðið sjá marga og fallega minnisvarða, sem ættingjar hafa reist hinum látnu frændum sínum. Séra Jónas A. Sigurðsson vígði grafreitinn og tók þá, sem oftar á hinni miklu málsnild sinni við það tækifæri. Aðrir en Íslendingar eiga ekki aðgang að grafreit þessum.

*Kvenfélagið*

var myndað 21. Febrúar 1901. Frumkvöðlar að myndun þess voru þeir Stefán S. Einarsson og Jón Kristjánsson. Byrjuðu konurnar félag sitt með 16 meðlimum, undir forustu húsfrú Bjargar Davíðsson, sem forseti var félagsskaparins hið fyrsta árið. Síðan hafa allmargar bæzt við. Kvenfélagið hefir

starfað öll þessi ár með stakri árvekni og dugnaði. Markmið þeirra hefir alla stund verið að styrkja safnaðarfélagsskapinn. Ekki ósjaldan hafa þær varið fé sínu til líknar þurfandi fólki og hjálpað því stundum í ríkulegum mæli. Alla stund hafa konurnar verið lífið og sálin í samkvæmislífinu og flestar skemtisamkomur hafa verið af þeirra toga spunnar. Án kvenfélagsins hefði samkvæmislíf bygðarinnar verið dauft og tilkomulítið.

*Bindindisfélagið.*

Bindindismálum var fyrst hreyft veturinn 1902. Upphafsmaður að þeirri hreyfing var Guðmundur Frímann; kvaddi hann til fundar 19. Febrúar það ár og var Guðmundur formaður fundarins og flutningsmaður málsins; félag var stofnað og flestir, sem á fundinum voru, gengu í það. Bindindisfélag þetta gjörði gott, þótt ekki yrði það langlíft. Bindindishugmyndin dó ekki út þótt hin fyrsta tilraun hepnaðist ekki. Veturinn 1906 var fitjað upp af nýju með Stefán Einarsson í broddi fylkingar; þá gengu allmargir inn hinna eldri manna, nálega allur ungdómurinn og fjöldi kvenna. Bindindisfélag þetta starfar með allmiklum áhuga, heldur reglulega fundi og alloft skemtisamkomur; á þeim samkomum hafa verið fluttar áhrifamiklar tölur af foringja bindindismálsins, Stefáni Einarssyni, sem brennandi áhuga ber fyrir því máli, Bindindisstarfsemi þessi hefir leitt af sér mikið gott, auk þess sem öll hin yngri kynslóð er innan vébanda þessa félagsskapar, eru þar margir hinna eldri mannna; þeir fáu, sem utan við standa, eru komnir á það siðmenningarstig að hafa að miklu leyti lagt niður áfengisnautnina, og var það bindindisfélagið, sem kveðið hefir víndrykkjuna niður. Vonandi er, að með vaxandi þekking hinnar yngri kynslóðar hverfi þetta átumein með öllu, sem alt of lengi og of víða hefir verið mesta böl þjóðarinnar.

*Samgöngumál og verzlun.*

Samgöngur hafa frá fyrstu landnámstíð Íslendinga verið allgóðar. Verzlun ráku bygðarbúar all-lengi í Willow City; þangað voru um 20 mílur; þótti það langur vegur í kaupstað. Á vetrum höfðu menn oft harða útivist, því oft þurfti að fara, þar kaupin voru að jafnaði í smáum stíl; stundum bar

það við, að farið var til Towner; eru þangað 24 mílur. Seinna kom upp sveitarverzlun á pósthúsinu Ely; var það hægðarauki mikill, að fá verzlun inn í bygðina, þó að ekki gæti fullnægt þörfinni. Aðal-verzlunarvara Íslendinga á vetrum var prjónles og smjör. Tóskapur var þá í stærri stíl en svo, að ein smáverzlun gæti tekið á móti; varð því oft að leita hinna stærri bæjanna.

Árið 1905 var sem algjörlega birti yfir landi og lýð í Mouse River-bygð. Það ár hefst nýtt tímabil í sögu nýlendunnar. Í tuttugu ár höfðu hinir elztu íbúar bygðarinnar vonast eftir betri og greiðari samgöngum; vegalengd til járnbrautar stóð nýlendunni fyrir þrifum; lítið var gjört að því að rækta landið. Þetta umrædda ár var lögð járnbraut gegn um bygðina að sunnanverðu og önnur braut fyrir norðan hana. Hið sama ár risu upp með brautum þessum all-álitleg þorp, með 6 mílna millibili. Þeir, sem ferðast hafa um bygðir þessar fyrrum og nú, hafa mátt segja: "Farið hefi eg um héraðið víða, kenni eg varla, að hið sama sé." Jörðin hefir verið lögð undir yfirráð mannsins, nú er hér hver blettur ræktaður. Íveruhús, fjós og kornhlöður risið upp í stað torfkofanna og bjálkahúsanna. Fáir munu nú eiga yfir fimm mílur í kaupstað. Í bæjunum hafa verið sett upp smjörgerðarhús til beggja handa; all-margir Íslendingar eru hluthafar í þeim stofnunum og leggja bygðarmenn nú miklu meira kapp á kúarækt en fyrri og standa Íslendingar þar miklu betur að vígi en aðrir, sökum hinna grasgefnu engja, sem þeir hafa yfir að ráða

Akvegir hafa víðast hvar verið all-góðir, að undanskildum hinum mikla heylands-flóa, sem áður er getið, og sem klýfur bygðina í sundur er vatnavextir verða á vorin. Árið 1910 var lögð akbraut gegn um flóa þennan; var vegur sá fjórar mílur á lengd og kostaði nálega 4,000 dollara. Sveitin lagði fram peningana og Íslendingar unnu hið mesta af verkinu undir umsjón Jakobs E. Vestfjörð, sem tekið hafði að sér yfirstjórn vegagjörðarinnar.

*Skólamál.*

Hin fyrstu ár nýlendubúa var lítið um barnaskóla; fóru því allmargir á mis við hina almennu mentun. En nú um allmörg ár hafa verið fjögur skólahús innan endimarka íslenzku

bygðarinnar. Flestir þeir unglingar, sem lokið hafa námi á barnaskólunum hin síðustu árin, hafa leitað hinna æðri skólanna í Grand Forks og Fargo, lagt þar fyrir sig ýmsar námsgreinir, andlegar og verklegar, og allar líkur benda til þess, að rekspölur sá haldist sem nú er á kominn, að unga fólkið láti ekki staðar nema við barnaskólana, eftir því sem efni og ástæður leyfa.

*Samlyndi.*

og sameiginlegur félagsskapur bygðarinnar hefir mátt heita góður, frá því fyrsta að bygðin hófst; persónulegur ágreiningur naumast komið fyrir manna á meðal. Þótt menn yrðu ekki á eitt sáttir um samkomuhús bygðarinnar, spilti það ekki samlyndi manna. Hið stærsta félag bygðarinnar, sem er safnaðarfélagið, hafa nálega allir stutt. Í trúarefnum enginn ágreiningur verið, sem má þó heita merkilegt á þessum heitu byltinga tímum.

---

*Eftirmáli.*

Er þá hér með lokið landnámsþætti Mouse River-bygðarinnar, og vill höfundurinn biðja alla hlutaðeigendur vel að virða og færa á betri veg það sem ófimlega hefir verið frá sagt. Ættartölur hafa verið teknar að eins beint fram: til hliðar virtist ónauðsynlegt að fara. Að lýsa hverjum einum landnema út af fyrir sig, var næsta torvelt, enda þýðingarlítið, og vonar höfundurinn að slíkt verði ekki misskilið, því innan bygðarinnar er það kunnugt, að ekki er um hlutdrægni að ræða, þar sem höfundurinn hefir hvorki frændsemi né venzl að virða.

---

# STUTT ÁGRIP AF LANDNÁMSSÖGU
## Íslendinga í Albertahéraði.

*IV. KAFLI.*

Svo var tilætlað, að III. kafli sögu þessarar teldi alla landnámsmenn á tímabilinu frá 1890 til 1900. Það gat þó eigi orðið, af ástæðum þeim, er teknar eru fram í niðurlagi III. kafla; nokkrir voru fleiri, sem námu land á þessum áratug; verða þeir nú taldir fyrst í IV. kafla.

*ÞÆTTIR LANDNÁMSMANNA 1890 TIL 1900.*

48. ÞÁTTUR.

*HELGI JÓNASSON.* — Helgi var Eyfirðingur að ætterni. Faðir hans var Jónas Sigurðsson á Bakka í Yxnadal í Eyjafjarðarsýslu; bjó hann lengi á Bakka, en flutti þaðan að Fremri-Kotum í Norðurárdal í Skagafjarðarsýslu. Þaðan flutti Jónas norður aptur, og fór þá að búa í Bakkaseli í Yxnadal og dó þar. Móðir Helga var Helga, yfirsetukona, Egilsdóttir frá Syðri-Bægisá; var hún af ættlegg Árna biskups Þórarinssonar á Hólum í Hjaltadal. Jónas, faðir Helga, var kominn af Hvassafells-ættinni og skyldur mjög Jónasi Hallgrímssyni, skáldinu nafnfræga. Bróðir Helga var Sigtryggur Jónasson, fyrrum ritstjóri Lögbergs; fleiri munu þau systkini hafa verið, þótt eigi verði hér rökfært nema um eina systur, konu Jafets Reinholts. Eigi verður sagt neitt víst um það, nær Helgi fór af Íslandi vestur um haf, en til Alberta mun hann hafa komið árið 1894 eða 5; settist hann þá að á Tindastóli, hjá Jóh. Björnssyni, og byrjaði þar á litilli verzlun á eigin efni. Þar var hann á annað ár. Vorið 1897 byrjaði Helgi verzlun á Markerville, og lét þá jafnsnemma byrja að vinna að ostagjörð. Það voru fyrstu byggingarnar, sem reistar voru á Markerville: sölubúð Helga og ostagjörðarhús, sem bændur byggðu að miklu leyti á sinn kostnað. Um það er ritað í "Um verzlun." Eptir að Helgi lét af verzlun,

sem mun hafa verið árið 1903, nam hann land skammt austur af Markerville og eignaðist það; lagði hann þá stund á griparækt um sinn. Helgi var vel viti borinn maður og hafði fengið nokkura menntun við gagnfræðaskólann á Möðruvöllum.

Helgi var heilsutæpur; nokkuð einrænn í skoðunum sínum og sérlyndur. Geðsmunabilun þjáði hann mjög síðustu misseri æfi hans, og það ætla eg yrði honum að aldurtila; hann fór héðan austur til Manitoba og andaðist þar.

49. ÞÁTTUR.

*ÓLAFUR BENIDIKTSSON.* — Faðir Ólafs var Benidikt Ólafsson frá Eiðsstöðum í Blöndudal í Húnavatnssýslu; er sú ætt talin í II. Kafla, 4. þætti.—Ólafur var barn að aldri, er hann kom frá Íslandi með foreldrum sínum; í Nýja Íslandi missti hann sína ágætu móður; ólst hann síðan upp með föður sínum til fullorðinsára og fylgdist með honum til Alberta árið 1888 frá N. Dakota. Eptir það var hann ýmist með föður sínum eða sætti atvinnu suður í Calgary, þangað til árið 1896, að hann kvæntist ungfrú Guðrúnu Guðmundardóttur, alsystur Jóns Guðmundarsonar í Calgary og hálfsystur Bjarna bónda Jónssonar við Markerville, smb. II. Kafla, 5. þætti. Eptir það rjeðst Ólafur norður til nýlendunnar; settist hann þá á land mílu vestur frá Kristni Kristinssyni. Það er gott land, en hann var þar nokkuð fjarri öðrum búendum, og þótti honum það eigi hallkvæmt. En eptir næsta ár flutti á næsta land við hann maður sá, er Jósef hét Hallgrímsson, Hólm, skagfirzkur að kyni, hinn mesti myndarmaður í hvívetna; kona hans hét Ágústa Bjarnardóttir, fósturdóttir Benidicts Ólafssonar og seinni konu hans Bjargar Torfadóttur, og var hún í skyldleikum við hann. Gjörði Jósef sjer þar heimili; hugði Ólafur þá gott til, að hafa fengið gott nágrenni. En það sama sumar andaðist Jósef Hólm, frá konu sinni og tveim ungum sonum; fór hún þá með börn sín til fósturföður síns; hún giftist í annað sinn Sigurði Erlendssyni—Allan—, og hafa þau búið í nánd við Disbury, Alberta. Eptir þetta orðið, þótti Ólafi dauflegt að halda áfram búnaði þarna; hugsaði hann þá ráð sitt og fastrjeði að breyta til. Gekk Ólafur þá í verzlunarfjelag við Jón bróður sinn og hjeldu þeir þeim fjelagsskap þangað til Ólaf-

ur dó 1908. Ólafur hafði þá fyrir nokkrum árum misst konu sína. Þau áttu þrjár dætur barna; ein dó ung, en tvær lifa. Ólafur var merkismaður að flestu, gæddur góðum hæfileikum, og notaði þá sér og öðrum til gagns. Hann var stefnufastur og reglusamur, verkhagur og iðjusamur í stöðu sinni; háttprúður í allri framkomu og flestum traustari með efndir orða sinna. Eptir að pósthúsið var opnað á Markerville, var hann þar póstafgreiðslumaður til dauðadags. Að honum var mannskaði mikill fyrir sveit þessa.

50 ÞÁTTUR.

*HÓLMFRÍÐUR PJETURSDÓTTIR.* — Það er sagt í II. kafla, 13. þ., að Gísli Dalman sleppti landi því, er hann hafði numið; það land nam síðar, árið 1896, Hólmfríður Pjetursdóttir Pjeturssonar frá Miðfjarðarnesi á Langanesi norður; hún var ekkja eptir Kristinn Magnússon, frá Sköruvík á Langanesi; var ætt þeira öll norður þar. Hólmfríður var í miklum skyldleikum við Hólmfríði konu Sigfúsar Goodmans; fór hún til þeirra hjóna, er hún fluttist vestur frá Íslandi árið 1889 og var hjá þeim löngum síðan, þangað til Hólmfríður Goodman andaðist. Son átti hún einn á lífi eptir mann sinn, Aðaljón að nafni, sem ólst upp með móður sinni, velgefinn og góður piltur. Síðar seldi hólmfríður land stit; keyptu þau mæðgin þá bæjarjörð á Markerville og byggðu á henni; fluttu þau þangað árið 1907 og hafa búið þar síðan. Er Aðaljón nú aðstoðarmaður Gríms póstafgreiðslumanns.

## 51. ÞÁTTUR.

*KRISTJÁN JÓNSSON.* — Kristján Jónsson er að ætterni kominn af Mýramönnum. Hann er sonur Jóns Þorsteinssonar, er bjó að Þverá í Eyjafirði, og Lilju Ólafsdóttur, en um ætt hennar er mjer ekki kunnugt. Kristján var í föðurætt nærskyldur Þorsteini Daníelssyni á Skipalóni. Bróðir Kristjáns heitir Þorsteinn, nú í California, en systur Kristjáns eru: Friðrika ekkja eptir Þorstein Jónasson á Engimýri í Yxnadal; önnur er kona Jóns Friðfinssonar í Winnipeg, og hin þriðja var kona Jóns Þórðarsonar við Hensel, fyrrum alþingismanns í Norður-Dakota. Enn mun Kristján hafa átt eina systur eða fleiri, en ekki er nú hægt að rökstyðja þá tilgátu. — Kristján fór vestur um haf árið 1873; hélt hann þá til Bandaríkjanna, til Milwaukee borgar í Wisconsin-ríki. Þar mun Kristján hafa dvalið þangað til árið 1878, að hann flutti til N.-Dakota í nánd við Garðar. Þar nam hann land, og mun hafa verið einn af fyrstu landnámsmönnum í þeirri byggð. Árið 1880 kvæntist Kristján ungfrú Guðfinnu Sveinsdóttur Árnasonar úr Fáskrúðsfirði. Vestur til Alberta flutti Kristján árið 1899; nam hann þá land árið næsta í grennd við Sólheima, og hefir búið á landi því síðan. Þau hjón hafa eignast fimmtán börn; af þeim eru sex á lífi. Elzti sonur þeirra, Friðrik, kvæntist Guðlínu Þórlaugu, dóttur Guðmundar Illugasonar. Elzta dóttir Kristjáns, Aurora,



giptist manni af enskum ættum. Kristján er einn hinna leiðandi manna og hefir tekið mikinn þátt í fjelagsmálum sveitarinnar, einkum kirkju- og safnaðar-málum; hann er skynsamur maður og hefir ljósa og víðtæka skoðun á hinum ýmsu margbreyttu kröfum mannlífsins; gleðimaður er Kristján og einn hinna beztu tölumanna; heimili þeirra hjóna er myndarlegt og höfðingsskapur, alúð og hlýleiki gagnvart þeim, sem að garði bera, er einkenni þess.

52. ÞÁTTUR.

*ÁRNI PÁLSSON.* — Faðir Árna var Páll söðlasmiður í Fljótum í Skagafjarðarsýslu, Árnasonar, Pálssonar prests að Myrká í Hörgárdal í Eyjafjarðarsýslu; mun sjera Páll hafa verið sonur Árna biskups Þórarinssonar á Hólum í Hjaltadal. — Móðir Árna hjet Ingibjörg Sigurðardóttir, Jónssonar. Eina hálfsystur átti Árni, Sezelju konu Benidicts Jónsonar Bárdal. Árni var síðast í Fljótum og hjelt þaðan vestur um haf; fór Árni þá til Alberta; settist hann að í Calgary og dvaldi þar tvö ár; árið 1888 fór hann frá Íslandi, en árið 1890 flutti Árni frá Calgary norður um til nýlendunnar; nam hann þá land eigi langt frá Burnt Lake; litlu síðar ljet hann það aptur af hendi til stjórnarinnar; flutti hann þá suður til Calgary og settist þar að; bjó hann þar í þrettán ár; fjekkst hann þá mest við smíðavinnu í bænum. Árni flutti aptur norður til nýlendunnar árið 1903 eða 4; nam Árni þá land í tungunni að vestan verðu við Medicine-á, suður frá bústað Kristins Kristinssonar, og bjó þar síðan.

53. ÞÁTTUR.

*EINAR JÓNSSON.* — Einar var fæddur árið 1831, að Snjóholti í Eiða-þinghá í Suður-Múlasýslu. Faðir hans var Jón Einarsson, Jónssonar, Oddssonar prests á Hjaltastað í Norður-Múlasýslu. Móðir Einars var Guðný, dóttir Sigfúsar prests að Ási í Fellum, Guðmundssonar prests á Hofi í Vopnafirði. — Kona Einars hjet Ólöf; hún var fædd í Litlu-Vík í Norður-Múlasýslu. Faðir hennar var Grímur Brynjólfsson, Grímssonar prests á Hjaltastað. Einar bjó nálega allan sinn búskap á Einarsstöðum í Vopnafirði; hann flutti vestur um haf árið 1877, til íslenzku byggðarinnar í Minneota,

Minn. Nam Einar þar land í Lincoln héraði, í Vestur-byggð svonefndri, og bjó þar þangað til Ólöf kona hans dó, árið 1892. Til Alberta nýlendunnar mun Einar hafa flutt árið 1896; tók hann þá land og byggði á því, fjórar mílur norður af Tindastól; á því bjó hann svo hin næstu misseri; börn áttu þau Einar og Ólöf þrjú, sem náðu fullorðinsaldri; þeirra var Þorgerður elzt; hún var gipt Guðmundi Jóni Jónssyni, Rafnssonar; hin voru: Grímur og Guðrún; komu þau með föður sínum til Alberta og voru með honum til þess hann dó. Grímur kvæntist ungfrú Margréti Ingibjörgu Jósepsdóttur, Stefánssonar (sbr. II. k., 16. þ.), en Guðrún giptist manni af enskum ættum, James G. Murry að nafni. Einar afsalaði sjer aptur landinu, og færði þá föng sín vestur til Markerville og byggði þar heimili fyrir sig. Um það leyti rak Helgi Jónasson verzlun á Markerville; gekk þá Einar í fjelag við Helga um sinn, en hafinn mun sá fjelagsskapur hafa verið nokkru fyrr en Einar dó; hann andaðist 7. Jan. 1901. — Einar var merkur maður, þegar þess verulega var gætt, að hann ljet jafnan lítið yfir sjer og hjelt sjer ekki fram; en orð hans og gjörðir báru órækan vott þess, að hann hugsaði meira um að vera en að sýnast; hann var dável skynsamur maður og hugsaði jafnan gjör áður en hann afrjeði eða framkvæmdi. Hann kunni vel að fara með efni sín og var líka sterk-efnaður, er hann kom til Alberta. Á seinni árum sínum í Minnesota mun hann hafa fengizt töluvert við ýms gróðafyrirtæki, og heppnast þau vel. Það var opt skemmtun að heyra gamla manninn gjöra áætlun fyrifram um ýms fyrirtæki, einkum vegna þess, hvað hann hugsaði djúpt og nákvæmlega. Hann var hjer vel metinn, eins og hann átti skilið. — Þess skal enn fremur getið, aðmjer er ekki kunnugt um systkini Einars annað en það, að hann átti sex systkini á lífi, nær þetta er ritað, einn bróður og tvær systur á Íslandi, og þrjár systur í Minnesota.

## 54. ÞÁTTUR.

*JAFET REINHOLT.* — Eigi er hjer hægt að telja ætt Jafets, en nærskyldur var hann Indriða Reinholt, (sjá III. k., 46. þ.). Jafet átti fyrir konu systur Helga Jónassonar (sjá IV. k., 48. þ.); að öðru verður ekki sögð hjer ætt þeirra hjóna. Jafet var smár vexti en göngumaður mikil og frár á

fæti; mundi hann hafa verið látinn hlaupa fyrir til njósna á landnámsöldinni, sem Rafn hinn litli í sögu Finnboga ramma. Ekki er hægt að ákveða með vissu, nær Jafet kom til Albertanýlendunnar, en þó ætla jeg að það hafi verið á árunum 1894—96; nam hann land við Burnt Lake og bjó þar um hríð. Jafet var fjelítill og hafði fullan kepping að framfæra sig og skyldulið sitt; en svo tók fram úr því fyrir honum, því konu hans tæmdist arfur eptir Helga bróður sinn svo nokkru nam, svo hann hafði þá álitlegan fjárstofn, sem bætti hans. hefði hann þá ekki brugðið á annað ráð; en eigi löngu síðar fjekk hann þá flugu í höfuðið, að flytja til Cuba; ekki þótti mönnum þessi ráðagerð Jafets hyggilega stofnuð og urðu ýmsir til að letja hann, en hann ljet ekki letjast. Sendi hann þá son sinn—ungling að aldri—áleiðis þangað að greiða sjer veg, og komst sá nauðulega um síðir alla leið. Árið eptir, 1909, seldi Jafet land sitt og lausafje og fór til eyjarinnar Cuba.

## *II. FJELAGSSKAPUR OG FRAMFARIR*
## 1890 — 1900.

Í öðrum kaflanum í söguágripi þessu er sýnt fram á, að fyrstu tvö árin, 1888—90, var um litlar framfarir að ræða í nýlendunni. Nýbyggjarnir höfðu við öðru að snúast; þeir höfðu fullan kepping í baráttunni fyrir lífsnauðsynjum sínum; um samtök til fjelagsskapar gat þá ekki verið að ræða; efni voru smá, og vinnukraftarnir veikir; allir voru einyrkjar og höfðu því aðeins sínum kröptum til að dreifa. Þeir, sem gátu, reyndu þá eptir megni að bæta híbýli sín og auka sem föng framast leyfðu bústofn sinn. Eigi að síður var mönnum ljóst, að eigi mátti svo búið standa. Liðu því eigi langir tímar, áður farið væri að vinna í þá áttina, að ráða bát á hinum mest umvarðandi almennu þörfum. En til þess þurfti fjelagsskap; þeir fáu landnemar, sem þá voru komnir, voru dreifðir um afar-stórt svæði, og gjörði það alla samvinnu torsótta. Það, sem mönnum fannst þá mest um vert, var vöntun á reglulegum póstflutningum og alþýðuskólum. Það voru allra nauðsynlegustu málefnin, sem ráða þurfti framúr.

### 1.—*PÓSTMÁL.* ......

Þess er áður getið, að veitt var pósthús, "Cash City", 1889, en var lagt niður eptir rúmt ár, af ástæðum, sem áður

eru taldar. Eptir það urðu nýlendubúar að flytja sjálfir póst sinn hin næstu misseri frá Poplar Grove; varð sá póstflutningur harla óreglulegur og sjaldan, utan þá menn höfðu önnur nauðsynjaerindi að reka. Poplar Grove fjekk póst frá Cal-



JÓHANN BJÖRNSON.

gary einu sinni í viku; var hann þá fluttur á hestavögnum norður um, og bar það þá eigi ósjaldan við, að póstur varð einum eða fleiri dögum á eptnr áætlun, þegar veður voru hörð og vegir torsóttir yfirferðar. Eigi stóð þannig lengi, því eigi miklu síðar var járnbrautin byggð norður um og fjekk þá Poplar Grove (nú Innisfail) reglulegan póstflutning að sunnan. Illt þótti nýlendumönnum að hafa ekki pósthús í byggðinni. Því var það, að veturinn 1890 eða 91 að leitað var um við Sigurð J. Björnsson að takast á hendur póstaf-

greiðslu í byggðinni, en hann vjekst undan þeirri kvöð, en nefndi til Jóhann Björnsson; kom þeim málum svo, að Jóhann gaf kost á sjer, svo fremi, að byggðarbúar vildu fulltingja sjer; var og öll suður- og vesturbyggðin þessu fylgjandi, en norðausturbyggðar-búar ljetu sjer fátt um finnast ráðagjörð þessa. Ljetu sem sjer myndi eigi annað líka, en að pósthúsið yrði sett þar nyrðra. Þótti þá til vandræða horfa, ef menn gætu eigi orðið á eitt sáttir. Var þá laginn stefnudagur hjá Jóni Pjeturssyni, og komu þar saman allir byggðarbændur. Var þá rætt um pósthúsið. Deildust þá mjög meiningar manna og var stórlangt millum þeirra þykkju; vildu austurbúar eigi láta sjer annað líka, en pósthúsið yrði sett, eigi vestar en hjá Jóni Pjeturssyni, en vestanmenn andæptu þv. Þótti þá horfa óvænt við, ef sundrung sú ónýtti þetta velferðamál. Stóð þá upp Ólafur frá Espihói og bað sjer hljóðs. Flutti hann þá langt erindi og skörulegt, **með sinni** alkunnu lipurð; sýndi hann fram á, hve óhyggilega fundinum færist; byggðin væri enn fámenn og afskekkt; kvað það eitt helzt til heilla, að allir hyrfu að einu ráði um, að ná einu pósthúsi í byggðina; — fyrst, og með því að suður og vestur parturinn væri enn mannfleiri, þá væri einsætt, að setja ætti pósthúsið þar; kvað hann þá myndi brátt vinnast að fá annað pósthús sett í nánd við það sem Sólheima nú er, nær byggðin þjettist; hann sagði, að ekkert gæti nú unnizt með sundrung, þar óvíst væri, að eitt pósthús fengist eins og nú stæði. — Eptir þessa miðlunartölu Ólafs, dró saman hugi manna og skildu sáttir að kalla; undu austurbúar lítt þeim úrslitum. Eigi löngu eptir fundinn var samin bænarskrá um pósthús hjá Jóhanni Björnssyni, er kallað væri Stokkholm, og send um suður og vestur bygðina til undirskripta. Þá var leitað undirskripta í austurbyggðinni; kom þá í ljós, að austurbúar skárust úr leik og brugðust í liðveizlunni. Höfðu þeir þá fengið til bónda einn, er bjó þar austur, er Martin hjet, að sækja um pósthús hjá sjer; hafði hann fengið allar undirskriptir þar austur um kvað hann Jóhanni til lítils myndi koma, að etja kapp við sig, væri honum sá kostur beztur, að láta af þeirri ætlan. Ekki gazt Jóhanni að þeirri tilhögun; kvað þá myndu reyna þetta með sjer; mætti þá svo til bera, að bæði pósthúsin fengjust jafnsnemma, og væri þá mikið unnið. Á þetta fjellzt Martin, taldi sjer sigurinn vísan,

gömlum Canadamanni, er átti marga þingmenn að vinum, sem líklegir væru að bjarga máli sínu. Samt rjeðst það, að Jóhann færi til Calgary. Voru þar margir Íslendingar, sumir þeirra búnir að nema land norður í nýlendunni og nokkrir, sem hugðu á staðfestu þar nyrðra þá tímar liðu. Hvöttu sumir þeirra Jóhann að koma þangað og fá undirritun þeirra. Þetta sama mun hafa vakað fyrir austurbúum; Jóhann fór nær vetur tók af og vegir leyfðu. Sendu þá austurbyggðarmenn A. Martein í sömu erindagjörðum, sáu að svobúið mátti eigi standa. Fór hann degi fyrr að heiman en Jóhann, og fór dagfari og náttfari unz til Calgary kom. Þar bar fundum þeirra saman, Jóhanns og Marteins, og fór þá allt ásamt með þeim. Kvaðst Marteinn hafa verið hafður að fífli af sveitungum sínum; engir mættu undirrita bænarskrá um pósthús, sem eigi væru búsettir í byggðinni. Kvaðst hann myndi hegna þeim með því, að hætta við umsóknina; fjell sú ráðagjörð niður án frekari framkvæmda. Jóhann sendi sína bænarskrá B. L. Baldwinssyni, sem þá var innflutnings umboðsmaður Canadastjórnar, og fól honum að framfylgja henni. Öndvert á því sumri fór Baldwinson norður um til Edmonton. Á þeirri ferð sótti Baldvin heim Alb.-nýlendubúa. Varð þá tilrætt um pósthúss-vöntunina. Að hans ráði og Stephans G. Stephanssonar var breytt um nafn á pósthúsinu, og nefnt Tindastóll. Kvaðst Baldvin á því sumri þurfa að erindum sínum austur til Ottawa; mun þá Stephan, sem mest vann að framkvæmdum málsins, hafa falið Baldvini alla framkvæmd í máli þessu. Sagði Baldvin, að pósthúsið skyldi fást, innnan skamms. Eigi varð það að vonbrigðum, því pósthúsið Tindastóll var veitt frá 1. Júní 1892, fyrir öruggt fylgi og umsýslun B. L. Baldwinssonar, því mjög var það óvíst, að bænarskráin hefði fengið æskilega áheyrn án hans umsýslu. Var þá fengin reglubundin póstleið frá Innisfail til Tindastóll; var póstur einu sinni í viku. Jóhann tók þá póstkeyrsluna; en þyki póststjórnin nú spör á verkalaunm þjóna sinna, var hún það þá; laun Jóhanns fyrir póstflutninginn voru rúmir 100 dalir um árið, sem ekki var helfingur þess, sem sanngjarnt var, und'r þáverandi ástæðum. Þá var ekki komin keyrslubrú á Red Deer ána, og alls engir vegir eptir að fara; var það löngum á vorin og sumrin, að yfir ána varð ekki farið utan á ferju, sem engin var þá að

gagni, heldur að eins litlir bátar; á haustin var áin opt ófær alla vega, sökum höfuðísa og krapfara. Fáir mundu þá þeir, er eins eða betur hefðu sigrazt á örðugleikum þessum, sem Jóhann Björnsson, eða rækt betur skylduverk sitt en hann. Allar aðkeyptar heimilisnauðsynjar urðu byggðarmenn þá að sækja yfir að járnbraut og lengi eptir það, og ekki voru þá nærri allir, sem hefðu sjálfir tæki til að færa þær að sjer, og vissulega hefði þá enginn getað reynzt hjálpsamari og raunbetri en Jóhann; fáar munu þær ferðirnar hans, þegar hann gat farið keyrandi, að hann ekki flytti bæði menn og nauðsynjar þeirra, þá fyrstu árin; aldrei voru vegir svo torfærir, að hann ekki sinnti nauðsyn manna og hlesti á, eins lengi og hann áleit að hestarnir gætu dregið, og optast án endurgjalds, því honum kom ekki til hugar að fá borgun fyrir alla þá hjálp; honum var vissulega ánægja í því, að geta leyst nauðsyn sveitunga sinna. Hann vissi ástæður manna á þeim árum. Vel má vera að nokkrir hafi umbunað honum að einhverju leyti, en þeir voru þá allt of fáir, sem gátu það, þó þeir gjarnan hefðu viljað. Þá var Tindastóll í þjóðbraut, og mun enn nokkrum af oss í fersku minni, hve mönnum þótti vænt um, sem komu úr ferðalagi misjafnlega á sig komnir — nær skammt var eptir að Tindastól, því eins og Stephan skáld segir í Minningarljóðum "Landnámskonan" — "varð bær hennar Margrétar ferðamanns skjól, og viðnám gegn veglúa meini." Af því, sem nú hefir verið sagt, má ráða, að eigi væri um skör fram, þótt menn bæru hlýjan hug til Jóhanns Björnssonar á Tindastól. Þegar fólks-innflutningur jókst og byggðin færðist vestur og norður, varð pósthúsið á Tindastóll svo fjarri útjöðrum hennar, að all-erfitt þótti þeim sem fjarst bjuggu, að fá póst sinn. Búið var þá að mæla út bæjarstæði á Markerville og byrjað að byggja þar sölubúðir og fleiri hús. Ólafur Benidictsson var, sem segir í hans þætti, við verzlun ásamt Jóni bróður sínum. Árið 1903 mun Ólafur hafa sent undirritaða bænarskrá um að sett væri pósthús á Markerville; þó skal þetta ártal eigi fullyrt, en Ólafur fjekk pósthúsið og flutti Jóhann Björnsson enn póstinn; var hann fyrst fluttur upp til þeirra bræðra, en eigi lengi. því árið 1904 fluttu þeir til Markerville og hjeldu þar áfram verzlun. Þá hætti Jóhann að keyra póstinn. Ólafur Benidictsson hafði póstafgreiðslu á hendi til dauðadags og þótti hafa verið

hinn nýtasti maður í þeirri stöðu. Þá varð póstafgreiðslumaður Grímur Einarsson, Jónssonar, verzlunarmaður á Markerville, og hefir haft þann starfa síðan. Um sama leyti, eða litlu síðar voru sett tvö pósthús í norðaustur-parti byggðarinnar, er nefnd voru Sólheima og Burnt Lake. Var Sigurður Jónsson póstafgreiðslumaður að Sólheima, meðan það var starfrækt; árið 1911 var það lagt niður og sameinað Burnt Lake pósthúsi. Fyrsti póstafgreiðslumaður að Burnt Lake mun hafa verið Jón Vernharðsson, en nú er það Erlendur Sigurðsson Grímssonar. Seinna voru sett pósthús kringum Íslendingabyggðina, Evarts pósthús, 10 mílur norðvestur af Markerville, og Dickson pósthús 9 mílur vestur, en þau eru að litlu notuð af Íslendingum.

*(Ritað í Marzmánuði 1912.)*

## 2.—*SKÓLAMÁL.*

Brátt varð alþýðuskólaleysið nýbyggjunum tilfinnanlegt. Sáu þeir glöggt, að svobúið mátti eigi standa, en hinsvegar var flest því til hindrunar: óhægur fjárhagur, og landhafendur fáir og dreifðir. En þrátt fyrir það varð það að samkomulagi nokkurra manna, að koma upp skólahúsi; var Stephan skáld mest leiðandi maður þess máls. Skyldu menn leggja til alla vinnu af frjálsum vilja, án endurgjalds. Veturinn 1892 var felldur skógur til skólahússgjörðar og dreginn að Medicine-ánni að vetrinum, en flotið eptir henni á næsta vori ofan móts við bústað Stephans G. Stephanssonar, því þar hafði verið ákveðið að byggja skólahúsið; var það byggt þá um sumarið og haustið. Það sem þurfti að kaupa, svo sem þak, gólf, glugga o. fl., var keypt með frjálsum samskotum. Sljettumenn styrktu fyrirtækið að nokkru, bæði með vinnu og fjárframlögum, móti því loforði, að þeim yrði liðsinnt undir sömu ástæðum. Um húsbygginguna sáu að mestu leyti þeir St. G. Stephansson og Th. Guðmundsson. Húsið var að stærð: lengd 26 fet, breidd 18 fet, og varð það fullgjört um haustið 1892, þrátt fyrir örðugleikana, en þá eins og optar, sigraði góður fjelagsskapur og samkomulag. Var þá kosin nefnd til að fá löggilt skólahjerað og sjá um framkvæmdir viðvíkjandi skólastofnun; í nefndina voru kosnir: St. G. Stephansson, Þórarinn Guðmundsson og Guðmundur Þorláksson. Skólahjeraðið var myndað, fimm mílur í hvert

horn; á því svæði munu þá hafa búið 14 skattbændur, sem líkur voru til, að greiddu skatt. Skólahjeraðið var svo nefnt "Hólaskóla-hjerað." Ekki varð hægt að byrja opinberan skóla um haustið 1892, og þótti mönnum það all-illt, að geta ekki þá strax notað húsið. Þá var hjer nyrðra í vist yfir veturinn Jón Guðmundarson (af honum er sagt í II. kafla, 21. þ. sögunnar). Það ráð var tekið, að semja við Jón að kenna um veturinn á Hólaskóla, þrjá mánuði, og fjórða mánuðinn bauð hann að kenna kauplaust, sem var þegið með þökkum. Sóttu þá skólann þann vetur um 30 börn, sum neðan af sljettu og víðar, og þó kennarinn væri ekki framgenginn af háum skóla — hafði aðeins gengið stuttan tíma á alþýðuskóla í Dakota, — þá samt tóku börnin miklum framförum, svo það er vafasamt, að nokkurn tíma á Hólaskóla hafi námið gengið betur. Hólaskólahús var lengi notað fyrir ýmsar samkomur í byggðinni, og víst er um það, að þar var mörg skemmtilegasta samkoman, sem haldin hefir verið; sannaðist þar, að "Húsbóndinn gjörir garðinn frægan"; Stephan skáld var þá lífið og sálin í skemmtisamkomunum á þeim árum, sem flestu öðru; á heimili hans átti hin sanna, frjálsmannlega gleði griðastað; engin hræsni eða tildur átti þar heima. Svo voru þá fleiri, sem juku skemmtun, er síðar drógu sig í hlje fyrir nýtízkunni. — Í skólastjórn Hóla eru nú Kristinn Kristinsson, Grímur S. Grímsson og Guðm. Þorláksson. — Hólaskólahús var byggt að nýju árið 1904 og þá sett við Medicine-á, niður frá bæ Stephans, yfir frá bæ Kristins Kristinssonar; á skólinn þar nú inngirtar tvær ekrur af landi. — Eigi löngu eptir að Hólaskólahús var fyrst byggt, byggðu Sljettumenn skólahús hjá Jóhanni Björnssyni á Tindastól, að stærð: lengd 20 fet, breidd 16 fet, nefnt "Tindastólsskóli." Voru þeir fyrstir í skólanefnd: Jóhann Björnsson, Sigfús Goodman og Gunnar Jóhannsson. Það skólahús var endurbyggt og fært norðaustur á section 29, en hefir sama nafn og áður. Nú sitja þar í skólastjórn: Pjetur Gíslason, Hróbjartur Einarsson og Sigtryggur Jóhannsson. — Síðar miklu voru byggð tvö skólahús í norðaustur parti byggðarinnar, við Pin Hill og Burnt Lake, sem að miklu leyti eru notuð af annarra þjóða mönnum. Enn þá seinna voru byggð vestan Medicine-árinnar, "Hecla" suðvestur af Markerville og "Happy Hill" suðvestur af Evarts; það síðarnefnda lítið notað af Íslendingum.

Þegar tímar liðu, þótti Markerville-búum og öðrum þar í grennd syðst í Hólaskóla-hjeraði, erfitt að nota Hólaskóla; fóru því að vinna í þá átt, að þessu yrði breytt. Varð það eptir þjark mikið og snúninga, að Hólaskóla-hjeraði var skift. Var þá myndað nýtt skólahjerað — "Markekrville-skóli",— en til þess var skorin sín sneiðin af skólahjeruðunum, sem næst lágu, mest af Hólahjeraði; olli þessi breyting fjárþröng og þungum sköttum um mörg ár. Skólahús var byggt á Markerville árið 1910. Í skólastjórn á Markerville sátu fyrst: Jón Benidictsson, Daníel Morkiberg og Jón Bjarnason. (Ritað í Nóv. 1911.)

*3.—OSTAGJÖRÐARFJELAG.*

Fyrstu landnámsárin höfðu bændur litlar búsafurðir að selja, til að mæta nauðsynjum heimila sinna, meðan ekki voru nautgripir að verzla með. Það, sem helzt var þá til viðskipta, voru egg og heimatilbúið smjör. Meðan framleiðslan á smjörinu var lítil, seldist það fyrir eitthvert verð. En þegar lengra leið og smjörmagnið jókst, seldist það ekki; varð bændum það þá að litlum sem engum notum. Þá var það, að til Innisfail var kominn maður, að nafni James Powell, sem fengizt hafði við smjör- og ostagjörð; var hann listfengur maður, og vel að sjer gjör um margt; hafði hann þá komið á fót ostagjörð í Innisfail. Hvort það var af eigin hvötum eða annara, þá kom J. Powell á ostagjörðar-fjelagi í ísl. nýlendunni; það var hlutafjelag. Hús var byggt til ostagjörðar árið 1894, tvær mílur norður frá Tindastóll. Þangað fluttu bændur mjólk sína. J. Powell sá um vinnuna og sölu á ostinum, en misjöfn urðu skil á andvirðinu, sem varð því tilfinnanlegra, sem bændur voru þá flestir í þröngum ástæðum; var Powell mjög grunaður um græzku; þótti ekki orðheldinn nje áreiðanlegur, átti enda við ramman reip að draga, eigin fátækt og tortryggni og hleypidóma ýmsra; var þá illur kurr í liði bænda, sem von var, er þeir sátu yfir skerðum hlut. Sá fjelagsskapur fjell algjörlega haustið 1896; misstu bændur þá nálega að öllu leyti hluti sína, auk þess sem þeir áður misstu af vöruverði. En þótt þetta fyrsta spor til að hafa meira upp úr búsafurðum, yrði bændum að litlu liði, þá samt var það stigið til meira; með því var sýnt, hvað þyrfti og

hvað mætti gjöra; leið heldur eigi langt um, að fleiri spor væru stigin með viðunanlegum árangri.

*4.—LESTRARFJELAG.*

Það fjelag var stofnað snemma og er elzta fjelag ný-



JÓNAS J. HUNFORD.

lendunnar. Sumarið 1891 var kallað til fundar á Tindastóli. Voru þeir hvatamenn þess Jóhann Björnsson og Jónas J. Húnford; munu þeir hafa bundizt í því að mynda lestrarfjelag í byggðinni. Á fundinum mættu 17 menn. Var þá rætt um fjelagsmyndun; voru nokkrir því móthverfir og gjörðu sitt ýtrasta til að eyða þeirri hugmynd; færðu það til ástæðu, að lestrarfélög spilltu fyrir bókaútgefendum og að þau þrifust sjaldan til lengdar, svo að þar ljetu menn pen-

inga sína fyrir lítið. Þá var gengið til atkvæða og málið fellt með 10 atkvæðum móti 7. Þeir, sem málinu voru hlynntir, undu þessum málslokum illa. Fengu þeir þá nokkra menn í lið með sjer, að bjarga málinu; skyldi samið frumvarp til laga fyrir lestrarfjelag, stofna svo til fundar og freista að fá undirskriptir. Frumvarpið var samið, að miklu leyti af J. Húnford; var svo boðað til fundar hjá E. B. Oddsson 7. Febr. 1892; var fundur sá fjölsóttur. Var þá málið um lestrarfjelag tekið fyrir að nýju og rætt. Frumvarpið var lagt fyrir fundinn og samþykkt með nokkrum breytingum. Var þá fjelagið stofnað og viðurkennt. Gengu þá 23 menn í fjelagið. Fjelagið var nefnt "Iðunn". Árstillag var 50 cts. Fyrstu embættismenn þess voru: forseti Jónas J. Húnford; bókavörður, Jóhann Björnsson, og fjehirðir Sezelía Bardal. 1893 var með lögum ákveðið, að skrifaraembætti væri bætt við. J. J. Húnford var forseti til 1897; þá varð forseti Þórarinn Guðmundsson, tvö ár; næst var Jón Benidictsson eitt ár. Árið 1900 var J. J. Húnford kosinn forseti í annað sinn og hefir verið það síðan, í 12 ár. Fjehirðar hafa verið: Sezelía Bardal til 1897; Helgi Jónasson til 1898; Guðmundur Þorláksson til 1908; J. Hillman 1909; Gísli Eiríksson 1910—12. Bókaverðir hafa verið: Jóhann Björnsson til 1904; G. E. Johnson til 1905; J. M. Johnson til 1907; A. J. Kristvinsson til 1909; Kr. Jóhannesson 1910; J. O. Johnson 1911. Skrifarar fjelagsins hafa verið: Guðmundur Þorláksson til 1897; Vigfús Halldórsson til 1900; Jón Benidictsson 1901; J. O. Johnson til 1903; Grímur S. Grímsson til 1907; J. A. Olson 1908; H. F. Kristvinsson til 1909; J. A. Olson 1910; W. S. Johnson 1911; A. J. Kristvinsson 1912. — Ekki hefir lestrarfjelagið stigið stórum stigum á framfaraveginum. Það gat heldur ekki verið, því opt voru fjelagsmenn fáir, rúmlega 20; flestir hafa fjelagar verið milli 40 og 50. Árstillögin voru lág, og þegar fram leið sáu menn, að ekki myndi auðið að láta fjelagið lifa og starfa með sömu inntektum; árlega voru þó haldnar skemmtisamkomur til stuðnings fjelaginu og heppnuðust vel. En kostnaður og útgjöld uxu; þegar bókasafnið óx, þá þótti ekki annað hlýða en vátryggja það, og tók það nokkra peninga; innkaup nýrra bóka námu að jafnaði, eftir árið 1900, \$20—\$25, og bókband og viðhald á eldri bókum \$12—\$20. — Árið 1908 var á almennum fundi samþykkt að hækka árstil-

lagið og skyldi hver fjelagsmaður greiða einn dal í fjelagssjóð. Eptir að kauptúnið Markerville hafði byggzt upp, áttu flestir byggðarmenn tíðar ferðir þangað; fyrstu árin hafði fjelagið bókastöðvar á Tindastól, og var þá fjelaginu skipt í deildir; en árið 1904 var á ársfundi 22. Okt. staðfest lagagrein, sem ákvað að framvegis skyldi bókasafnið vera á Markerville, og var þá deildaskiptingin numin úr gildi. Eptir því sem bókasafnið vóx og aðvinnsla á því varð umfangsmeiri, reyndist torsóttara að fá menn til að starfrækja það. Sumir voru þeir, er eigi höfðu húsrými svo, að þeir gætu haft bókasafnið inni. Varð það þá til ráðs tekið, að byggja hús yfir bókasafnið og sem jafnframt yrði notað til fundarhalds. En til að rýra ekki vöxt og starfsemi fjelagsins, þá var leitað frjálsra samskota og brugðust sveitarmenn drengilega við kvöð þeirri; lóð var keypt á Markerville handa fjelaginu og byggt á henni hús, að stærð 12x16 fet; er nú húsið og bókasafnið vátryggt fyrir tæpum 500 dölum. Verið er að undirbúa að löggilda fjelagið, ef ástæður leyfðu. Meðlimir fjelagsins eru nú 40. (Ritað í Apríl 1912.)

5.—*KVENFJELAG.*

Eigi löngu eptir að Íslendingar settust að í Calgary, myndaðist þar íslenzkt kvenfjelag; mun það hafa verið á árunum 1891—92; en sem ræður að líkum hjelzt það ekki við þar í bæ lengi. Smámsaman fluttu Íslendingar burt þaðan, svo árið 1895 voru litlar minjar eptir af kvenfjelaginu í þeim bæ. Konurnar, sem stofnuðu það, fluttu flestar norður um til íslenzku nýlendunnar norðan R. D., og settust þar að; það voru þær, ásamt fleirum, sem endurnýjuðu fjelagsskapinn er upp leystist í Calgary. Það var 6. dag Marzmánaðar árið 1896, að konur nokkrar áttu fund með sjer. Var þá kvenfjelag byggðarinnar stofnað, og nefnt "Vonin". Í stjórn fjelagsins voru þá kosnar: húsfreyja Sigurlaug, kona Kristins Kristinssonar, forseti; húsfreyja Hólmfríður, kona S.-Goodmans, skrifari; og húsfreyja Sezelía, kona B. J. Bardal, fjehirðir. Lög fjelagsins voru þá samin það ár og samþykkt. — Síðan hefir fjelagið verið til og starfað; aldrei hefir það fjölmennt verið, en hefir samt komið miklu góðu til leiðar. Hefir það varið sjer nær því eingöngu til líknarstarfa; að hjálpa nauðstöddum og bæta kjör þeirra. hefir verið þess

aðal-markmið; einnig hefir það mikið lagt fram í þarfir Alberta-safnaðar. Meðlimir fjelagsins eru nú kringum 20 að tölu. Í stjórn fjelagsins sitja nú: Kristín, kona Ásmundar Kristjánssonar, forseti; Margrjet, kona G. E. Jónssonar, fjehirðir, og Jónína, kona séra P. Hjálmssonar, skrifari.

(Ritað í Júní 1912.)

### 6.—*VERZLUN.*

Lengi var það fyrstu landnámsárin að enginn kaupstað-



JÓN BENEDIKTSON.

ur nje verzlun var í nýlendunni. Bændur ráku þá allan kaupskap austur við járnbraut í bæjunum Innisfail og Red Deer, þó miklu meira í hinum fyrrnefnda. Voru ferðir þær opt torsóttar og hættusamar; hjálpaði þá Jóhann Björnsson allt

sem hann gat í þeim ferðum, sem áður hefir verið á vikið. Vorið 1894 byrjaði Helgi Jónasson á verzlun á Tindastóll, en sem aðeins var í mjög smáum stýl; en vorið 1896 mun Jón Benidictsson Ólafssonar frá Eiðsstöðum hafa byrjað á smáverzlun heima hjá föður sínum, og satt mun það, að stofnfje hans þá var eigi meira en tíu dalir. Um það leyti, eða litlu fyrr, kvæntist Jón ungfrú Láru Sigurlínu, dóttur Jóns bónda Jónssonar Strong, og er sú ætt sögð hér að framan í III. kafla, 38. þætti. En þótt Jón hefði, sem sagt er, lítið í byrjun, þá margfaldaðist sú upphæð mjög fljótt í hans höndum, og mátti sjá glögg deili þess, að honum myndi verzlun vel farnast. Bar það einkum til þess, að hann var skarpgreindur maður, fljótur að hugsa og ótrauður að framkvæma og flestum liprari í verzlunarstörfum, og opt var honum jafnað til G. W. West í Innnisfail, eins hins liprasta og slyngasta verzlunarmanns, sem þekkst hefir hjer norður um í tíð Íslendinga. Bráðlega byggði Jón verzlunarhús á landi föður síns. Þá var ostagjörðarfjelagið leyst upp, sem fyrr segir. Jón hafði unnið þar við ostagjörð og lært hana af J. Powell. Keypti hann nú verkfæri og byrjaði að búa til ost í sambandi við verzlunina; fluttu bændur þangað mjólk sína, og varð þeim þetta að miklu liði. Hefði þó getað verið meir, hefði fjárhagurinn staðið á fastari fótum; kaupmaðurinn var þá og lengi eptir það fátækur, og gat ekki notað sjer góð innkaup á vöru sinni, en bændur enn ekki svo á veg komnir, að þeir þyldu að láta sína vöru bíða hagkvæmra tækifæra. Jón hjelt áfram verzlun og ostagjörð þangað til smjörgjörðarfjel. á Markerville var stofnað. Árið 1899 gjörðu þeir fjelag Jón og Ólafur bróðir hans, og hjeldu því áfram meðan Ólafur lifði. Hafði Ólafur efni nokkur, er hann lagði í samlagsverzlunina. Eptir að þeir fluttu til Markerville gjörðu þeir mikla verzlun með góðum hagnaði; voru þeir samhentir um allt í bezta lagi. Eptir að Ólafur sál. fjell frá, tók Jón í fjelag við sig Guðmund Stephansson, Stephanssonar skálds. Jón er nú orðinn vel efnaður, að sögn 14,000 dala eigandi. — Um sama leyti, eða litlu síðar en Jón byrjaði verzlun, færði Helgi Jónasson verzlun sína til Markerville, og rak hana þar þangað til smjörgerðarfjelagið var stofnað; ljet hann þá af verzlun, en seldi verzlunarhúsin og áhöld Grími Einarssyni Jónssonar. Byrjaði þá Grímur þar verzlun og hefir verzlað þar síðan. Hann

er maður seintekinn og stefnufastur og áreiðanlegur í viðskiptum. — Nálægt 1900 kom frá Bandaríkjum til Markerville efnaður bóndi, að nafni Robert Wilson; keypti hann ½ section af landi fast við bæinn til búnaðar ,en byggði sjer heimili í bænum og byrjaði á harðvöruverzlun, og hefir hana enn. — Síðan pósthúsið var sett við Burnt Lake, hefir verið þar verzlun; þá verzlun hefir nú haft um nokkur ár Erlendur Sigurðsson Grímsonar. Enn fremur byrjuðu að verzla í Markerville, árið 1910, bræður tveir, Jón og Vilhjálmur, synir Bjarna Jónssonar, landnámsmanns, en verzluðu aðeins eitt ár, og seldu þá eignir sínar. — Þá er skýrt frá því helzta um verzlun og verzlunarmenn í nýlendunni, til þess nú er komið árið 1912.

## *III.—ÞÆTTIR LANDNÁMSMANNA (framh.)*

### 54. ÞÁTTUR.

*JÓHANN SVENSSON.* — Hans faðir var Sveinn Þorsteinsson á Egilsstöðum í S.-Múlasýslu. Móðir Jóhanns hjet Sigurbjörg Bjarnardóttir. Jóhann átti bróður, er Oddur hjet, sem nú er bóndi í grennd við Mountain, Norður Dakota; systir Jóhanns er Elísabet, seinni kona Jóns Hillmans, bónda norður frá Mountain, N. D. Hver að voru fleiri systkini Jóhanns, verður hjer ekki sagt. Kona Jóhanns var Steinunn Jasonardóttir, Þórðarsonar á Sigríðarstöðum í Vesturhópi í Húnavatnssýslu. Móðir Steinunnar var Anna Jóhannesdóttir frá Vatnsenda í sömu sveit. Jóhann flutti frá Íslandi vestur um haf árið 1876, til Nýja Íslands og var þar fjögur ár. En þá Íslendingar tóku að flytja þaðan suður til N. Dakota, flutti Jóhann einnig þangað ásamt móður sinni og systkinum árið 1880; settist hann þá að í nánd við Pembina-bæ; eigi var Jóhann þar lengi, heldur færði bú þeirra upp í íslenzku byggðina; nam hann þá land skammt norðvestur frá Mountainbæ, og bjó þar lengi eptir það. Árið 1900 flutti Jóhann vestur til Alberta; var þá móðir hans dáin. Jóhann valdi sjer landnám og hafði bólstaðargjörð í grennd við Burnt Lake og keypti þar annað land; þriðja landið nam Jason tengdafaðir hans, og mun Jóhann nú eigandi þessara þriggja landa; er það mikil og góð landeign, því lönd þau eru frjóv. Þau hjón eiga tólf börn á lífi, þrjú eru dáin. Sum þeirra eru

þegar fulltíða. Jóhann er dugnaðar- og ráðdeildarmaður, og farnast allsstaðar vel, þó jafnvel hvað bezt þar sem hann er nú; fer það auðvitað að líkum, því bæði var, að hann kom með nokkur efni frá Dakota og hefir nú aukinn vinnukraft frá því áður var.

55. ÞÁTTUR.

*GUÐNI ÞORLÁKSSON.*—Foreldrar Guðna voru: Þorlákur Jónsson og Guðrún Guðnadóttir og var ætt þeirra í Húnavatnssýslu. Kona Guðna var Málmfríður dóttir Einars Arasonar og Guðrúnar Jónsdóttur, bæði ættuð úr Reykjavík. Guðni fór vestur um haf til Winnipeg 1888 og var þar í 4 ár. Þaðan flutti Guðni til N. Dakota 1892, nam þar land og var þar til árið 1900, að hann flutti vestur til Alberta-nýlendunnar. Guðni nam land vestanverðu Medicine-árinnar, fjórar mílur norðvestur af Markerville; þar mun Guðni hafa dvalið fimm eða sex ár. Eptir það seldi hann landið, og flutti suður til Calgary ásamt konu sinni og þremur börnum; þar hefir hann byggt sjer gott hús og líður vel.

56. ÞÁTTUR.

*PJETUR GÍSLASON.* — Pjetur er skagfirzkur að ætt, fæddur á Kjarvaldsstöðum í Hjaltadal í Skagafjarðarsýslu 1. dag Nóv. 1856. Foreldrar hans voru þau hjón: Gísli Eiríksson og Guðrún Þorsteinsdóttir frá Hofsstöðum í Viðvíkursveit. Bjuggu þau hjón lengi á Miklahóli í sömu sveit, en seinustu búskaparár sín á Kjarvaldsstöðum. Systkini Pjeturs voru ellefu; af þeim eru nú á lífi þrír bræður: Stefán og Páll, báðir heima á Íslandi; Jón hjet hinn þriðji, nú í Red Deer; um hann er ritað í III. kafla sögunnar, 31. þætti. Pjetur var ungur að aldri, er hann missti foreldra sína. Pjetur fór þá í fóstur til hjónanna Jóns Jónssonar, Bjarnasonar, og Guðríðar systur sinnar, er bjuggu þá að Tumabrekku í Óslandshlíð. Ólst Pjetur upp hjá þeim til fullorðinsára. Brugðu þau þá ráði sínu ljetu af búnaði og seldu eignir sínar; varð það ráð þeirra, að fara af landi brott, vestur um haf; voru mannflutningar þá orðnir all-miklir til Ameríku. Það var árið 1883, að ferð sú var ráðin. Ljetu þau

hjón þá flytjast yfir fjörðinn til Sauðárkróks; sóttu þangað margir víða um fjörðinn og vestan úr Húnaþingi, þeir er hugðu á utanferð, því þar skyldu þeir um borð fara í mannflutningsskipið. Hafði Pjetur þá verið um sinn í þjónustu hjá dönskum borgara á Sauðarkrók, og unað vel hag sínum. Eigi að síður hugði hann á vesturferð, ásamt systur sinni og mági; og þó að ýmsir lettu hann þeirrar farar, þá tjóaði það ekki. Hafís var þá víða með norður og austurströndum Íslands. Var hann hinn mesti vágestur og tálmaði skipum aðsiglingu við ákveðnar hafnir; urðu þau frá að leggja á ýmsum stöðum. Svo var um skip það, er leggja skyldi inn á Sauðarkrókshöfn, seinustu daga Júnímánaðar, að því gaf eigi til aðsiglingar fyrr en 4. Ágúst. Varð sú bið farþegum kostnaðarsöm og brugðu þá sumir þeirra ætlan sinni og settust aptur; þótti, sem var, eigi fýsilegt að koma vestur um haf undir haustnætur; bljesu líka vandamenn þeirra óspart að þeim kolum og löttu þá; á þeim árum var og geigur mikill í landsmönnum gegn þeim utanferðum. Hvarf Jón mágur Pjeturs þá til baka og fluttist austur yfir fjörðinn, og eigi löngu síðar andaðist kona Jóns. Eigi brá Pjetur ætlan sinni, en fór sem ætlað hafði; kom hann til Winnipeg 3. dag September 1883; í þeim flokki, sem þá fór, munu hafa verið 400 manns; urðu nokkrir eptir í Toronto, sem þrotnir voru að farareyri. Meðal þeirra voru þau hjón Björn Gestsson, ættaður úr Unadal og Ingibjörg Jónsdóttir Bjarnarsonar frá Tumabrekku í Óslandshlíð. Einhverra orsaka vegna varð mikið af fararefnum Pjeturs eptir í umsjá Björns, því þeir voru í góðum kunnleikum; styrkti Pjetur Björn til að komast þetta áleiðis, en aldrei síðan sá Pjetur Björn nje neitt af þeim eigum sínum; vænti Pjetur þess lengi, að Björn kæmi vestur um og færði sjer fjármuni sína, en það varð eigi. Pjetur dvaldi í Winnipeg hin næstu ár, og vann þá á ýmsum stöðum. Árið 1892 kvæntist Pjetur Björgu Jónsdóttur frá Ásunnarstaða Stekk í Breiðdal. Foreldrar Bjargar voru: Jón Gíslason, Gunnarssonar, ættaður úr Bárðardal í Þingeyjarsýslu, og Guðríður Jónsdóttir, ættuð úr Breiðdal í Suður-Múlasýslu. Björg átti ellefu systkini; af þeim eru á lífi sex; heima á Íslandi eru: Gunnar, Flóvent, Sigurður og Sigtryggur, en tveir bræður hennar eru hjer í Ameríku: Gísli bóndi í Saskatchewan, og Marteinn, suður í Minneapolis, Minn. Árið 1892

flutti Pjetur frá Winnipeg suður til N. Dakota og dvaldi um sinn í Cavalier-bæ; síðan nam hann land tólf mílur suður frá Pembina-bæ; var land það nytja-lítið og eigi hent til búnaðar; undu þau hjón þar eigi lengur en svo, að þau næðu lögeign á landinu. Seldu þau það fyrir litla peninga, 500 dali, ásamt lausafje. Flutti þá Pjetur norður til Canada og vestur um til Alberta-nýlendunnar árið 1900; nam hann þá land 1½ mílu norður frá Tindastóls-pósthúsi og reisti þar bú. Börn þeirra eru fimm drengir, er heita: Hallgrímur, Jón Edwin, Jónas Marínó, Jón Breiðdal, Herbert Martein. Pjetur hafði eigi miklum efnum til að dreifa, er hann byrjaði búskap í Alberta; en græðzt hefir honum fje síðan, svo vel er nú efnahag hans komið. Pjetur er skarpgreindur maður, djarfur og einarður; kappsmaður er hann og vægir lítt til, ef hann á sinn málstað að verja. Pjetur er nýtur fjelagsmaður og hefir unnið sjer góða tiltrú; má það vel sjá af því sem fleiru, að árið 1901 var hann kosinn skrifari og fjehirðir í skólastjórn Tindastóls-skóla, og hefir haft það starf með höndum síðan.

57. ÞÁTTUR.

*ÁSMUNDUR KRISTJÁNSSON.* — Ásmundur er Þingeyingur að ætterni. Kristján faðir hans var Ásmundsson frá Máná á Tjörnesi í Þingeyjarsýslu, en móðir Ásmundar var Guðrún Andrjesdóttir frá Hjeðinshöfða á Tjörnesi. Ásmundur átti fimm systkini; tvo bræður: Sigurð verzlunarmann á Húsavík, og Andrjes á Oddeyri í Eyjafirði; þrjár systur: Hólmfríði og Kristínu, báðar í Eyjafirði og Guðný Aðalbjörg, kona Kristjáns Jóhannessonar á Markerville, Alberta. Kona Ásmundar var Kristín Þorsteinsdóttir Snorrasonar á Brekkukoti í Þingeyjarsýslu. Móðir Kristínar hjet Sigurveig; hún var dóttir Jóhannesar á Laxamýri. Tvær alsystur átti Kristín; þær voru: Jóhanna, gipt Magnúsi Þórðarsyni vestur á Kyrrahafsströnd; önnur var Snjólaug, gipt Robert Dennison, nú í Sask. Móðir Kristínar var tvígipt; seinni maður hennar var Egill Halldórsson. Synir Egils og Sigurveigar, hálfbræður Kristínar, voru: Arnór, Konráð og Halldór Jóhannes. Eptir að Egill missti Sigurveigu fór hann vestur í Húnaþing. Seinni kona Egils varð Þorbjörg ekkja Sigurðar Sigurðarsonar á Reykjum í Reykjabraut,

systir Jóns Árnasonar á Víðimýri í Skagafirði. Egill bjó síðan lengi á Reykjum og andaðist þar. Egill var merkur maður og vel gefið um flest; hann var þjóðhagasmiður og ritaði fagra rithönd, sem bræður hans, Jóhann og Jóhannes, sem lengi var barnakennari á Akureyri í Eyjafirði. Arnór sonur hans var myndasmiður og þótti mjög bera af öðrum í þeirri iðn, og að öllu var hann vel gefinn maður, sem Egill faðir hans. Arnór dó ungur og varð harmdauði öllum sem þekktu hann. Hinir bræðurnir fóru vestur um haf; Konráð fór til Bandaríkjanna og dó þar, en Halldór Jóhannes er austur í Sask., Canada. Ásmundur og Kristín eiga fjögur börn á lífi: Sigrún, Vilhjálmur, Laufey Jóhanna og Arnór Edward. Ásmundur flutti frá Reykjum í Reykjahverfi í Þingeyjarsýslu, vestur um haf, til Winnipeg og settist þar að. Asmundur var timbursmiður; hafði lært og stundað þá iðn á Íslandi. Neytti hann nú þess eptir að hann kom til Winnipeg og tók að vinna að smíðum. Vann Ásmundur um mörg ár að húsabyggingum í Winnipeg, mest samnings-vinnu — Contract. Frá Winnipeg flutti Ásmundur til íslenzku byggðarinnar í Argyle, Man., og dvaldi þar þrjú ár. Frá Argyle flutti Ásmundur vestur til íslenzku byggðarinnar í Alberta árið 1900. Ásmundur nam þá land í tungunni vestur frá Kristni Kristinssyni, sama land og Jósef Hólm hafði áður byggt á. Ásmundur bjó þar um næstu ár. Vorið 1907 hætti hann búskap og seldi þá lönd og lausafje; fór hann þá norður til Edmonton og var þar um sinn. Þaðan fór Ásmundur vestur á Kyrrahafsströnd, en leizt þar ekki vel og hvarf austur um aptur til Alberta sama árið. Settist hann þá að í Markerville og byggði þar kjötsölubúð, um haustið 1907; keypti hann þá bæjarland og byggði á því og hefir búið þar síðan. Vorið 1908 tókst hann á hendur að flytja póstinn milli Innisfail og Markerville, og hafði þá sýslan hin næstu ár. Eptir það keypti Ásmundur búland skammt austur frá Markerville. Mikið hefir Ásmundur starfað af húsabyggingum síðan hann kom til Alberta og hefir jafnan þótt leysa það vel af hendi. Ásmundur hefir tekið mikinn þátt í safnaðarmálum Alberta-safnaðar nú seinni árin. Hann er dugnaðar- og framkvæmdamaður, en vanheilsa hans og fjölskyldunnar hefir að sjálfsögðu stórum hnekkt hag hans; hefði ei svo verið, myndi hann vera orðinn sterkefnaður; mun þó ó-

hætt að staðhæfa, að efnahagur hans sje í góðu lagi, og hann sje velmegandi maður.

58. ÞÁTTUR.

*GUÐNI TÓMASSON.* — Guðni var albróðir Ástríðar Tómasdóttur konu Ófeigs landnámsmanns Sigurðssonar (sjá II. kafla, 22. þátt, og er þar sögð ætt Guðna. Guðni mun eigi hafa kvongast, en bjó með ráðskonu allan sinn búskap, sem mun hafa staðið nær 40 árum. Guðni var búhöldur hinn mesti, og auðugur að fje, einkum á Íslandi. Bústýra hans hjet Sigríður og var Bjarnadóttir frá Felli í Biskupstungum. Guðni og Sigríður áttu tvö börn saman er lifa: Þórður heitir sonur þeirra og Sigurlína dóttir, sem gipt er enskum manni í Revelstoke, B.C. Guðni kom frá Austurey í Laugardal í Árnessýslu árið 1901; hjelt hann viðstöðulaust vestur til ísl. nýlendunnar í Alberta og nam þar land norðaustur frá Markerville og bjó þar til dauðadags. — Sama árið (1901) kom frá Íslandi sá maður er Ófeigur var nefndur Guðbrandsson, frá Kilhrauni á Skeiðum í Árnessýslu; hjelt hann vestur til Alberta og nam land í hlíðinni niður frá Guðmundi Sigurðssyni. Kona Ófeigs þess hjet Jónína og var systir Ófeigs Sigurðssonar, hin vænsta kona. Þau áttu fjögur börn. Eptir að til Alberta kom varð fátt í sambúð þeirra hjóna og skildu þau að borði og sæng. Ófeigur bjó á landi sínu fá ár, en varð þá vanheill; var hann þá fluttur austur til Winnipeg og dó þar skömmu síðar. Eptir hann dauðan giptist Jónína manni þeim er Jón hjet Vernharðsson, og búa þau nú vestur við Kyrrahaf.

59. ÞÁTTUR.

*JÓHANN BJARNASON.* — Ætt Jóhanns er öll austur í Biskupstungum í Árnessýslu. Faðir hans var Bjarni Jónsson Árnasonar, en móðir Jóhanns var Ingveldur Guðmundardóttir Helgasonar. Systkini Jóhanns voru heima á Íslandi: í Árnessýslu fjögur: Guðmundur. Jónína, Katrín og Helga; í Gullbringusýslu þrjú: Ingvar, Guðrún og Margrjet. Jóhann er fæddur 20. Des. 1868. Kona Jóhanns var Vilborg Aronsdóttir, Guðmundssonar Jónssonar, Jónssonar "söngs", er var á Ásgautsstöðum og Íragerði. Kona Arons og móðir Vilborgar var Eyvalalía Hannesdóttir, Runólfssonar, Run-

ólfssonar, Þorsteinssonar bónda í Bitru. Systkini Vilborgar: Guðmundur timbursmiður í Reykjavík, Hannes í Arnarfirði við Ísafjörð, Guðlög og Elín austur á Eyrarbakka, Málmfríður í Árnessýslu, Guðlög í Portland, Oregon og Eyvlalía í Washingtonríki, U. S. A. Vilborg er fædd 2. Júní 1873. Börn áttu þau hjón eigi allfá; tvö þeirra fæddust upp á Íslandi, í Gullbringusýslu. Jóhann fór vestur um haf frá Laugarósi í Biskupstungum árið 1900, beint til Alberta Can. Settist hann að 3 mílur suður frá Markerville og nam þar land. Jóhanni hefir græðzt fje hjer, og sjer á honum hagsæld og vaxandi framför í hvívetna. Var þó bújörð hans örðug til yrkingar, en Jóhann hefir brotið erfiðleikana undir sig með ráðdeild og dugnaði.

## 60. ÞÁTTUR.

*SIGURÐUR BENIDICTSSON.* — Sigurður er ættaður úr Húnavatnssýslu. Benidict faðir hans var Bjarnason; var sá Bjarni sonur Bjarna prests á Mælifelli í Skagafirði, Jónssonar, Gíslasonar frá Álptavatni í Staðarsveit. Móðir Sigurðar var Margrjet Guðmundardóttir Sigurðarsonar frá Aðalbóli í Miðfirði; foreldrar Sigurðar bjuggu á Aðalbóli og þar var Sigurður fæddur 20. Nóv. 1857. Þrjár systur Sigurðar eru á lífi: Ingibjörg, ekkja eptir Guðmund Bjarnason í Nýja Íslandi; Helga, gipt Ólafi Sigmundarsyni í West Selkirk; Margrjet, kona Sigvalda Símonarsonar í Nýja Íslandi. —Kona Sigurðar er Vilborg, dóttir Gamalíels Oddssonar frá Indriðastöðum í Skorradal, Borgarfjarðarsýslu. Móðir Vilborgar hjet Þuríður Jörundsdóttir frá Hæringsdal í Kjós, í Gullbringusýslu. Tveir bræður Vilborgar eru á lífi: Guðmundur bókbindari og bóksali í Reykjavík og Guðjón múrsmiður í Reykjavík. Sigurður fór frá Reykjavík vestur um haf árið 1902, vestur til Alberta, og nam land 4 mílur suður frá Markerville, í tungunni milli ánna, og hefir búið þar síðan.

## 61. ÞÁTTUR.

*HRÓBJARTUR EINARSSON.* — Hans föðurætt mun hafa verið á Langanesi í Þingeyjarsýslu; en í móðurætt mun hann kominn af ætt Reykdæla. Hann var bróðir Jóhönnu Einarsdóttur, konu Vigfúsar Halldórssonar; er sagt frá ætt

þeirra í II. kafla sögu þessarar, 17. þætti. Hróbjartur fjekk konu þeirrar er Helga hjet; var hún dóttir Helga Sigfússonar á Hrollaugsstöðum á Langanesi og Aðalbjargar Einarsdóttur á Fagranesi á Langanesi. Af systkinum Helgu eru á lífi þrír bræður: Hróbjartur, nú í Nýja Íslandi, Man., og tveir heima á Íslandi: Einar á Seyðisfirði og Þorvarður í Stykkishólmi. Hróbjartur kom frá Íslandi árið 1883; fór hann þá fyrst til N.-Dakota og dvaldi þar hin næstu misseri. Þaðan flutti hann vestur til Alberta árið 1889; settist hann þá að í Calgary og bjó þar hin næstu 12 ár. Í Calgary kvæntist Hróbjartur, líklega árið 1890. Norður í nýlenduna flutti hann árið 1902; nam hann þá land norðaustur frá Tindastól, og hefir búið þar síðan.

62. ÞÁTTUR.

*GUÐMUNDUR SIGURÐSSON.*—Guðmundur var ættaður undan Eyjafjöllum á Íslandi. Faðir hans var Sigurður bóndi Bjarnason í Gíslakoti; en móðir Guðmundar var Jórunn Árnadóttir, Ögmundarsonar undan Eyjafjöllum. Systkini átti Guðmundur fimm, bróður, sem Sigurður hjet, og fjórar systur, sem öll eru heima á Íslandi. Guðmundur átti fyrir konu Guðrúnu dóttur Árna Bjarnasonar frá Syðri-Görðum í Flóa í Árnessýslu; móðir hennar var Guðrún Pjetursdóttir frá Geldingaholti í Árnesi. Um systkini Guðrúnar verður ekki hjer sagt; þó mun það rjett, að hún ætti bróður, sem Jón hjet, smiður að handiðn; var hann um eitt skeið í Calgary og stundaði þar smíðavinnu. Hann flutti og norður í Alberta-nýlenduna og dvaldi þar um hríð; flutti svo þaðan aptur suður til Calgary og þaðan vestur um fjöll, og mun nú vera vestur á Kyrrahafsströnd. Hans kona var Björg, dóttir Bjarna á Daðastöðum á Reykjaströnd í Skagafirði, systir sjera Þorkels á Reynivöllum í Kjós. Þau hjón, Guðmundur og Guðrún, áttu eina dóttur barna, Lilju að nafni. Guðmundur fór vestur um haf frá Reykjavík árið 1900 og settist fyrst að í Argyle-byggð, Man., en dvaldi þar skamma stund. Fór hann ári síðar vestur um land til íslenzku byggðarinnar í Alberta; nam hann þar land, sjö mílur norður af Markerville og hefir búið þar síðan. Guðmundur var fjelítill, er hann reisti bú, en hann var starfsmaður og búhöldur góður,

svo honum græddist brátt fje; varð hann á skömmum tíma vel sjálfstæður maður.

63. ÞÁTTUR.

*KRISTJÁN SIGURÐSSON.* — Kristján er sonur Sigurðar Bjarnasonar, sem bjó í Fellsseli í Köldukinn í Þingeyjarsýslu. Móðir Kristjárns var Sigurbjörg Sigurðardóttir Jóhannessonar frá Skuggabjörgum í Þingeyjarsýslu. Systkini Kristjáns voru þrjú: Jóhannes Sigurðsson bóndi í Argyle, Man., og tvær systur heima á Íslandi. Kristján átti fyrir konu Jóhönnu, dóttur Bjarnar Loptssonar frá Pálsgerði í Dalsmynni í Þingeyjarsýslu. Móðir Jóhönnu var Guðrún Guðmundsdóttir, Egilssonar frá Ýtri Vík í Laufás-sókn í Þingeyjarsýslu. Systkini Jóhönnu voru: tvær systur, önnur nú dáin; hin er Guðbjörg, ekkja eptir Jóhannes Guðmundarson á Oddeyri við Eyjafjörð. Börn Kristjáns og Jóhönnu voru: Sigrún, Sigurbjörg, Sigurður, Jóhannes — er með Jóhannesi föðurbróður sínum í Argyle—, Björn Alfons, Páll Franklin og Kristján. Þessi sjö börn þeirra eru öll lifandi. Kristján fór af Íslandi vestur um haf árið 1882, frá Grund í Höfðahverfi í Þingeyjarsýslu; fyrst til Winnipeg og dvaldi þar um sinn, en flutti þaðan vestur um til Argyle nýlendunnar árið 1883; var hann þá um næstu fjögur ár með Jóhannesi bróður sínum, sem kominn var nokkru fyrr vestur en Kristján. Eptir það keypti Kristján land og reisti bú á því. Þar bjó hann þangað til 1901, að hann hvarf vestur um til Alberta-nýlendunnar; nam hann þá land sex mílur norður af Markerville og bjó þar síðan. — Kristján kom með fje nokkurt til Alberta, en hafði þá þunga fjölskyldu um að sjá; eigi að síður má því orði á koma, að efni hans hafi stórum aukizt og hagur hans hafi batnað, enda hefir Kristján verið þols- og dugnaðarmaður, og eigi hlífzt við meðan heilsa og kraptar leyfðu.

64. ÞÁTTUR.

*JÓN ANDRJES OLSON.* — Jón er fæddur í Reykjavík 22. Maí 1878. Faðir hans var danskur, frá Kaupmannahöfn, Wolf Olsen að nafni; var hann um sinn umsjónarmaður í brauðgerðarhúsi í Reykjavík. Móðir Jóns hjet Guðrún Jónsdóttir, Jónssonar frá Hömrum í Haukadal í Dalasýslu.

Móðir Guðrúnar hjet Ingibjörg Jónsdóttir, Jónssonar á Smyrlabergi á Ásum í Húnaþingi, og konu hans Marsibilar Samsonardóttur, er bjuggu á Svínavatni síðustu ár æfi sinnar; þau áttu 19 eða 20 börn, er flest náðu fullorðinsaldri. Ætt sú var kölluð Samsonarætt og var all-fjölmenn. Frá Reykjavík flutti Guðrún með son sinn vestur í Dalasýslu, inn í Miðdali, árið 1879. Þar giptist hún manni þeim er Torfi hjet, Sveinsson, ættaður þar úr sveitinni. Þeirra börn voru: Mattheus, Kristmann og Ingibjörg, hálfsystkini Jóns A. Olson. Eru bræðurnir með móður sinni í Glenboro, Man., en systirin er gipt enskum manni, McNaughton að nafni, í Edmonton, Alta. Til Ameríku fluttist Jón með móður sinni árið 1887, til Argyle, Man., og var þar þangað til árið 1901, að hann flutti vestur til Alberta og nam land fimm mílur norður frá Markerville. Jón er hjer í fremstu röð meðal ungra manna, vel gefinn að flestu, smiður góður og verkhagur á allt er hann leggur hönd á. Hann kom fjelaus til Alberta, en hefir síðan græðzt fje svo efnum hans er nú vel komið.

65. ÞÁTTUR.

*GUÐMUNDUR BJÖRNSSON.*—Faðir Guðmundar var Björn Jónsson, bóndi í Hlíð við Kollafjörð í Strandasýslu. Móðir Guðmundar var Þórdís Guðmundardóttir Einarssonar, bróður Ásgeirs Einarssonar á Þingeyrum í Húnaþingi. Ætt Guðmundar Björnssonar er gjörr sögð í II. kafla sögunnar, 19. þætti. — Guðmundur kvæntist Helgu Gestsdóttur, Magnússonar frá Óspakseyri í Bitru, Strandasýslu. Móðir Helgu var Guðrún Gísladóttir, Magnússonar á Þambárvöllum í Bitru. Systkini Helgu voru 10; af þeim eru á lífi: ein systir, Guðlaug að nafni, kona Ásmundar Einarssonar á Mýrum við Hrútafjörð í Húnavatnssýslu. Guðmundur og Helga áttu fjögur börn, einn son og þrjár dætur. Guðmundur flutti frá Íslandi vestur um haf árið 1901; fór hann fyrst til N. Dakota og dvaldi þar eitt ár, en flutti síðan vestur til Albertanýlendunnar og nam land norður frá landnámi Guðmundar Þorlákssonar, tengdabróður síns, og bjó þar síðan. Guðmundur var fjelaus, er hann flutti til Alberta, en hvorttveggja var, að hann var dugandi maður og eigi síður hitt, að systkin hans voru hjer áður komin og orðin vel við efni, og hlúðu þau

að hag hans í byrjun; jukust honum brátt efni, og má því orði á ljúka, að honum hafi farnazt hjer vel.

66. ÞÁTTUR.

*JÓN JÓHANNESSON, NORDAL.* — Jón er fæddur árið 1841 á Óslandi í Óslandshlíð í Skagafjarðarsýslu; faðir Jóns var Jóhannes Jónsson, er bjó á Ártúnum á Höfðaströnd í Skagafjarðarsýslu. Móðir Jóns Nordal var Sigríður Steingrímsdóttir, Steingrímssonar frá Reykjum í Ólafsfirði í Eyjafjarðarsýslu. Jón kvæntist árið 1880, Ólöfu Benidictsdóttur, Benidictssonar frá Grund í Höfðahverfi í Þingeyjarsýslu. Ólöf var fædd árið 1849. Móðir Ólafar var Ingibjörg Gunnarsdóttir, Loptssonar er bjó á Grund. Systkini Ólafar eru: Kristbjörg, Gunnar, Benidict og Ingibjörg, öll á Íslandi; tvær systur eru í Manitoba, er heita: Sigríður, gipt kona og Guðrún. Tvær dætur eiga þau Jón og Ólöf á lífi, báðar fullorðnar. Jón fór af Íslandi árið 1883, frá Borgargerð,i í Þingeyjarsýslu, til Argyle, Man., og nam þar land ári síðar. Þar bjó Jón þangað til að hann flutti vestur til Alberta-nýlendunnar árið 1901; er svo sagt, að hann nam þar land öðru sinni suður frá Markerville, í Tungunni, eigi all-langt frá bústað Gísla Eiríkssonar, og bjó þar síðan. Jón er skýr maður og hefir lesið margt. Á aldursárum sínum hinum efri varð hann sjónlaus; var það raun fyrir hann, að geta ekki lesið, þegar hnignun og hár aldur bægðu honum frá vinnu, og heyrði jeg hann segja, að síðan fynd st sjer hver dagurinn sem heilt ár.

67. ÞÁTTUR.

*GRÍMUR STEINGRÍMSSON.* — Grímur er kominn af borgfirzkum ættum. Hann er fæddur 9. Júní 1863, á Grímsstöðum í Reykholtsdal í Borgarfjarðarsýslu. Faðir hans var Steingrímur Grímsson, Steinólfssonar, Jónssonar, frá Hvanneyri, en móðir Steingríms var Guðrún Þórðardóttir, prests að Lundi í Borgarfjarađarsýslu, Jónssonar frá Möðruvöllum í Kjós, Jónssonar prests frá Einholti í Hornafirði. Móðir Gríms var Guðrún Jónsdóttir, Kistjánssonar frá Kjalvararstöðum í Reykholtsdal, og konu hans, Kristínar Einarsdóttur, frá Kalmannstungu, Þórólfssonar, og konu hans Helgu Snæbjarnardóttur prests frá Grímstungum í Húnavatnssýslu, Halldórssonar biskups á Hólum, í Hjaltadal, Brynjólfssonar lögréttumanns á Ingjaldshóli. Systkini átti Grímur mörg; fimm þeirra dóu í æsku, en sjö náðu fullorðinsaldri. Einn bræðra hans var Jón prestur Steingrímsson í Gaulverjabæ, hinn mesti gáfu- og lærdómsmaður; hann dó 29 ára gamall, 20. Maí 1891; á lífi eru hjer vestra: Snæbjörn, bóndi við Milton, N. D.; Guðmundur, lögmaður og ritstjóri í Munich, N. D.; Kristín (ekkja Stefáns Guðmundssonar úr Breiðdal í Suður-Múlasýslu), Milton, N. D.; Guðrún, gipt G. E. Guðmundssyni við Bertdale, Sask.; Steinunn G., gipt Friðrik Reinholt, við Fairdale, N.D.; Karítas, ekkja eptir F. J. Kelly, við Edmore, N. D. Þau foreldrar



Gríms bjuggu fyrst á Grímsstöðum þangað til árið 1867, að þau fluttu að Kópa-Reykjum í sömu sveit; þar bjuggu þau þangað til árið 1882, að þau fluttu vestur um haf. Grímur ólst upp með foreldrum sínum og flutti með þeim af Íslandi; fluttist Steingrímur til Dakota, vestur á Pembina-fjöll, og nam þar land. Grímur nam síðar land í Ramsey héraði í N. D. Árið 1903 fluttist hann til Alberta og nam land í íslenzku nýlendunni austan Medicine-árinnar, fimm mílur norður frá Markerville. Grímur fjekk konu þeirrar, er Ísabella hjet; faðir hennar var skozkur að ætt, James Gow að nafni, en móðir hennar hjet Guðlaug Ásgrímsdóttir, ættuð austan úr Skaptafellssýslu. Kvæntist Grímr henni árið 1902. Ísabella hafði áðr verið gipt manni þeim er Jón hjet, úr Reykjavík; kom hún þaðan ásamt tveim börnum þeirra, Einari og Kristínu Apollínu. Grímur bjó á landi sínu þangað til árið 1912, að hann brá búi og seldi lausafje sitt og flutti til Red Deer. Grímur er vel viti borinn maður, hefir ljósar og fjölhæfar gáfur, hefir lesið mikið og er gæddur ágætu minni; hann er skemmtimaður og snyrtimenni í allri framkomu sinni; vel sjálfmenntaður og hefir náð festu í ýmsu því, sem nauðsynlegt er í borgaralegu fjelagi; hefir hann og haft með höndum ýms opinber störf og jafnan þótt leysa þau vel af hendi. Þótti, sem var, hinn mesti sneiðir að Grími, er hann flutti burtu úr ísl. byggðinni.

*ÁGÚST ÁSMUNDSSON*—Benidictssonar frá Haga í Gnúpverjahreppi í Árnessýslu; Ágúst var í skyldleikum við Benidict Jónsson Bardal, voru þeir að öðrum og þriðja í frændsemi.. Systkini Ágústs, sem á lífi eru: Halldór, búsettur í Red Deer; Ásgeir og Vigfús; ein systir: Ingibjörg að nafni, kona Bjarnar Guðmundarsonar á Skeiðum í Árnessýslu. Kona Ágústs var Sigurlaug Anna Jónsdóttir frá Ívarshúsum í Garði í Gullbringusýslu. Móðir Sigurlaugar var Anna Sveinsdóttir frá Bakkakoti í Leiru í Gullbringusýslu. Systkini Sigurlaugar voru fimm, heima á Suðurlandi: Guðný, kona Guðmundar Jónssonar á Baugsstöðum íFlóa; Magnús, Jón, Margrjet og Guðrún, og einn hálfbróðir, Ólafur að nafni. nú í Edmonton. Þau Ágúst og Sigurlaug fóru vestur um haf frá Litlu Breiðuvík í Reyðarfirði í Suður-Múlasýslu árið

1900. Fóru þau fyrst til Argyle nýlendunnar og voru þar hin næstu misseri. Þaðan fluttu þau vestur til Oktoks í Alberta og giptust þar; en til íslenzku nýlendunnar fóru þau árið 1905, en landnám hafði Ágúst byrjað ári fyrr suðvestur frá Evarts pósthúsi vestanverðu Medicine árinnar. Þar byggði Ágúst og bjó þar um hríð og varð eigandi landsins. Árið 1907 flutti Ágúst til Red Deeer, keypti þar bæjarland og hefir búið þar síðan.

69. ÞÁTTUR.

*ÞORSTEINN JÓNATHANSSON.*—Þorsteinn er Húnvetningur að ætterni; faðir hans var Jónathan, er lengi bjó á Marðarnúpi í Vatnsdal í Húnaþingi. Faðir Jónathans var Davíð, er bjó í Hvarfi í Víðidal, Davíðssonar, Guðmundarsonar á Spákonufelli á Skagaströnd. Móðir Jónathans á Marðarnúpi hjet Ragnheiður; hennar faðir var Friðrik prestur Thóarensen á Breiðabólsstað í Vesturhópi, föðurbróðir Bjarna amtmanns Thórarensens, en móðir Ragnheiðar, kona Friðriks prests, var Hólmfríður dóttir Páls lögmanns og Þorbjargar Bjarnadóttur Halldórssonar frá Þingeyrum í Húnavatnssýslu. Móðir Þorsteins var Sigurrós Hjálmarsdóttir frá Sigríðarstöðum í Vesturhópi; bjuggu foreldrar Þorsteins lengi á Marðarnúpi, og þar dó Jónatan 1873. Systkyni Þorsteins voru: Steingrímur, bóndi á Njálsstöðum á



Skagaströnd í Húnavatnssýslu; Davíð, vinnumaður á Geitis-Skarði í Langadal; Ingibjörg, gipt kona í Spanish Fork, Utah; Ragnheiður, í Winnipeg; Þorlákur, trjesmiður í Reykjavík; Valgerður, gipt kona í Svarfaðardal í Eyjafjarðarsýslu. Þorsteinn var yngstur þeirra systkina. Enn átti Þorsteinn einn hálfbróður, sem Jónathan hjet Ólafsson, nú í Edmonton. Kona Þorsteins er Katrín Þorsteinsdóttir, Þorsteinssonar í Reykjavík, en móðir hennar var Guðlaug Ásgrímsdóttir úr Skaptártungum. Systkini hennar voru: Ísabella, kona Gríms Steingrímssonar bónda við Markerville, Alta., og Halldór, er um einn tíma var sjómaður í Hull á Englandi. Þorsteinn er fæddur að Marðarnúpi, 17. dag Janúarmánaðar árið 1871, og missti föður sinn nær tveggja ára; mun Þorsteinn þá hafa verið með móður sinni hin næstu ár; fóru þau mæðgin vestur um haf árið 1888. Dvaldi Þorsteinn þá um sinn í grennd við Winnipeg, en fór nokkru síðar suður til Bandaríkja og vestur til Montana; lærði Þorsteinn þar myndagerð, en var þar ekki lenlgi, og flutti aptur austur um til Winnipeg árið 1891, og vann þar hjá ýmsum við myndasmíð, en lengst af hjá Baldwin og J. A. Blöndal. Árið 1893 fór Þorsteinn austur til Toronto, og gekk þar á foringjaskóla 'Hjálpræðishersins", og varð síðar flokksforingi í Stratford og Fort William og víðar í Ontario til 1905; það ár var Þorsteinn sendur með erindi hersins, fyrst til Englands og síðar til Kaupmannahafnar; þaðan hjelt Þorsteinn til Íslands; var hann þá í för með dönskum manni, til að stofna deild af hernum í Reykjavík. Þorsteinn lagði stund á margt á þeim árum. Meðal annars annaðist hann um útgáfu á blaðinu "Herópið" þangað til árið 1899, að hann ljet af foringjastörfum. Það var Þorsteinn, sem kom á póstvagnaferðum frá Reykjavík, austur um land, og fjekk til þess vagn frá Ameríku. Um sama leyti mun Þorsteinn hafa verið ráðsmaður við gistihúsið Valhöll á Þingvöllum; fór hann þá víða um land, sem leiðsögumaður erlendra ferðamanna. Þorsteinn giptist Katrínu árið 1899 á Þingvöllum, en árið 1902 flutti hann alfarinn af Íslandi vestur um haf; ljetti hann eigi ferð sinni áður hann kæmi til Alberta-nýlendunnar. Þorsteinn nam þá land vestanverðu Medicine-árinnar, suður frá landnámi Magnúsar Steinssonar. Á því landi bjó hann þó ekki, heldur keypti járnbrautarland, sem lág að ánni, og setti

þar bú saman, en brúkaði svo bæði löndin til afnota; stundaði hann þá jafnframt myndagerð á Markerville. Árið 1909 brá Þorsteinn búi og seldi heimilisrjettarland sitt og lausafje. Flutti hann þá vestur um fjöll til Prince Rupert; þar settist hann að, og hefir búið þar síðan. Setti hann þá á stofn myndagerð í miðjum bænum, og hefir síðan stundað þá iðn; var það fyrsta myndastofan í þeim bæ, og er enn sú eina; einnig hefir hann fengizt nokkuð við fasteignasölu og farnazt hvorttveggja vel. Landinu, sem hann keypti hjer, vill hann ekki lóga; það er gott land og vel verðmætt, og ekki tekur hann af því að til beri, að hann hverfi þangað aptur. Þau hjón eiga nú fimm börn á lífi. Þorsteini er vel farið, hann er vel skynsamur maður og hefir náð fjölbreyttri þekkingu; hann er reglumaður hinn mesti, stefnufastur og áreiðanlegur til orða og athafna; opt hefir hann gegnt opinberum erindum og jafnan leyst þau vel af hendi. Stundum er, sem Þorsteinn fari nokkuð sjer í skoðunum sínum, og svipar honum eigi sjaldan til hinna gjörhögulu fyrri tíma manna; falla því skoðanir hans eigi ætíð við geðþekkni og yfirlæti nútíðarinnar. Allsstaðar mun Þorsteinn verða þekktur sem uppbyggilegur og nýtur maður.

70. ÞÁTTUR.

*JÓNATAN ÓLAFSSON.* — Í föðurætt er Jónatan kominn af hinni nafnkunnu Steinár-ætt. Faðir hans var Ólafur á Skottustöðum í Svartárdal, Húnavatnssýslu; faðir Ólafs var Árni Jónsson, Jónssonar á Steiná í Svartárdal; bjó Árni allan sinn búskap, milli 40 og 50 ár, á Skottustöðum og dó þar á áttræðisaldri. Um föðurætt Jónatans má að öðru leyti vísa til sögu þessarar, hjer að framan, II. k., 4. þætti. Móðir Jónatans var Sigurrós Hjálmarsdóttir frá Sigríðarstöðum í Vesturhópi (sjá næsta þátt hjer að framan). — Jónatan fór með móður sinni og Þorsteini hálfbróður sínum af Íslandi, ungur að aldri, og ólst upp hjá henni lengst af ungdómsárum sínum vestur í Montana, U.S.A. Til Alberta mun Jónatan hafa komið sama árið og Þorsteinn bróðir hans. Tók Jónatan þá land vestanverðu Medicine-árinnar, yfir frá bústað Guðmundar Þorlákssonar, og bjó þar nokkur ár. Kvæntist hann þá ungfrú Magneu Ólínu, dóttur Hermanns Hillmans (sjá III. k., 44. þátt). — Jónatan er vel gefinn maður um

margt; smiður nokkur og verkhagur á allt, sem hann leggur hönd á, en eigi mun honum hafa fallið búsumsýsla. Brá hann því á það ráð, að hætta búnaði; seldi lausafje og flutti norður til Edmonton, eptir sem næst verður farið árið 1907. Er svo sagt, að þar græðist honum fje og hagsæld með ári hverju. — Til að fyrirbyggja misskilning skal þess enn fremur getið, að eptir dauða manns síns, Jónatans á Marðarnúpi, rjeðist Sigurrós til Ólafs á Skottustöðum, sem einnig þá var búinn að missa konu sína, og var hjá honum nokkur ár bústýra; á þeim misserum er Jónatan fæddur. Sigurrós fór ásamt sonum sínum til Alberta og nam þar land. En þegar Þorsteinn flutti burtu, seldi hún landið og flutti þá suður til Spanish Fork, Utah.

71. ÞÁTTUR.

*KRISTJÁN JÓHANNESSON.* — Jóhannes sá bjó í Keldunesi í Kelduhverfi og síðar á Ytra-Álandi í Þistilfirði. Jóhannes var sonur Árna frá Staðarlóni í Axarfirði, seinast á Víðirhóli á Hólsfjöllum í Suður Þingeyjarsýslu. Móðir Kristjáns var Ingiríður Ásmundardóttir frá Máná á Tjörnesi. Systkini Kristjáns eru fimm lifandi: Guðni og Ásmundur, báðir í Winnipeg, og Guðmundur í Árdalsbyggð, Man. Guðbjörg, gipt Þorláki Björnssyni prests frá Höskuldsstöðum á Skagaströnd í Húnavatnssýslu; Kristín, gipt Þorsteini Sveinssyni á Gimli, Man. Þessi fimm eru hjer í landi. Heima á Íslandi lifa þrjú: sjera Árni Jóhannesson, prestur í Grenivík í Höfðahverfi í Þingeyjarsýslu; Valgerður, kona Jóns Sveinssonar á Hóli í Höfðahverfi, og Þorbjörg, kona Jóns Ingimundarsonar á Brekku í Núpasveit, Þingeyjarsýslu. —Kristján kvæntist Guðnýju Aðalbjörgu Kristjánsdóttur, systur Ásmundar Kristjánssonar (sjá hjer að framan, 57. þátt). Kristján var síðast á Gunnarsstöðum í Norður-Þingeyjarsýslu, og fór þaðan vestur um haf til Manitoba. Árið 1902 flutti hann til Alberta nýlendunnar og nam land vestur í Tungunni, ekki langt frá Ásmundi tengdabróður sínum, og var þar þangað til vorið 1907, að hann seldi eignir sínar og rjeðist til Edmonton. Í Edmonton var Kristján hin næstu misseri, en flutti aptur suður árið 1909; keypti hann þá timburhús við Markerville-bæ og hefir verið þar síðan; byrjaði þá á greiðasölu og hefir hana enn.

73. ÞÁTTUR.

*SIGURÐUR EINARSSON.* — Sigurður er að ætterni úr Múlasýslum. Faðir hans var sonur Sigurðar á Hesteyri í Suður-Múlasýslu, en móðir Sigurðar var Kristín Einarsdóttir, Hákonarsonar frá Austurdal í Norður-Múlasýslu. Alsystkini Sigurðar voru Eiríkur og Margrjet, bæði á Vestdalseyri við Seyðisfjörð. Hálf-systur átti Sigurður, er Sigurlaug hjet, gipt kona á Ánastöðum í Hjaltastaðaþinghá. Sigríður hjet kona Sigurðar, dóttir Kjartans Jónssonar á Sandbrekku í Hjaltastaðaþinghá; hennar móðir var Jórunn Sigurðardóttir, Jóakimssonar frá Brekkuseli í Hróarstungu í Norður-Múlasýslu. Albræður Sigríðar eru: Bergur, nú í Winnipeg, Man., og Vigfús á Seyðisfirði á Íslandi. Hálfbróðir Sigríðar var. Jón í Reykholti í Reykjadal í Þingeyjarsýslu. —Eigi varð þeim barna auðið Sigurði og Sigríði, en fóstурson áttu þau, er hjet Gsíli Arngrímur Eyvindarson. Sigurður flutti vestur um haf árið 1901 af Seyðisfirði. Fór hann fyrst til Winnipeg og dvaldi þar hin næstu misseri. Frá Winnipeg fór Sigurður árið 1903 vestur í íslenzku nýlenduna í Alberta. Var þá mjög numið land út frá gömlu landnámunum; gazt Sigurði eigi að landinu mjög fjarri aðalbyggðinni og leið svo um hríð. Þá var það að maður sá, er Pjetur er nefndur Nikulásson, skagfirzkur að ætt, sleppti landi því, er hann hafði fest sér. Nam Sigurður land það árið 1905 og bjó þar síðan; fimm árum síðar keypti hann land, er lá fast upp að hans landi, og gaf fyrir það 1,500 dali.

73. ÞÁTTUR.

*HALLDÓR ÁSMUNDARSON.* — Halldór var albróðir Ágústs Ásmundarsonar, og sjest ætt hans í þættinum næsta hjer að framan. Halldór átti fyrir konu Kristínu Þorvaldsdóttur, Jónssonar prests Eiríkssonar að Stóra Núpi í Árnessýslu. Er svo sagt, að Eiríkur væri bróðir Benidicts Sveinssónar eldra alþingismanns. Móðir Kristínar var Guðrún Gísladóttir, Jónssonar frá Ásum í Árnessýslu. Systkini Þorbjargar voru: Jón er land tók vestur frá Markerville, en fimm eru á Íslandi.—Halldór fór vestur um haf frá Mýri í Bárðardal í Þingeyjarsýslu árið 1901; hjelt hann fyrst til N.-Dakota; en ári síðar, 1902, vestur til Alberta nýlendunnar.

Árið 1904 kvæntist hann Kristínu og nam land það sama ár, suðvestur frá Evarts pósthúsi í nánd við Ágúst bróður sinn. Nokkru síðar skipti hann á landinu og bæjarjörðum í Red Deer; flutti hann þá þangað og hefir búið þar síðan.

## LEIÐRJETTING.

við II. kafla, 13. þáttar. Halldór biskup Brynjólfsson á Hólum í Hjaltadal var faðir Björns Thorlacíusar, er var kaupmaður á Húsavík; hans dóttir var Anna Caren; hún var gipt Nikulási Buck, dönskum að ætt. Þeirra dóttir var Dorothea, er átti Halldór fyrir mann. Þeirra börn voru þau Halldór faðir Vigfúsar Halldórssonar (sjá II. k., 18. þátt) og Elín, móðir Carolínu Dalman. Önnur dóttir Björns Thorlacíusar var Þóra, fyrsta kona Björns prófasts Halldórssonar í Garði; þeirra son Halldór prófastur á Sauðanesi; hans son Björn prófastur í Laufási, faðir Þórhallar biskups yfir Íslandi. Einn af sonum Halldórs biskups var Brynjólfur gullsmiður á Þrastastöðum; hans dóttir var Þóra, er varð seinni kona Pjeturs prófasts Pjeturssonar á Víðivöllum í Skagafirði, en móðir Dr. Pjeturs biskups Pjeturssonar. Ekki er það rjett, að Halldór biskup ætti annan son er Björn hjet, en Snæbjörn prestur í Grímstungum í Húnaþingi, var sonur Halldórs biskups. — Síðastur biskup á Hólum var Sigurður Stefánsson, en ekki Halldór Brynjólfsson, eins og segir í 13. þætti

**Ath.s emd við II. k., 14. þátt:** — Það er kveðið svo að orði, að Stephan G. Stephansson tæki land þrjár mílur upp frá Markerville, og bjó þar síðan. Þetta er ekki. allskostar rjett. Móðir Stephans, Guðbjörg Hannesdóttir, nam þetta land og eignaðist það, en Stephan nam land þrem mílum norðar undir Fellshlíðinni, en bjó þar að eins hinn lögákveðna tíma; en aðal bústaður hans hefir verið og er enn á eignarjörð móður hans; hefir hann unnið á henni að öllum umbótum: húsagerð, girðingum og akurrækt. — **II. k., 18. þátt:** Vigfús Halldórsson átti systur er Sigríður hjet; var hún gipt manni þeim er Björn hjet Jónsson í Calgary.

Þrátt fyrir það að jeg hafði ásett mjer að með þessum IV. kafla skyldi söguágripinu lokið, gat það þó eigi orðið. Fyrst var það, að enn vantaði mig nauðsynlegar skýrslur og heimildir, og í öðru lagi hefði kaflinn tekið upp of mikið rúm fyrir útgefandanum, hefði hann orðið miklum mun lengri. Fáeinir hinna eldri landnámsmanna eru enn ótaldir; svo vantar nauðsynlegar leiðrrjettingar við III. kafla. Þetta og söguendinn mun koma í Almanakinu 1914.

# Leiðréttingar

## við þátt Grunnavatnsmanna í almanakínu 1912.

---

### Við grein um Kristján Sigurðsson.

Móðir Kristjáns var ættuð frá Ketilsstöðum í Hörðadal í Dalasýslu, en ekki frá Tjaldbrekku. Það er ekki rétt, að þau hjónin hafi mist 6 börn á þrem árum, þau mistu 6 börn á þeim 19 árm sem þau bjöggu í Selárdal. Fallið hefir úr greininni sem ætlast var til að væri þar þessi kafli:

,,Í marzmánuði 1889 fóru þeir Kristján og Daníel Bachman tengdasonur hans norður í austari part Álftavatnsnýlendu, að skoða þar land. Og varð það úr að þeir bygðu þar loggahús í þeirri ferð. Voru að því viku og dvöldu á meðan hjá Jakob Crowford og konu hans, eru þau hjón alþekt að góðvild og gestrisnu. Í Maímánuði sama vor flutti Kristján ásamt konu sinni og tveim dætrum þeirra Kristjönu Margréti og Hólmfríði Salóme konu Daníels og dreng sem þau hjón áttu, sem nú stundar nám á Westley College, faðir hans fór þá í járnbrautarvinnu. Kristján Sigurðsson dvaldi með fjölskylduna hjá áður nefndum hjónum nokkra daga meðan hann var að fullgjöra hús sitt. Það sumar var gott um heyföng. Næsta vor (1890) var votviðrasamt og útlit fyrir að landnám þar væri ekki heppilega valið, fóru þeir þá í júlí Jakob Crowford og Kristján að líta eftir þurrara landi, leizt þeim vel á landnám við Grunnavatn, þar var þá engin bygð. Heyuðu þeir þar um sumarið, ásamt Magnúsi syni Kristjáns og Þorsteinn Hördal er komið hafði það sumar sunnan frá Dakota. Bygðu þeir þar fjögur íveruhús, þau fyrstu í Grunnavatnsbygð og fluttu í þau um haustið. Jakob bygði sitt hús í Section 20; Kristján og Magnús í Section 28 og Þorsteinn í Section 22 í Township 19, Range 3 West. — K. S.

Bls. 33. Þamárvöllum á að vera: Þambárvöllum.
" 34. Skiðunessenni á að vera: Skíðanessenni.
" 37. Þorviður (á tveim stöðum) á að vera: Þuríður.
" 40. Pálína Kortsdóttir á að vera: Pálína Ketilsdóttir.
" 41. Hjálmar Freeman á að vera: Hjálmur Freeman.
" 48. Maran á að vera: margan.
" 58. ,,Þaksbrá" á að vera: ,,þakstrá".

---

# SJÁVARDJÚPIÐ.

Hið mesta slys á sjó, sem sögur fara af, vildi til 1912. Spánýtt farþegja skip White Star línunnar, Titanic, nýrunnið af stokkunum og á fyrstu ferð sinni yfir Atlantshaf brunaði á leið sinni á ísborg mikla og sökk fám stundum eftir áreksturinn. Þráðleysufregn fékk skipstjóri um ís fyrir stafni en henni var ekki sint, líklega meðfram af því að ekkert þótti mega granda skipinu, hólfrað sundur eins og það var í ólæk gólf, svo það átti ekki að geta sokkið. Með skipinu fórust um 1600 manns. Þeir liggja á mararbotni á tveggja mílna (1760 faðma) dýpi. Það er fróðlegt að gera sér grein fyrir því hvernig þar er umhorfs.

Sjávarfargið er alveg óskaplegt á því djúpi og líkin eru fergð af því í þunnar grjótharðar flögur, þetta manns handar þykkar, og sigin ofan í botnsaurinn rauðan og slýjaðan, sem morar af hryllilega fáránlegum kykvendum og eru þau á svamli á og umhverfis líkin og eta aurinn.

Hljótt og rótt er í því djúpi, geislar sólar ná ekki niður þangað og þó óveður lemji sjóana fyrir ofan upp í hvítfyssandi garða, þá raska þau ekki djúpsins ró. Þar niðri er niðdimt myrkur og sífeldur helkuldi. Í þessu myrkraríki liggur Titanic með járnhúfinn mikla sokkinn ofan í aurinn meira eða minna, ef til vill alveg kominn á kaf í hann. Því enginn hefir kannað dýpt aurleðjunnar á útsævisbotni.

Það er algeng trúa hjá sjómönnum og öðrum, að skipbrot sökkvi ekki til botns í sjónum, þau fari ekki lengra niður en þar til sjávarþrýstingurinn haldi þeim uppi. Þar mari þau á lopti í myrkradjúpinu og grotni sundur með

tímanum. En vísindin þekkja að það er satt, sem sagði hinn mikli sjávarbotns könnuður, Sir John Murray: Það sem sökkur til botns í vatnsglasi, það sökkur og til botns í sjó á hvaða dýpi sem er.

Vatnið er einn hinn ófergilegustu hluta, sem til eru. Það er ekki hægt að fergja það nema 1/10 þúsundasta hlut af rúmmáli þess. Því er sjórinn ekki nema lítið eitt þéttari í sér við botninn heldur en við yfirborðið, þótt botnfargið sé ógurlega mikið. Þó er fergingin í sjónum svo mikil að væri farginu lyft af alt í einu, þ.e.a.s. þyngd sjávarins numinn af honum, svo hann bæri allstaðar á hnettinum sama farg og þéttleik og hann nú hefir á yfirborði sér, þá mundi hann óðara bólgna upp ein 500 fet á hæð og færa í kaf flestar bygðir jarðar.

Sjávarbotninn hefir víðast hvar verið kannaður og rannsakaður í þeim höfum sem liggja milli heimskautsbauganna. Dýpstu djúp, alt að 8 mílna djúp, hafa verið rannsökuð með vírkönnum, blýsökkum og botnvörpunetum úr vír, og aurinn slæddur upp úr botninum og kykvendi þau, sem hafast þar við. Jafnharðan leitar blýsakkan botns síðustu míluna, sem hina fyrstu. Í nýlega útgefinni skýrslu frá sjófræðisskrifstofu Bandaríkjanna segir, að ekki megi rengja lögmál það, að hver hlutur sem sökkvi svo í sjó fyrir sakir sinnar eigin þyngdar, að enginn dəpill standi upp úr, hann hljóti að sökkva til botns, og geri ekkert til, hve langt sé milli botnsins og yfirborðsins. Því þarf ekki að bera brigður á það, að öll skipbrot og allir hlutir, sem eru svo þungir að þeir sökkva niður fyrir yfirborðið, fari til botns. Sú kredda að skipsflök og náir drukknaðra mari niðri í miðjum sjó og grotni þar sundur, er bábilja tóm.

Loptfargið eða loftþunginn er 14 pd. á ferþumlungi hverjum á yfirborði sjávar og lands og öllum þeim hlut-

um, sem á þeim eru, sjávarfargið er 2000pd. á ferþumlungi hverjum á mílu dýpi og vex og þverr tiltölulega eftír því sem mílnatalan rennur til. Á dýpinu, sem Titanic liggur á, er sjávarfargið 4000 pd. á hverjum ferþumlungi. Ekki lentu allir þar niður, sem á skipinu voru. Um 700 manns björguðust í báta, margir létu á sig björgunarsveiga og fundust síðar á floti í stórum breiðum á sjónum, örendir, en þeir sem sogast hafa niður af hringiðunni sem skipið gerði þegar það sökk hafa lent svo langt niður í sjó að þeir hafa kent á sjávarþunganum og hann hefir óðara kramið alt loft og loptleg efni úr skrokk þeim og náir þeirra hafa svo liðið æ lengra og lengra niður í djúpið og fergzt æ meir og meir og loks hafa þeir orðið harðir í sér eins og grjót og það meira að segja áður en þeir komu hálfa mílu í sjó niður. Aldrei skýtur þeim upp aftur. þeir liggja á mararbotni, þangað til þeir eru grotnaðir upp til agna. Eftir óratíð verða tennurnar einar eftir af þeim, því þær eru harðasta efnið í mannslíkamanum, og með tímanum eyðast þær líka. Hákarlatennur koma oft npp í djúpsævisbotnsköfum úr 5 og 6 mílna dýpi, og það eru einu leifarnar sem eftir eru af fimbulskepnum, sem látið hafa líf sitt fyrir, ef til vill, miljónum ára.

Monaco furstinn sem er orðlagður sjófræðingur, gerði þessa tilraun til að sýna sjávarfargið: Hann lét tjörukaðalspotta síga í sjó niður á mílu dýpi, og kaðallinn fergðist svo, að þvermál hans rýrnaði úr einum í hálfan þumlung.

Ekki verður tölu komið á þann aragrúa af lifandi skepnum kvikum og ókvikum, sem sjávarbotninn byggja, en öll eru þau svo bygð að þau fá staðist þetta skelfilega farg, 2000 pd. og þar yfir á ferþumlunginn, en þeim er og dauðinn vís, ef þau voga sér upp úr djúpinu. Það ber stundnm við að djúpsævisfiskar elta bráð sína hvatvíslega upp djúpið og lenda of hátt í sjó, þá skýtur þeim upp

kollhnýsum. Eftir því sem fargið léttist, blása þeir sundur og springa loks og stundum finnast þeir á sjónum á floti, sprungnir og sundurtánir. Þeir eru líka æfinlega sprungnir, þegar þeir fást í botnsköfum.

Enginn gróður er á því dýpi, sem Titanic liggur í. Urtagróður þrífst ekki nema á grunnsævi, en fiskar og hryggleysudýr hafast við á öllum djúpum sjávar. Hávaðinn af þeim lifir á botnsaurnum, leir og dýra og urta leifa molum sem berast niður ofan að. Auræturnar eru margar stærðardýr og á þeim lifir fjöldi af rándýrum, sem bæði eru gráðug og hafa skringileg tól til að hremsa og þreifa fyrir sér.

Sjávardjúpið geymir mörg undradýr. Sumstaðar er botninn alþakinn dýrum, sem sitja þar föst í stórum breiðum, t. a. m. ígulker og steinliljur. Þar eru álum líkir hákarlar, langir og höggormslegir, bandfiskar 30 feta langir og vega 800 pd. með skarlatzrauðann ugganneins og fax framan frá haus og aftur á sporð, og þar eru á kreiki firinsmokkfiskar, þetta 100 feta langir, sem búrhvelum þykir ekki aldeilis ónýtt að leggja sér tíl munns. Ekki getur ljótari skepnur en smokkfiska þá. Skrokkurinn á þeim er eins og tunna í laginu og sporðurinn eins og örvaroddur, hvass og stálharður, augun eins og undirskálar á stærð, blínandi og full af seyð, en á hausnum sitja fanglimir tíu, tveir af þeim 50 feta langir, hinir átta 20 feta, allir með sogskálum eins og þeir eru langir til. Í skoltunum sitja tvö íbjúg nef líkast því sem er á páfagaukum. Smokkfiskar þessir vega mörg þúsund pund og geta skift litum á skrokknum eins og kameleonar.

Kuldinn í djúpinu kemur til af því, að sjórinn kólnar við heimskautin og hnígur til botnsins og líður svo með botninum frá báðum heimskautum til miðbaugs. Þar hlýnar hann aftur og leitar þá upp á yfirborðið og fellur svo í

yfirborðsstraumum aftur til heimskautanna. Yfirborðsstraumarnir eins og t. d. Golfstraumurinn, belja fram, en botnstraumurinn í djúpinu er lygn og líður fram með hægð.

Titanic sökk örskamt suður af syðri rönd Nýfundnalands grunnanna, þar sem þeim tekur að halla ofan í „Sigsbeedjúpíð". Grunn þessi eru mikið flæmi í sjónum. 330 mílna breid frá norðri til suðurs og 390 mílna löng frá austri til vesturs. Dýpið er að meðaltali 180 fet, en víða miklu minna en það. Grunnin eru í rauninni ekki nema afarmikið fjall í sjónum. Kollurinn á því flatlendur og vaxinn þangi og öðrum sjávargróðri, sem þorskarnir lifa á. Á grunn þessi sækja fiskiflotar frá flestum löndum.

Golfstraumurinn fellur norður við suðurrönd grunnanna, en heimskautastraumurinn kemur að norðan með austurjaðrinum á þeim og ber með sér hafísinn, sem Titanic kom að klandri. Þokusælt er á Nýfundnalands grunnum og veldur því að straumar þessir, annar hlýr og hinn kaldur, rekast þar saman.

Enginn mannshönd hróflar framar við Titanic og þau áhöld verða aldrei fundin upp sem lyfti henni upp úr djúpinu. Djúpið það mun til eilífrar tíðar reynast ofurefli við að eiga fyrir mátt og megin mannvitsins.

Hið mesta dýpi sem kafað hefir verið í kafarabúningi er 200 fet. Á því dýpi var sjávarfargið 88 pd. á ferþumlungi. Mannskrokkurinn fær ekki afborið þyngra farg. Mesta afrek sem liggur eftir kafara, er það talið er gullkisturnar voru sóttar í Alfons XII. Hann sökk árið 1853 á móts við Gandohöfða í Kanarisku eyjunum meiri. Vátryggingarfélagið gerði út 3 kafara og hét þeim háu hundraðsgjaldi að launum af því sem næðist. Gullkisturnar voru tíu alls í skipinu og það lá á 160 feta dýpi, en geigvænlegastur var reiði og rár skipsins, að loftpípur kafaranna kynnu að festast á þeim svo ekki yrði hægt að draga þá upp aftur, eða knéast, og þeir kafna, áður en nokkurri björg yrði viðkomið. Alt gekk þó slysalaust og náðu þeir öllum kistunum nema einni.

---

# HELZTU VIDBURDIR OG MANNALÁT MEDAL ÍSLENDINGA Í VESTURHEIMI.

---

Vorið 1912 útskrifuðust úr College-deild Manitobaháskólans:
Björn Hjálmarsson,
Jónas Th. Jónasson,
Hallgrímur Jónsson,
Miss Ethel Middal,
Gordon A. Paulson.

---

Í júní 1912 tók Sigurjón Jónsson heimsspekispróf við Chicago-háskólann með beztu einkunn. Árið 1910 útskrifaðist hann frá Únítara prestaskólanum í Meadville í Pensylvaníu. Sigurjón er sonur Jóns Benjamínssonar og konu hans Önnu Jónsdóttur, er eitt sinn bjuggu á Háreksstöðum í Jökulsárhlíð í N.-Múlasýslu.

---

15. júní 1912 var Mekkin Sveinsdóttir sæmd meistaranafnbót (M. A.) af háskóla Seattle-borgar í Wash. Mekkin er dóttir Gunnars Sveinssonar og konu hans Kristínar Finnsdóttur, sem búa í Seattle.

---

Í júní 1912 tók fullnaðarpróf í læknisfræði Oliver S. Olson við læknaskóla í Chicago. Foreldrar hans eru Sigurgeir Olafsson og Halldóra Guðmundsdóttir, sem búa í Duluth. Minn.

---

Við kosningar til fylkisþings Saskatchewan í júlí 1912 náði kosningu hr. Wilhelm H. Paulson, kaupmaður í Leslie, Sask.

---

27. okt. 1912 vígð kirkja Immanuels-safnaðar í Wynyard, Sask. af forseta kirkjufélagsins síra Birni B. Jónssyni.

---

5. nóv. 1912 var herra Gunnar B. Björnsson ritstjóri og eigandi blaðsins Minneota Mascot, kosinn á ríkisþing Minnesota-ríkis, gagnsóknarlaust.

---

## MANNALÁT.

13. des. 1911: Jón Þorlákur Sigurjónsson, Kristjánssonar við Hallson, N. Dak. (ættaður af Höfðaströnd í Skagafirði) 22 ára.
20. des. 1911: Stefán Björnsson í Vancouver, B. C. (ættaður af Jökuldal), 58 ára.
22. des. 1911: Guðfinna Finnbogadóttir kona Þorsteins bónda Kristjánssonar í Arnesbygð í Nýja Islandi, 32 ára.
26. des. 1911: Kristín Jónsdóttir ekkja eftir Þórarinn Þorvaldsson bónda við Íslendingafljót, 84 ára.
28. des. 1911: Laufey Júlíana, dóttir Júlíusar Jónassonar í Winnipeg, gift enskum manni, Fowler að nafni, 20 ára gömul.
29. des. 1911: Guðrún Jónsdóttir, Runólfssonar, kona J. V. Jósephssonar í Minneota, Minn. (ættuð úr Reyðarfirði), 58 ára.
Des. 1911: Helga Magnúsdóttir til heimilis hjá dóttur sinni við Cold Springs-pósthús í Man.(ekkja eftir Jón Mattíasson frá Hergilsey í Breiðafirði), 90 ára.

### Janúar 1912:

4. Katrín Tómasdóttir kona Ingimundar bónda Ólafssonar við Wild Oak, Man.
6. Karitas Petrea, dóttir Jakobs Crawford í Athabaska Landing í Alberta, 19 ára.
9. Petrína Guðnadóttir kona Jóns V. Thorlákssonar í Winnipeg (ættuð úr Mývatnssveit), 47 ára gömul.
9. Sigurður Pétursson til heimilis í Gardar-bygð (Skagfirðingur), 82 ára.
10. Ingibjörg dóttir Guðm. Árnasonar og konu hans Guðrúnar Þórðardóttir í Selkirk, Man., gift enskum manni, Thompson að að nafni; 27 ára gömul.
14. Halldór Jóhannesson í Winnipeg (sonur Jóhannesar Halldórssonar og konu hans Önnu Guðlaugsdóttur er um eitt skeið bjuggu á Grýtubakka í Höfðahverfi og síðar á Urðum í Svarfaðardal. Flutti hingað 1883), 60 ára.
16. Margrét Sveinborg Jóhannesdóttir kona Sigfúsar Björnssonar bónda við Íslendingafljót (ættuð úr Skagafirði), 33 ára.
17. Páll Árnason bóndi við Ísafoldar pósthús í Manitoba (fæddur að Minna-Mosfelli í Grímsnesi), 58 ára.
18. Katrín Guðríður Ólafsdóttir prests Guðmundssonar síðast á Hjaltabakka í Húnav.s kona Kristins Ólafssonar bónda við Gardar, N. D., 78 ára.
23. Solveig Pétursdóttir kona Einars Guðnasonar í Seattle, Wash. (ættuð af Höfðaströnd í Skagafirði).
28. María Árnadóttir til heimilis hjá B. Andréssyni bónda í Argylebygð, ekkja eftir Jóhannes Oddson,(þau bjuggu um eitt skeið á Tjörnesi í Þingeyjars.), 82 ára,

29. Hans Níels Níelsson hjá syni sínum Friðrik bónda íÁrdalsbygð í Nýja-Íslandi. (Flutti hingað vestur frá Baugastöðum í Kelduhverfi 1875), 90 ára.
29. Guðrún Magnúsdóttir Hjaltalín hjá syni sínum Guðjóni Hjaltalín í Winnipeg, ekkja eftir Hans Jósepsson Hjaltatín (ættuð úr Hnappadalssýslu), 78 ára.
30. Stefán Gunnarsson í Winnipeg, (ættaður úr Húnav.s.), 83 ára. Kona hans María Kjartansdóttir andaðist 8. des. f. á.
31. Aðalbjörg Jónasson í Minneota, Minn., ekkja eftir Lopt Jónasson er þar lézt 1892.

FEBRÚAR 1912:

4. Hannes Hannesson á Gimli,(fæddur á Bjarnastöðum í Kolbeinsdal í Skagafj.s. og voru foreldrar hans Hannes Halldórsson og Sigurlaug Þorsteinsdóttir; flutti hingað 1876 og dvaldi lengst af á Gimli), 61 árs.
10. Jón Jónsson bóndi í Framnes-bygð í Nýja-Ísl., (ættaður úr Hornafirði), 68 ára.
12. Ólafía, dóttir Jakobs bónda Jónssonar og konu hans Önnu Björnsdóttir við Mountain, N.-Dak., 32 ára.
15. Kristján Kristjánsson, Gabríelssonar bónda í Kristnesbygð, 17 ára.
16. Sturla Björnsson Frímann í Winnipeg, (ættaður úr Dalasýslu), 77 ára.
21. Sigríður Helga Friðfinnsdóttir kona Ásmundar Jónssonar bónda við Sinclair, Man., 36 ára.
25. Herdís Guðmundsdóttir til heimilis hjá Bjarna Guðmundssyni bróður sínum í Lincoln Co., Minn., 45 ára.
29. Málfríður Eiríksdóttir Green í Spanish Fork, Utah, (ættuð úr Vestmanneyjum), 70 ára.

Halldór Kristjánsson til heimilis hjá syni sínum Sigurbirni í Winnipeg, 68 ára.

Þóra Kristjánsdóttir, kona Ingjaldar Ingjaldsonar í Selkirk, (ættuð úr Húnav.s.), á sjötugsaldri.

MARZ 1912:

1. Guðjón Gíslason, bóndi við Mozart, Sask. (frá Gunnólfsvík í N.-Múlas.), 63 ára.
9. Ingibjörg Guðnadóttir, kona Frank G. Jóhannssonar við Svoldpósthús í N.-Dak.
9. Guðmundur Þórður Johnson, bóndi í Garðar-bygð, N.-Dak.
10. Valgerður Hannesdóttir,Jónssonar prests að Glaumbæ í Skagafirði, ekkja, til heimilis hjá syni sínum við Akra, N.-Dak., á níræðis aldri.
13. Ólavía Ólafsdóttir í Marshall, Minn., ekkja Einars Arnason (Anderson, frá Rjúpnafelli í Vopnafirði), 59 ára.
14. Finnbogi Erlendsson, bóndi nálægt Mountain, N.-Dak.,(ættað-

ur úr Þingeyjarsýslu, systursonur Jóns heit. Sigurðssonar á Gautlöndum), 75 ára.

14. Helgi B. Bardal, bóndi við Markerville, Alberta, 33 ára, (sonur Benedikts Jónssonar Bardal og Sezelíu Pálsdóttur, með fyrstu landnemum í Alberta nýl.).

18. Elín Jónsdóttir hjá syni sínum Guðjóni Thomas í Winnipeg, ekkja Ingimundar Ingimundarsonar prentara og lengst af voru til heimilis í Reykjavík, 87 ára.

19. Ólafur Ólafsson bóndi í Mikley á Winnipegvatni (ættaður úr Bolungarvík við Ísafj. djúp), 72 ára.

22. Guðrún Björnsdóttir, kona Júlíusar Eiríkssonar bónda í Álftavatnsbygð, (ættuð úr Hjaltastaðaþinghá í N.-Múlas.), 46 ára.

25. Guðrún Jónsdóttir, kona Þorleifs Jackson, (Jóakimsson) til heimilis í Kristnessveit (ættuð af Berufjarðarströnd), 66 ára.

29. Kristján Kristjánsson Eyford í Winnipeg; (flutti hingað frá Rvík 1887).

30. Einerentiana Jónsdóttir, kona Magnúsar Narfasonar bónda á Víðivöllum við Gimli, (ættuð úr Dalasýslu), 57 ára.

Ásmundur Bjarnason, bóndi við Gardar, N.-Dak., (bróðir Andrésar heit. kaupm. í Rvík), rúmlega fertugur.

Benjamín Alexanderson í Bellingham, Wash., bóndi, 45 ára.

### Apríl 1912:

1. Tómas Kristjánsson hjá dóttursyni sínum, Kristjáni, við Hallson, N.-Dak.; (flutti hingað vestur 1876 úr Dalasýslu), 94 ára.

1. Benedikt Sigurðsson, Benediktssonar til heimilis hjá dóttur sinni í Winnipeg, Ölveigu Sigurlínu Gíslason; (flutti til Ameríku 1889; bjó um mörg ár í Heiðarseli í N.-Múlas.), 82 ára.

4. Vernika Ragnheiður Þorkelsdóttir, kona Sveins Kristjánssonar í Wynyard, Sask., (dóttir Þorkels Vernharðssonar og Þuríðar Hansdóttur er bjuggu að Víðirkeri í Bárðardal), 64 ára.

6. Jósefína Margrét Bjarnadóttir, Árnason í Pembina, 19 ára.

8. Arnfríður Arngrímsdóttir til heimilis i Argyle-bygð (ættuð úr Hróarstungum í N.-Múlas.), 84 ára.

8. Guðný, ekkja Jörgen heit. Johnson í Winnipeg (ættuð úr Þingeyjarsýslu).

14. Sæmundur Friðriksson, bóndi við Antler, Sask.; (ættaður úr Borgarfjarðarsýslu), 46 ára.

16. Ólína Gróa Pálsdóttir, dóttir Páls Ísakssonar, bónda við Brownpósthús í Man., gift enskum manni, Ford, 25 ára.

17. Lilja Laxdal, dóttir Jens Laxdal og konu hans Guðfríðar (eru þau úr Dalasýslu), við Dafoe, Sask.

22. Marteinn Ólafur Jóhannesson í Winnipeg, (ættaður úr Dalasýslu), 44 ára.

25. Helga S. Johnson á heilsuhælinu í Ninette, 21 árs.

28. Páll Markússon til heimilis á Gimli.

25. Laurentína Nikólína Sigurðardóttir, kona Magnúsar Markússonar, skálds í Winnipeg, (ættuð úr Haukadal í Dalas), 44 ára.

28. Helga Jónsdóttir, ekkja eftir Jón Bergsteinsson (dáinn á Íslandi), hún var til heimilis í Foam Lake-bygð, 89 ára.

29. Skarphéðinn sonur Eggerts bónda Stefánssonar við Tranter-pósthús, 25 ára.
30. Halldór Jónsson, bóndi við Íslendingafljót (ættaður úr Skagafirði), 75 ára.

MAÍ 1912:

3. Magnús Ólafur Sigurðsson Smith í Seattle, Wash., (ættaður úr Skagafirði), 47 ára.
4. Halldóra Helgadóttir Þorsteinsson til heimilis hjá móður sinni Hildi Thorsteinsson í Winnipeg.
5. Jón Einarsson, bóndi við Hallson, N.-Dak., (foreldrar hans voru Einar Jónsson og Halla Jónsdóttir og bjuggu á Svarthóli í í Miklaholtshrepp í Snæfellsness.; flutti hingað í álfu 1876), 54 ára.
10. Valgerður Jónsdóttir, Mýrdal, kona Sigurðar Mýrdals í Victoría. B. C. (fædd í Skammadal í Mýrdal í V.-Sk. og voru foreldryr hennar Jón Guðmundsson og Margrét Einarsdóttir; flutti með manni sínum hingað 1876), 68 ára.
12. Sigurgeir Einarsson bóndi á Mýrum í Nýja-Íslandi.
15. Ingunn Ólafsdóttir, kona Jóns Péturssonar í Edmonton, (fluttu þau hjón hingað vestar frá Kolgröf í Skagafirði 1876), 74 ára.
16. Guðmundur Jón, sonur Árna Johnson við Whitesand River, 23 ára.
21. Þorsteinn Gíslason í Selkirk, (úr Austur-Skaftafellss.), 58 ára.
24. Jónína Amundadóttir, kona Elíasar Geirssonar bónda í Mikley á Winnipegvatni, (ættuð úr Borgarfj.sýslu), 27 ára.
28. Björn B. Gíslason í Grafton, N.-Dak.; (foreldrar hans voru Gísli Jónsson og Sigurlaug Benediktsd. er bjuggu á Neðri-Mýrum í Húnav.s.), 59 ára.
31. Sigurður Magnússon, bóndi í Albertanýlendu (frá Sævarlandi í Ytri Laxárdal í Skagaf.).

JÚNÍ 1912:

11. Síra Lárus Thorarensen á leið til Íslands.
15. Aðalsteinn Kristjánsson Skagfjörð, við Swan River, Man. 27 ára.

JÚLÍ 1912:

2. Jón Sigurjónsson, til heimilis hjá dóttur sinni í Transcona, Man, (Þingeyingur, fæddur á Einarsstöðum í Reykjadal), 64 ára.
5. Guðmundur Árnason í Selkirk, Man. (ættaður úr Reykholtsdal í Borgarfj.s.; flutti hingað 1875), 66 ára.
7. Aðalbjörg Hjálmsdóttir, ekkja til heimilis í ísl. nýlendunni í Minnesota, (úr Vopnafirði), 89 ára.
9. Bjarni Stefán, sonur Ólafs heit. Andersons, kaupm. í Minneota Minn., 25 ára.

24. Þórvör Sveinsdóttir, kona Jóns Halldórssonar í Líncoln, Nebr. (ættuð úr Þingeyjarsýslu).
27. Guðbjörg Friðrika Björnsdóttir, kona Jakob Bye í Winnipeg (ættuð frá Ísafirði), 62 ára.
27. María Fjeldsteð, til heimilis hjá móður sinni Sofíu Sveinsson í Winnipeg, dóttir fyrri manns hennar Sturlaugs heit. Fjeldsteð, 18 ára gömul.
28. Ingibjörg Ólafsdóttir í Minneota, Minn. (ættuð úr Húnav.s.), 76 ára.
29. Sigfús Jósepsson á heimili sonar síns, Árna, við Minneota, (úr Vopnafirði), 80 ára.

## ÁGÚST: 1912:

. Hans Jónsson í Portland, Oregon, (fæddur á Krossi í Mjóafirði 1836; flutti til nýlendunnar í Minnesota 1884 frá Grund í Mjóafirði í N.-Múlasýslu).
9. Jón Hallsson í Winnipeg (ættaður úr N.-Múlasýslu), 79 ára.
24. Loftur Þórðarson í Winnipeg (ættaður úr Fljótshlíðinni),22 ára.
28. Einar S. Björgólfsson, Brynjólfssonar í Winnipeg (af Vopnafirði), 19 ára.
29. Jónas Ikkaboðsson, Ólafssonar í Winnipeg (ættaður úr Dalasýslu) 47 ára.

## SEPTEMBER 1912:

1. Þorgerður Erlendsdóttir, kona Friðriks Jónssonar í Winnipeg, (ættuð úr Kelduhverfi í Þingeyjars.), 61 árs.
3. Guðbjörg Sturlaugsdóttir, kona Hjálmars bónda Jóhannessonar í Geysis-bygð í N.-Íslandi, (ættuð úr Dalasýslu), 48 ára.
8. Pétur Ásmundarson í Glenboro, Man., (ættaður úr Þistilfirði í N.-Múlasýslu), 70 ára.
9. Jósep Helgason, bóndi við Wild Oak, Man., (ættaður af Langanesi), 65 ára.
11. Sesselja Daníelsdóttir hjá syni sínum Ármanni Magnússyni, bónda í N.-Íslandi (ættuð úr Eyjafirði), 79 ára.
11. Helga Jónsdóttir, kona Friðriks Bjarnasonar í Winnipeg, (fædd í Argyle-bygð, dóttir Jóns heit. Magnússonar og konu hans Stefaníu Jónsdóttur), 29 ára.
13. Þórunn Guðrún Jónsdóttir, kona Sigvalda Baldvinssonar,bónda við Hallson, N.-Dak.), 42 ára gömul.
15. Benedikt Bjarnason á Gimli, (fæddur á Skógi í Norðurárdal 1857; flutti hingað vestur 1888).
15. Björn Jónsson, bóndi við Íslendingafljót (ættaður úr Borgarfirði eystra), 70 ára.
21. Guðrún Óteigsdóttir, ekkja eftir Jón Einarsson, (úr Hornafirði), til heimilis við Framnes-pósthús í N.-Islandi.

21. Karl, sonur Skúla Anderson bónda við Brú-pósthús, Man. 27 ára.
22. Jón Gíslason, kaupmaður á Washington-eyjunni í Wisconsin. (Hann var í hópi þeirra er lögðu frá Íslandi til Vesturheims 1870, sjá almanak þetta fyrir árið 1900).
24. Eyvindur Jónsson í Winnipeg, (ættaður úr Þingvallasveit), 57 ára.
30. Ingimar Marísson við Merid-pósthús í Sask. (ættaður úr Mýrasýslu), 76 ára.

OKTÓBER 1912:

15. Hallgrímur Hallgrímsson Hólm, bóndi við Hallson, N.-Dak., (bjó lengst af á Íslandi á Löngumýri í Hólmi í Skagafirði; flutti þaðan hingað vestur 1876), 80 ára.
22. Þorsteinn Þorsteinsson, til heimilis hjá syni sínum Þorsteini Þ. Þorsteinssyni í Winnipeg. (Fyrrum bóndi að Upsum í Svarfaðardal í Eyjafj.s.), 86 ára.
27. Halldór, sonur Sveins Halldórssonar, bónda við Foam Lake-bygð, Sask., 28 ára.

NÓVEMBER 1912:

18. Salóme Ólína Magnússon, kona Guðm. Magnússonar við Framnes-pósthús, á fimtugs aldri.
19. Hólmfríður Magnúsdóttir, á heimili tengdasonar síns Thorbergs Jónssonar bónda við Glenboro, Man., ekkja Bjarna Þorlelfssonar; bjuggu allan sinn búskap á Íslandi í Vík í Sæmundarhlíð í Skagaf. (ættuð var hún úr Þingeyjars.), 83 ára.

DESEMBER: 1912:

2. Jósep Pálson, innflutningsagent í Winnipeg, (ættaður úr Þingeyjarsýslu).

---

# INNIHALD: